# BRANDUR

SJÓNLEIKUR Í HENDINGUM

EFTIR

HENRIK IBSEN.

ÞÝTT HEFUR

MATTH. JOCHUMSSON.

---

REYKJAVÍK.

FÉLAGSPRENTSMIÐJAN.

1898.

G

**Hluttakendur leiksins:**

**Brandur, prestur.**
**Móðir hans.**
**Einar, málari.**
**Agnes.**
**Fógetinn.**
**Læknirinn.**
**Prófasturinn.**
**Djákninn.**
**Barnakennarinn.**
**Gerður.**
**Bóndamaður.**
**Sonur hans.**
**Annar bóndi.**
**Kona.**
**Önnur kona.**
**Skrifari.**

**Prestar og aðrir embættismenn. Alþýðufólk. Freistarinn á eyðimörkinni. Söngflokkur hinna ósýnilegu. Rödd.**

---

**(Leikurinn fer fram norður í fjörðum í Noregi eða þar í grend.**

---

# Fyrsti þáttur.

Í ófærð á öræfum uppi. Það er svarta þoka, úrfelli og hálf-myrkt af nótt.

Brandur, með staf í hendi og poka á baki, stefnir vestur af fjallinu.

Bóndi og sonur hans, hálfvaxinn piltur, dragast á eftir.

*Bóndinn*
(kallar á eftir Brandi).

Þú, ferðamaður, fylgdú mér!
Hvar ferðú?

*Brandur*

Hér!

*Bóndinn*

Þú týnir þér!
Nú sortnar hann, við sjáum valla
hvar setjum stafinn; ilt að rata.

*Sonurinn*
(kallar):

Hér eru sprungur!

*Bóndinn*

Háski að falla!

*Brandur*

Og hér sézt framar engin gata.

*Bóndinn*
(kallar)

Nei, sko, sko, maður, skaflinn bláan,
það skelfur undir, gakk ei á hann!

*Brandur*
(hlustar)
Ég heyri nið, sem brynji foss.

*Bóndinn*
Í jökulgjánni báran brotnar
og brýst þar fram, sem enginn botnar;
og gjár þær mættu gleypa oss.

*Brandur*
Ég áfram hlýt, sem hef ég sagt.

*Bóndinn*
Þér hjálpar engin veldismakt.
Sjá líttu á voðans veiku skel;
þú veizt hér mætist líf og hel.

*Brandur*
Ég *hlýt*, því stór er sá mig sendi.

*Bóndinn*
Þú sendur ert frá —?

*Brandur*
Drottins hendi.

*Bóndinn*
Og sjálfur ertu —?

*Brandur*
Ég er prestur.

*Bóndinn*
Þó allra presta værir mestur,
þó beint þú værir biskupinn,
þín biði skýlaus dauði þinn,
ef hér þú vildir hætta þér
og hlaupa á þvílíkt voða-gler.
Þótt lærðir mikið megi sér,
þeir megna ei það, sem ófært er

sæ, séra minn, þér sjálfum hlíf
og seldu dýrt þitt einka-líf.
Hvað áttu, seg mér, ef það þver?
En yfir mílu fjallið er;
eða ógnar ekki þokan þér,
sem því nær skera má með hníf?

*Brandur*

Sé þokan dimm, ei villumst við
af vafurlogum hér um svið.

*Bóndinn*

En vakir eru víða þó
og veikur ísinn; það er nóg.

*Brandur*

Við syndum þá.

*Bóndinn*

Við syndum? Nei,
þú segir það, en gerir ei.

*Brandur*

Oss sýndi einn, sé sönn vor trú,
að svífa má um vatn sem brú.

*Bóndinn*

Já, forðum, en á okkar öld
er annað mál um vötnin köld.

*Brandur*
(ætlar að halda áfram)
Far vel!

*Bóndinn*

Þú bráðan bana fær!

*Brandur*

Ef bani minn er guði kær
þá mæti gljúfur, gjár og sær!

*Bóndinn*
(lágt)
Hann galinn er og viti fjær!

*Sonurinn*
Æ, snúum heim sem snarast má,
því snjór og stormur skellur á.

*Brandur*
(snýr við)
Þú bóndi sagðir sjálfur mér,
þín sjúka dóttir fjörðinn við,
hún hefði ei ró né findi frið
ef fengi' ei skjól við hjarta þér.

*Bóndinn*
Það sagði ég, og satt er bezt.

*Brandur*
Hún seldi þér ei lengri frest?

*Bóndinn*
Nei.

*Brandur*
Ekki?

*Bóndinn*
Ekki.

*Brandur*
Áfram þá!

*Bóndinn*
Með engu móti. Snúum frá!

*Brandur*
Þú hefðir viljað hundrað gefa
svo hefði' hún dáið rótt?

*Bóndinn*
Já, fús.

*Brandur*

Tvö hundruð?

*Bóndinn*

Bæði bú og hús,
og bréf þar upp á, já, án efa,
svo fengi hún sætan banabeð.

*Brandur*

Þú hefðir látið lífið með?

*Bóndinn*

Hvað, lífið, prestur góður?

*Brandur*

Já.

*Bóndinn*

Nei, vit og hóf skal öllu á.
Og Jesús minn, á ég að gleyma,
að ég á börn og konu heima!

*Brandur*

Þú nefnir *einn*, sem átti móður.

*Bóndinn*

En afar-langt er síðan góður;
þá skeðu undur oft hjá lýðum,
sem aldrei heyrast nú á tíðum.

*Brandur*

Far heim, þín gata glötun er;
þú guði neitar, eins hann þér.

*Bóndinn*

Já, strangur ertu.

*Sonurinn*

Hröðum heim!

*Bóndinn*

Við hverfum ei frá manni þeim.

*Brandur*

Frá mér?

*Bóndinn*

Já víst, þú villist hér
í veðri því, sem komið er;
og verði bert, hvað varla dylzt,
um víða bygð, að höfum fylgst,
að hverjum berast böndin? Mér!
Og veltist þú í vötn og dý,
þá verð ég settur fjötur í.

*Brandur*

En guð þig kallar, gættu' að því.

*Bóndinn*

Mig varðar helzt um mig og mína,
en minna' um hann og þig og þína.
Kom nú!

*Brandur*

Far vel!

*Sonurinn*

(snjóflóð heyrist)

Æ, þruman! Þey!

*Brandur*

(við bóndann, sem þrifið hefir í hann)

Slepp taki!

*Bóndinn*

Nei, nei!

*Brandur*

Slepp!

*Sonurinn*

Kom!

*Bóndinn*

Nei!

Á, á, hver fjandinn!

(flýgst á við Brand).

*Brandur*

Efa sízt,

hann á og fær þig nær sem líst!

(varpar honum niður í snjóinn).

*Bóndinn*

(gnýr handlegg sinn).

Æ, æ, sú krumma karls er sterk;

það kallar hann víst drottins verk!

(stendur upp og kallar).

Þú, prestur!

*Sonurinn*

Hann er horfinn nú.

*Bóndinn*

Nei, hann er þarna.

(kallar).

Seg mér, þú,

ef manstu það hvar vikum við

af veginum við snjófellið?

*Brandur*

Án krossmarks brautar bjargast þú,

hinn breiða veg þú stefnir nú!

*Bóndinn*

Þá velkir mig ei villan köld,

en varmt og hlýtt ég sit í kvöld;

(hann og sonur hans hverfa austur af).

*Brandur*

(sést á hæð og horfir á eftir þeim).

Þeir vinglast heim. Þú værir sæll,

ef viljann hefðir, ragi þræll!

Þótt orkan hefði' ei hálft spor flutt þig,
ég hefði feginn leitt og stutt þig;
á þreyttum hrygg með hælbein skorið
ég hefði létt og glatt þig borið; —
en hjálp er vitlaus við þann mann,
sem vill ei meir en orkar hann.

(heldur áfram)

Hm! lífið, lífið; undur er
hve í það fast þeir halda sér.
Sem leyndist gauðs hvers lífi í
alls landsins gagn og hjálp og frelsi,
og allra sálna synda-helsi
í sundur bryti eitt þrælkað þý!
Að vísu fátt þeir vilja spara,
en veslings lífið má ei fara!

(brosir með sjálfum sér).

Sem barn ég oft að hugmynd hló,
svo hirting fékk hjá skólastjóra,
og sem mér hló í huga þó
ég hirti minst um leik og óra;
myrkfælin ugla, sjóhrætt síli,
var sí og æ mín hugarsmíð;
þótt að mér herti opt í gríð
var óðar sprungið hláturs kýli.
En hvar kom af sú hlátra hríð?
Mig hefir dreymt hið mikla stríð
í milli þess, sem hvað eitt *er*
og hvað eitt *skal* og *á* að vera;
í milli þess: „mér ber að bera“,
og: „byrðin sýnist of þung mér“.
Og þessa uglu, þetta síli,

ég þekki nú á hverju býli.
Til djúps á hver vor landi að leita
og lífs síns myrkur gegnum þreyta;
en þetta hræðist hann sem morð
og hrökklast upp á fjöru-borð,
hann óttast stjörnu-húm síns hjarta,
en heimtar ljós og daga bjarta.

(nemur staðar og hlustar).

Hvað ómar þar? Ég heyri hljóð;
ég heyri söng og gleði-læti,
já, húrra-köll og lysti-ljóð,
sem leiki fólk með stórri kæti.
Nú rennur sólin, þokan þynnist,
og þarna' er hjallinn, sem ég minnist;
og fólk á leik við leitið hátt,
sem morgungeislar skrúði skrýða,
en skuggar vestur af brúnum líða.
Menn hjala þar og kveðjast kátt.
Þeir skiljast að, og aðrir venda
í austurátt, en vestur tveir;
með höndum, klút og hatti þeir,
til hinna þessir kveðju senda.

(Sólin fer að skína en þokan hverfur. Hann bíður þeirra sem koma).

Það leikur eins og ljós um þessi;
sér lyftir þokan alt í kring,
og hvar þau stíga, lýsir lýng,
sem heiði, sól og blóm þau blessi.
Systkyni? Hönd í hönd þau slá
og hoppa kát um mosa-sléttu,
hún beitir spori lipur-léttu

og liðugt hann sem víði-tág. —
Þar skildust þau. — Þar hleypur hún. —
Hann henni nær. — Nei, bænheyrn enga! —
Nú kemur hún með hýra brún. —
Nú hlæja þau og byrja söngva.

(*Einar* og *Agnes* í léttum ferðafötum, kafrjóð, koma fram á hjallann; fagur morgun yfir fjallinu).

*Einar*

(syngur).

Agnes ég flýgi af feginleik,
ef fiðrildi mínu ég næði;
ég mynda vil net úr möskvum smá,
og möskvarnir eru mín kvæði.

*Agnes*

(hoppar á undan honum og lætur hann ekki ná sér).

Ef ég er fiðrildi lítið og létt,
úr lyngskúf er rétt að ég drekki;
og ef þú ert piltur ör í leik,
þá elt mig, en ná mér ekki!

*Einar*

Agnes, fagrasta fiðrildið mitt,
ég fléttað hef möskvana alla;
og viljirðu flögra, veiztu þó
þú verður í netið að falla!

*Agnes*

Ef ég er fiðrildi ungt og bjart,
ég ætla mót sólunni' að skína;
en hefti mitt flug þitt háska-net,
þá hreifðu' ekki vængina mína!

*Einar*

Nei, ég skal lyfta þér hægt á hönd

og hjarta mitt skal þig geyma;
þar skaltu leika lífið út
og ljúfustu stundir dreyma!
(án þess þau viti, eru þau komin fram á hátt hengiflug).

*Brandur*
(kallar).

Kyr, kyr, því þar er flugið! Frá!

*Einar*

Hver kallar?

*Agnes*
(bendir).

Sjáðu!

*Brandur*

Hikið! Hopið!
Þið standið hárri hengju á,
sem hylur manni djúpið opið!

*Einar*
(grípur utan um Agnesi og hlær).

Við hræðumst ekki; hættu' að benda.

*Agnes*

Við heilsum langri gleðistund.

*Einar*

Og sólskins-dögum guðs á grund,
sem vart að hundrað árum enda.

*Brandur*

Og dettið fyrst í djúpið þá?

*Agnes*
(veifar handlíni sínu).

Nei dönsum upp mót himni blá.

*Einar*

Fyrst hundrað ár í eftirlæti,

við ástablys á hverri nátt,
og hundrað ára hörpuslátt; —

*Brandur*

Svo?

*Einar*

Aftur heim í himna kæti.

*Brandnr*

Þið þjótið hingað þaðan frá?

*Einar*

Ef þaðan eigi, — hvaðan þá?

*Agnes*

Frá kunningjum við komum næst
og kvöddum bygðir austan fjalla.

*Brandur*

Ég sá til ykkar, hélt ég, hæst
við hrygginn þar sem fer að halla.

*Einar*

Þar skildumst vér við fagran foss
við frændurna og vini hýra,
með handabandi og blíðu-koss
við bundum hverja minning dýra.
Við fylgjumst! Ég má frómt um segja,
hve fjarska góður drottinn var
og hvernig gjörvöll hnoss sig hneigja.
En, húkið ei sem freðinn þar!
Nei, látið yður hitna' og hlýna. —
Ég hlýt þá fyrst að nefna mína
málaralist, því guð var góður
þar gaf mér háan vængja-róður,
að draga lífið fram með förfum,
sem flugur hann úr maðka-lörfum.

En stærsta gæzkan, guð minn er,
að gafstu þú Agnesi' litlu mér.
Ég kom að utan, langt úr löndum,
bar litastokk og pensil minn, —

*Agnes*

Og kátur eins og kongurinn
með kvæðasafn á reiðum höndum.

*Einar*

Um fjöllin hér mín ferð var gjör,
þá finn ég hana í kynnistför.
Hún vildi teyga bjarka-blæ
og bjarkar-ilm á heiðar-bæ;
en mig dró þangað goðmagns-gneisti;
með guðamóð og sálar-hreysti,
ég fegurð svalg við fjallasjó,
við fimbuljökla og heiðar-skóg!
Þar skóp ég afbragð allra mynda
með ástarrós á hýrri kinn,
og þessar brár, sem blessun kynda,
og bros, sem ná í hjörtun inn.

*Agnes*

Þú sást þó vart hvað vildir mynda,
þú varst að teyga lífsins skál;
og alt einu' eitt morgun-mál
þinn ferðamal þú mundir binda.

*Einar*

Þá grípur hugsun hjarta' og sál:
Upp, heigull, með þín biðilsmál!
Af stað; það reynt, mitt bónorð búið,
og bandið trygða spunnið, snúið.
Vor gamli læknir lék og hljóp

með ljóðasöng og gleði-óp,
og daga þrjá hann heimboð hélt
til heiðurs okkur saman felt.
Lénsmaður, klerkur, klukkarinn,
þar kom og æskulýðurinn.
Í nótt við héldum heiman frá,
en hátíðinni sleit ei þá;
með blæju' og kransa kollum á,
þeir komu' í hópum fram í skóg;
og sumir upp á heiði há
unz halla tekur vötnum blá.

*Agnes*

Um fjallið alt var ferðin dans
í flokkum, eða konu og manns.

*Einar*

Við supum vín af silfurskál. —

*Agnes*

Um sumarnótt gall ljóðamál. —

*Einar*

Og niðsvört þokan norðri frá
oss nærri fór, en ætíð hjá.

*Brandur*

Og ferð er heitið?

*Einar*

Suður um sæ.

*Agnes*

Þar syðra á ég heima í bæ.

*Einar*

Í vestur fyrst, unz fjallið þrýtur;
við fjörðinn okkar bíður skeið;
til brúðarsalsins beina leið

eimdrekinn okkar þaðan þýtur.
Og eftir það í suðrið saman
sem svanir ungir fljúgum við. —

*Brandur*

Og þar?

*Einar*

Skal brúðkaup glymja gaman
um gullið töfra-leiðslu svið; —
því vit á þessum himin-hæðum,
þann helga morgun nú sem leið,
án vígslu prests með veizlu-kvæðum
þeir vígðu okkar gleðiskeið.

*Brandur*

Og hverjir?

*Einar*

Vinir kátir, kærir;
við krúsarhljóm var lýst í bann
hvert amaský, svo framhjá færi
og fyndi' ei okkar laufskreytt rann.
Hvert orð í máli mælt þeir flæmdu,
sem minna' á kjörin völt og ströng
og lukkubörn oss bæði dæmdu
með blómsett hár og gleði-söng.

*Brandur*
(stuttlega).

Sæl, bæði þið!

*Einar*

Nei, bíðið þér;
þá brún ég þekki, sýnist mér.

*Brandur*
(kuldalega).

Þér þekkið mig? Ég yður eigi.

*Einar*

Á, skal það ei? Jú, sem ég segi
ég sá yður í skóla; jú. —

*Brandur*

Í skóla, — já, við bernsku bekki;
ég barn var þá, en vaxinn nú.

*Einar*

Hvað, mun ég blektur: Brandur, þú!
Jú, Brandur víst; nú þig ég þekki!

*Brandur*

Ég þekti þig frá fyrstu stund.

*Einar*

Ég heilsa þér með hug og mund.
Nei, horfðu til mín! Jú hinn sami,
sem vera vildi oftast einn,
og aldrei var sá leiði-tami
þótt hinir léki, — hreinn og beinn!

*Brandur*

Ég var hjá ykkur aðskots-dýr,
en oft til þín mig minnir, hlýr.
Þó sýndist mér þið syðra' í landi
ei sama kyns og ég, sem er
úr harðri bygð hjá brimgum sandi
við bjargafjöllin svört og ber.

*Einar*

Er bygð þín ekki einmitt hér?

*Brandur*

Jú, yfir hana stefnum vér.

*Einar*

Já, yfir hana, — og svo hvert?

*Brandur*

Svo út úr henni fer ég þvert.

*Einar*

En ertu ei prestur?

*Brandur*

Prestur, en
mitt prestakall ei þekkja menn.

*Einar*

Hvar hyggstu þá að hallast að?

*Brandur*

(kuldalega).

Af hverju viltu spyrja' um það?

*Einar*

Já —

*Brandur*

Skipið, sem þið ætlið á,
skal einnig ferja mig um sjá.

*Einar*

Nú, — blessuð fregn! mín brúðkaups-skeið
skal bera' hann, Agnes, sömu leið.

*Brandur*

Ég fer í erfi fyrst um sinn.

*Agnes*

Í erfi —?

*Einar*

Hver er hjúpi vafinn?

*Brandur*

Sá guð, þú, karl minn, kallar þinn,

*Agnes*

(til Einars).

Kom!

*Einar*

Brandur!

*Brandur*

Hjúpi harðvafinn
skal hafinn út og þegar grafinn
hver guð, sem tímans gauð og þý
hér gasprar með um land og bý.
Mér líst nú mál sá liggi nár,
sem lá í kör í þúsund ár!

*Einar*

Hvað, ertu heill?

*Brandur*

Frá hvirfli í tær
eins hraustur eins og fjallablær,
en tímans sjúka synda-lið
þarf sannarlega læknis við.
Þið viljið leika, tifa á tá,
og trúa blint, en ekki sjá, —
og hlaða þunga öllum á
hinn eina, sem þið heyrið sagt
að sektar-okið á sé lagt.
Fyrst hann sig lét af háði kransa,
þið hafa þykist leyfi' að dansa.
Nú, stigið dans og dans, — en hvert?
það dylst um stund, en verður bert.

*Einar*

Á, kom það þar? Hinn sami són,
sem sunginn er um borg og frón.
Þú fylgir hinni ungu öld,
sem ávalt hrópar syndagjöld,
og hræðir sem með satans glóð
í sekk og ösku vora þjóð.

*Brandur*

Nei, kalla mig ei krafta-prest
né kirkju neinnar ræðu-hest;
hvert ég er kristinn, veit ég varla,
en maður heill með hold og blóð
ég heiti' og er og sé þann galla
sem margdrap vora veslu þjóð.

*Einar*

Það hef ég aldrei ennþá heyrt
að okkar fólk, þó þyki seyrt,
sé geigvænlega glatt og kátt.

*Brandur*

Af gleði deyr það víst ei brátt.
Af gleði þykist sérhver sæll.
Ég segi: vertu hennar þræll,
en vertu' þá bæði hnakki og hæll,
ei eitt í dag og eitt í gær,
og annað svo er líður fjær;
ver ei í pörtum, heldur heill,
ei haltur, klofinn, skakkur veill!
*Bakkus* er kendur víst við vín,
en versta mynd hans heitir svín.
*Silen* á gerfi glæsimanns,
en græðgis-hít er skrípi hans.
Far þú að leita lands um hring
og líttu' á fólkið alt í kring,
og þú munt finna hvernig hver
úr heilum manni skiftir sér.
Með alvörublæ til brúks á helgum,
smá-byrginn eftir feðra sið,
smá-áleitinn með aftan-svelgjum

því einnig *það* var feðra lið,
smáheitur oft um hjartarætur,
þó helzt er gellur óður sætur
um vora hraustu hamra-þjóð,
sem hvorki þolir löst né hnjóð;
smá-hugumstór við heitstrengingar,
smá-hárjárn þegar gáður þingar
um heit, er gaf við horna-sjá
til hjálpar, þegar stórt við lá.
Sem áður sagt, af öllu smátt,
hans afrek stíga hvergi hátt,
í illu' og góðu er hann brot
og um fram alt hann forðast þrot;
en eitt er verst, þau brotin brota
alt brota-kerfið slá og rota.

*Einar*

En létt er verk að lasta' og rífa,
en langtum mannúðlegra' að hlífa.

*Brandur*

Máske, en vart eins holt og heilt.

*Einar*

Ei meir um lesti lands skal deilt,
ég læt þá standa, hitt er gaman
að heyra hvernig hangir saman
þitt glæpa-tal og greftranin
þess guðs, sem enn ég kalla *minn*.

*Brandur*

Minn glaði vinur, fyrst mig fýsir
þú fyrir mér þessum guði lýsir,
ég heyri sagt þú hafir gert
af honum mynd og brjóst hvert snert.

Hann sýnist roskinn? Hvernig? Hár?

*Einar*

Nú, hví ei —?

*Brandur*

Rétt, og silfurgrár?
þunnhærður víst, sem ellin er,
með alhvítt skegg, sem hrím við gler;
hægur, en þó svo hvass á brá
að hrætt hann getur börnin smá;
hvort tifi hann með tylli-skó,
ég tala' ei um, því samt er nóg,
en sniðið sjálfsagt gerði gott:
gleraugu forn og húfu-skott!

*Einar*

Og hvað á þetta?

*Brandur*

Það er ei spott.
Ég lýg ei hót, þar líta má
vorn lands- og hús-guð til að sjá.
Sem kaþólskir sinn krakka-ungann
í Krists stað setja á torg og hjarn,
þið myndið öldung elli-þungan,
sem aftur er að verða barn.
Sem páfinn tollir tæft á stóli
með tvískeggjaðan lykil sinn
eins hneppið þið í heimsins skjóli
alt himnaríki í kirkjur inn.
Þið greinið líf frá kirkju-kenning,
og krækið fyrir sannleiks-menning;
þið viljið hugsa hátt og skrifa.
en hirðið ei til fuls að lifa.

Þið kjósið fyrir glys og glingur
þann guð er sér í gegnum fingur.
Sem þjóðin hlýtur hann að grána,
með húfu-lok um snoðna brána.
Sá mildi guð er mér ei kær,
því minn er stormur, þinn er blær,
þinn auðveldur, minn ósveigjandi,
minn almáttugur, þinn í bandi,
minn ungur, fríður, frjáls og hár,
ei frómleiks karl með sextíu ár.
Hans rödd var þrúðugt þrumu-hljóð
er þyrninn brann og Móses stóð
og sá hann hrista Horebs-berg
sem heljar-risa minsta dverg.
Sá guð batt sól í Gibeons dal
og gjörði tákn fyrir utan tal,
og væri ei þjóðin veik sem þú
þau verk sem fyr hann gjörði nú.

*Einar*
(glottir).

Svo, nú skal skapa nýja þjóð!

*Brandur*

Já, nú er tíminn, sé ég fæddur
og réttum sálar-gáfum gæddur
að lækna hennar broyska blóð.

*Einar*
(skekur höfuðið).

Þó dauft þú blys í dimmu kyndir
ei deyð það fyr en veg þú sér,
og afmá hvorki orð né myndir
ef ekkert betra fundið er.

*Brandur*

Nei, einskis nýs ég ætlast til,
hið eilífa ég þrái' og vil,
og það er hvorki kreddu-kirkja
né kenningar, sem ég vil styrkja;
því hvort um sig sér upphaf á
og eitt sinn því svo fara má,
það hljóti á skapa-skeri' að lenda,
alt skapað hlýtur loks að enda;
það máist fyrir möl og ryð
og má ei lengur haldast við,
en fær sér annað form og snið.
En eitt er það, sem aldrei deyr,'
sá andi, sem er eilífð frá,
sem endurreis þá fallin lá,
og drottinn blés á lífsins leir;
sem sló með máttkri manndóms trú
á milli holds og andans brú.
*Þeim* anda' er sundrað, sukkað, dreift,
og sjálfum guði' úr völdum steypt.
En upp úr þessum andans rotum
úr öllum þessum sálna-brotum
skal gera *heild* mín höndin sterk,
unz herran sér sitt furðuverk,
sinn niðja, Adam, annað sinn,
sem ungan, nýjan, frumgetinn.

*Einar*

(tekur fram í)

Og hér mun bezt að hættum við.
Far heill!

*Brandur*

Í vestur farið þið
en ég í norður, næsta jafnt
við nið'r í fjörðinn eigum samt.
Far vel!

*Einar*

Far vel!

*Brandnr*

Þitt líf sé list.
Af ljósi reyk og sora hrist!

*Einar*

Flýt þér að hnoða' upp heiminn þinn,
ég held í gamla drottinn minn.

*Brandur*

Þú lánar hækju og hökuskegg,
ég hjúpinn gef og kistulegg!
(hverfur ofan af brúnunum).

*Agnes*

(Stendur um stund eins og í leiðslu, lítur síðan í kring um sig).
Gekk sólin undir?

*Einar*

Undir ský,
og aftur sézt nú björt og hlý.

*Agnes*

Hann blæs svo kalt.

*Einar*

Já kaldur blær
frá klettagnýpu þarna slær.

*Agnes*

Hve fjallið þar í suðri' er svart,

það sýndist áðan hýrt og bjart.

*Einar*

Þú sást það ei fyrir söng og leik,
en svo kom hann, og þú varst smeik.
En fari hann þá björtu braut,
við byrjum leikinn hvar hann þraut.

*Agnes*

Nei, ekki nú, ég er svo þreytt.

*Einar*

Og alt eins ég hef dansað nóg;
hér ofan er ei gengið greitt
sem götuna' yfir heiðarskóg.
En þegar brekkan búin er
við byrjum danzinn, hver sem sér,
já, tífalt meiri, sæst og ört,
en annars kostar hefðum gjört.
Nei, Agnes, horfðu' á bandið blá,
sem blessuð sólin stafar á;
nú hrukkað, nú sem glitri gler,
nú glætt sem silfur, nú sem raf;
hið mikla veldisvíða haf
í vestri blikar móti þér!
En sérðu þarna svartan reyk
um sólskinsfjallið draga kveyk,
og sérðu dökkva depilinn,
sem dregst þar fyrir hamarinn?
Þú eimskips-drekann okkar sérð,
sem inn hér stefnir beina ferð,
í kvöld hann leggur landi frá,
þá leikum við hans þiljum á. —
Þar kemur þokan þykk og grá.

En þarna, Agnes, sérðu þá
hvar himinn girðir hamra-sali?

*Agnes*

Já, vel, en seg mér sástu —

*Einar*

Já —?

*Agnes*

Hve svipurinn óx með hverju hans tali?
(fer niður stíginn og Einar á eftir).

*Vegur eftir fjallshlíðinni, flug fyrir neðan, en snjó-tindur fyrir ofan.*

*Brandur*

(kemur, nemur staðar og horfir niður fyrir).

Vel ég kannast enn við alt,
oddann, naustið, túnið halt,
börð og fen og engja-yrkju,
og þá gömlu, lágu kirkju;
ána, bakkann, birkirunna.
Bygðin mín í æsku kunna!
Þó finst mér hér orðið alt
eitthvað smærra, grátt og kalt;
lengra fram af hangir hengjan,
hefir ennþá bænum frá
lengra dregið loftið bjarta,
lokað meira dalnum svarta,
hún vill betur byrgja' og þrengja' hann,
bæja sól og skyggja á.
(sezt niður og horfir enn)

Fjörður varstu' ei fegri þá,
fanna-kistu-smugan grá?

Skúra-veður; skrautlegt far
skauta sé ég úti þar.
Sunnar hamra sé ég skyggja;
sölukrá og lítil bryggja;
litlu austar eyri og gil
ekkju bær með rauðleitt þil!
Það er bernsku bærinn minn;
brjóstið fyllir minningin.
Þar sem bárur brýtur steinn
barn ég lærði' að vera einn.
Yfir mér er þyngsla-þrá,
því ég er í ætt við þá,
sem til jarðar æ og æ
andann beygði á þessum bæ.
Alt sem fyr ég hugði hátt,
hjúpast þoku, dauft og grátt;
þróttur, dáð og hjarta heykjast,
hugarafl og sálin veikjast;
kominn heim mér finst ég flúinn
frá mér sjálfum langt á braut,
eins og Samson reyrður, rúinn,
rögg mín horfin, farin trúin,
fallinn beint í skækju skaut.
Hvert skal nú? Til hverrar yrkju?
Hvað mun þessum höndum á?
Hverju bygðar býli frá
karlar, börn og konur streyma,
koma — hverfa — stendur heima:
fram til hinnar fornu kirkju!
(stendur upp)
Ó, þið dyljist ekki mér,

aumu, sljófu sálar-hrer!
Þótt þið fleiprið faðir-vor,
fyllir það ei brjóst og hugi;
verður ei svo áhrifs-væn
eða ljær svo háleitt þor
að til himins hæða dugi
flugið, nema' hin fjórða bæn;
hún er allra himna-brú,
hlífðarlaust frá efni slitin,
vogrekinn og veðurbitinn
fleki úr allri ykkar trú.
Burt úr dimmri dauða-gjá!
Dauða-lofti frá í skyndi;
enginn framtaks-fáni má
fljóta hér í skörpum vindi!

(Í því hann er að fara, er steini kastað uppi yfir honum í hlíðinni).

Þey! hver kastar?

*Gerður*

(Hálfvaxin stúlka, hleypur eftir hlíðinni með steina í svuntu sinni).

Kom það á?

Hann klakar!

*Brandur*

Gæt þín stúlka smá!

*Gerður*

Þar húkir karl við stóran stein
og stendur tæpt á hríslugrein.

(kastar aftur og æpir hátt).

Nú kemur hann með hvassar klær;
æ hljálpa mér, hann ber og slær!

*Brandur*

Í herrans nafni —

*Gerður*

Hver ert þú?

Hægt, hægt! Ver kyr; hann flýgur nú.

*Brandur*

Hver flýgur?

*Gerður*

Hefirðu' ei haukinn séð?

*Brandur*

Hvar, hérna?

*Gerður*

— Stóra fuglinn ljóta,
með ylgda brún og grimdargeð
og gula brá og flugið skjóta?

*Brandur*

Hvert ætlar þú?

*Gerður*

Til kirkju.

*Brandur*

Nú.
svo komdu með ef girnist þú.

*Gerður*

Við bæði? Ég fer beint á brún.

*Brandur*
(bendir).

Er hér ei kirkjan?

*Gerður*
(bendir upp).

Hér er hún.

*Brandur*

Nei, fylg þú mér.

*Gerður*

Mér finst það lágt.

*Brandur*

Þér finst það lágt?

*Gerður*

Og dimt og smátt.

*Brandur*

Hvar sástu hærra hús en það?

*Gerður*

Hvað, hærra? Ég veit annan stað.
Far vel!

(stefnir upp hlíðina).

*Brandur*

Hvar finst sú herrans höll?
Þú heldur upp á regin-fjöll!

*Gerður*

Já, maður komdu, kom að sjá,
mín kirkja er bygð úr ís og snjá.

*Brandur*

Úr ís og snjá! Nú, er hún *það!*
Í æsku man ég sagt var að
í einum stað á eyði-slóð
sé ískirkja, sem nefni þjóð,
og margt um hana heyrði' ég sagt:
úr hálum ís sé gólfið lagt,
en yfir hengju-loft sé létt
úr ljósri mjöllu, bjart og slétt

*Gerður*

Það lítur út sem ís og snjór,
en er samt kirkja víð og stór.

*Brandur*

Gakk aldrei þar, því kæmi kast
mörg kirkjan sú í veðri brast;
við hvell og skot mörg hengja hljóp. —

*Gerður*

En heﬁrðu' ei séð minn dýra-hóp,
sem skriðan tók og fanst ei fyr
en fólkið kom í vor, — ég spyr?

*Brandur*
(bendir upp)

Gakk aldrei þar, en flý það fljótt!

*Gerður*
(bendir niður fyrir)

Gakk aldrei þar, sem svo er ljótt!

*Brandur*

Far þú í friði!

*Gerður*

Fylgdu mér!
þar fossinn gamli kórdjákn er,
og séra Stormur kyrja kann
svo kulda slær í gegnum mann.
Og fálkinn, þessi fólsku-kind,
hann flögrar upp við Svartatind;
ég sé hann þar sem sót og dust,
hann situr á minni kirkjubust.

*Brandur*

Þú veður reyk með trölla-trú,
sem töfra-fiðla leikar þú. —
Hið *ljóta* eftir lengsta þvott
er *ljótt*, en *ilt* má verða *gott*.

*Gerður*

Sko varginn, hvar hann hvín við sól!
Èg hleyp af stað að fá mér skjól;
í kirkju minni fæ ég frið.
Sko fantinn! Líttu' á óhræsið!
(æpir)
Komdu' ekki! Sko, ég kem með stein!
ef klórar þú, ég slæ með grein!
(hleypur til fjalls)

*Brandur*

Þar sá ég nýjan guðshúss gest.
Hver gata' er skárst? Hver villist mest?
Á hvora hönd er heljar-sveim;
en hver á lengst til friðar heim:
Sú *léttúð*, sem með laufgað hár
sér leikur tæpt um flug og gjár;
sú *deyfð*, sem labbar löt og treg
af löngum vana farinn veg;
sú *villi-sál*, sem veður reyk
með vont og gott í bernsku-leik? —
Upp, upp, sjá féndur alt í kring;
hér ógnar þreföld herfylking!
Og þessa köllun sál mín sér
sem sól í gegnum móðu — gler.
Ég trúi: — Þessi tröllin þrjú
þau trylla alla veröld nú;
en hrapi þau í heljar-nótt
mun heimsins plágu létta skjótt.
Upp, bú þig sál og brandinn spenn,
þú berst fyrir drottins óðalsmenn.
fer niður í bygðina.

# Annar þáttur.

**(Niðri við fjörðinn; brattar hlíðar beggja vegna. Lítil, hrörleg kirkja stendur þar nærri á árbakka. Illviðri í lofti)**

***Almenningur*, menn, konur og börn hafa skipað sér, sumt um fjöruna, og sumt um bakkann fyrir ofan. *Fógetinn* situr þar í miðju á steini, og *skrifari* við borð. Þeir útbýta korni og öðrum matvælum. *Einar* og *Agnes* með ýmsu öðru fólki standa lengra frá. Nokkrir bátar standa neðarlega í fjörunni. *Brandur* kemur á bakkanum hjá kirkjunni, en fólkið sér hann ekki.**

*Maðurinn*
(þrengir sér fram)

Úr vegi!

*Kona*

Èg kom fyrri!

*Maðurinn*
(hrindir henni)

Frá!

(til fógetans)

Èg fæ í pokann? Lítið á!

*Fógetinn*

Nei, bíddu!

*Maðurinn*

Æ, sú bón er grimm
því börnin hljóða fjögur, fimm!

*Fógetinn*
Þú manst þau ekki upp á hár?
*Maðurinn*
Nei — eitt er máske liðinn nár.
*Fógetinn*
En skaltu standa skránni á?
(blaðar í bók)
Já, skratti heppinn varstu þá; —
(til skrifarans)
hann tuttugu — og — níu taki sitt. —
Nei, troðist ei! Mér er ei fritt.
Þú, Davíð!

*Maðurinn*
Já.

*Fógetinn*
Í dag þú fær
nú drjúgum minna en fyrra sinn;
þið fækkuðuð.
*Maðurinn*
Jú, fóki minn:
hún Friðgerður mín dó í gær!
*Fógetinn*
(skrifar)
Einn búinn. Sparað, sparað er.
(til mannsins, sem er að fara)
En flasaðu' ei né flýttu þér
að festast aftur!
*Skrifarinn*
Hí-hi-hi!
*Fógetinn*
Því hlærðu?

*Skrifarinn*

Nei, ég hló að því,
sem herran sagði gamni í.

*Fógetinn*

Að vísu gránar gaman hér,
en grátsins óvin hlátur er.

*Einar*

(fer með Agnesi út þrönginni)

Um slíkan stein er hægt að hrasa,
ég hefi pyngju tæmt og vasa
sem betli-karl um borð ég treð,
og bíð mitt úr og prik í veð.

*Fógetinn*

(til Einars og Agnesar)

Þið komið rétt í tæka tíð,
því tífalt meira þurfti hér;
hver skerfur dugar skamma hríð
þó skifti allir jafnt með sér;
þeir skifta svangir skömtum smá
og skenkja þeim, sem ekkert fá.

(sér Brand koma)

Einn ennþá. Sælir, hafið þér heyrt
um hungrið, flóðið, tímans hörku?
Leys budduna, sé bandið reyrt,
vort búr er tómt, vér þiggjum alt,
sem annars býðst og oss er falt;
fimmfiskatáknsins verður valt
að vænta nú á eyðimörku.

*Brandur*

Ei þúsund fiska seddi safn
þá sál, er hæðir drottins nafn.

*Fógetinn*

Já þeirra orða þarf ei neinn,
í þunnan maga orð er steinn.

*Einar*
(til Brands)

Þú mátt fyr löngu hafa heyrt
hve hungrið hefir fram úr keyrt.
hér geysa sóttir, hörmung hel, —
sko hér er lík!

*Brandur*

Ég sé það vel.
Á hverrar bráar blýgrám hring
er birt hver hafi sett hér þing.

*Einar*

Þó horfirðu á sem stirður steinn.

*Brandur*
(fer inn í mannþröngina)

Ef stæði' ei yfir háski neinn
og hér væri' að eins hversdags nauð,
ég hrópa skyldi: líkn og brauð!
Ef þú á fjórum fer á sveim,
sem ferfætt dýr þú kemur heim.
Ef dagur elti dag í ró,
sem dánarmessur, yrði reymt,
menn dreymdi við þann dauðasjó
að drottinn hefði öllu gleymt.
Hans hönd er ykkur holl og góð,
hann hristir ykkar dauða blóð;
hann slær með hörðum heljarstaf
og heimtar aftur hvað hann gaf!

*Ýmsar raddir*
(ógnandi)
Hann hæðir vora heljarnauð!
*Fógetinn*
Hann hlær að oss, sem gáfum brauð.
*Brandur*
(hristir höfuðið)
Ó, mætti alt mitt æðablóð
í einu verða heilsu-flóð!
Það skyldi fossa fagur-rautt
unz félli lík mitt stirt og dautt!
En það er synd að hjálpa hér:
Guðs hirting ykkar frelsi er.
Eitt lífsfólk, þótt sé þunt og fátt,
af þraut og stríði sýgur mátt;
hin sljófga sál fær fálka-flug,
og fegurð, kraft og ofur-hug;
hinn halti vilji hlaupa fer,
því hnossið bak við skeiðið sér;
en skapi' ei þrautin þrek og gerð.
er þjóðin ekki lausnar verð.
*Kona*
Sjá ofsa-rok um allan fjörð;
það espast við þá ræðugjörð.
*Önnur*
Hann egnir guð, minn grunur er.
*Brandur*
Hann gjörir víst ei táknin hér.
*Konur*
Sko rokið, bylinn!
*Ýmsir*
Burt með hann

og berjum grjóti slíkan mann.

(Fólkið gerir aðsúg að Brandi, fógetinn gengur í milli. *Kona* kemur hlaupandi niður bakkann, hamslaus og flakandi).

*Konan*

Í Jesú nafni, náðið mig!

*Fógetinn*

Hvað nú, hvað nú? Hvað angrar þig?

*Konan*

Það er ei angur eða tár,
er ógn og skelfing, dauða-fár!

*Fógetinn*

Hvað er að?

*Konan*

Ég hef ei raust. —
Æ, hvar er prestur, dæmalaust!

*Fógetinn*

Ég veit ei —

*Konan*

Hann fer heljarstig!
Æ, hví hefir guð minn skapað mig!

*Brandur*

(kemur að)

Það kann að finnast klerkur einn.

*Konan*

(þrífur til hans)

Æ, komi hann þá og veri ei seinn!

*Brandur*

Seg hvaða fár. Þá fylgir hann.

*Konan*

Yfir fjörðinn?

*Brandur*

Já.

*Konan*

Ég á þar mann —
þau lágu þrjú við hungurs-hel, —
sæ, heldurðu' hann geti farið vel?

*Brandur*

Seg fyrst.

*Konan*

Af ofraun öll ég brenn.
Oss aumkvaði hvorki guð né menn;
það yngsta varla andann dró —
í örvinglun hann barnið sló —!

*Brandur*

Hann sló —!

*Fólkið*

Sitt barn!

*Konan*

En strax í stað
hann sturlun grípur eftir það;
hann hrópar: „Ég fer heljar-stig!“
og hnífinn rekur gegnum sig!
Kom, hlauptu móti hel og sjó,
hann hefir ekki vit né ró,
en veltist um og barnið ber
bölvandi, dautt í fangi sér!

*Brandur*

Já, hér er böl.

*Einar*

Hvað, ber slíkt við?

*Fógetinn*

Hún býr fyrir utan hreppsins svið.

*Brandur*

(byrstur)

Á flot með bát og flyt mig yfir!

*Maður*

Um fjörðinn kemst ei neinn sem lifir.

*Fógetinn*

Jú, fyrir innan fara má.

*Konan*

Þar fer ei neinn; ég slapp þar hjá,
en í því áin hljóp sem haf
og hengju-brúnni fleygði af.

*Brandur*

Út bátinn!

*Maður*

Nei, því ótært er,
og ofsabrim að landi hér.

*Annar*

Sko, — rétt í þessu rok-mökkinn,
það rýkur allur fjörðurinn!

*Þriðji*

Ég sver við hempu, pontu' og pall,
hjá prófasti' er nú messufall.

*Brandur*

Í dauðans voða, víti nær
sá veiki' ei spyr hvert kyr sé sær.
(stökkur í bát og leysir seglið)
Þú bátinn ljærð?

*Eigandinn*

Já, herran hlífi —

*Brandur*

Nú hingað hver, sem vogar lífi!

*Maður*

Ég fer ei hót!

*Annar*

Ei heldur ég,
hann hleypur beinan dauðans veg.

*Brandur*

Í ykkar guði er engin dáð,
til annars guðs ég sæki ráð.

*Konan*

Hann deyr þá út af!

*Brandur*

Einn er nóg
til austurs, því við fáum sjó.
Kom! Gjafamenn, þið gáfuð vel,
en gefið nú — í hel, í hel!

*Ýmsir*

(hopa frá)

Nei, ekki —

*Maður*

Farðu, farðu burt,
þú freistar guðs! Úr bátnum! Kjurt!

*Aðrir*

Hann hvessir enn!

*Enn aðrir*

Og festin fór!

*Brandur*

(þrífur krókstjaka og höggur bátinn fastan; til konunnar)
Fljótt, fljótt í bátinn! Þörf er stór!

*Konan*
(hopar)

Ef enginn —?

*Brandur*

Lát þá flýja frá!

*Konan*

Èg fer ei —

*Brandur*

Ferðu ei?

*Konan*

Börn mín smá!

*Agnes*

(snýr sér snögglega að Einari, tekur í hönd hans og stynur þungt)

Þú sérð! Þú sérð!

*Einar*

Hans sál er sterk.

*Agnes*

Guð signi þig! Lít nú þitt verk!
(kallar til Brands)
Sjá, hér er einn svo gildur gjör
að gugnar ei við hetju-för!

*Brandur*

Kom!

*Einar*

Ég?

*Agnes*

Já, gakk; ég gef þig nú;
og guði' sé lof, ég blind fékk trú!

*Einar*

Áður en sá ég fagra frú,
ég farið hefði' og bátnum stýrt.

*Agnes*

En nú?

*Einar*

Nú finst mér fjörið dýrt,
ég fer ei.

*Agnes*

(hrökkur aftur á bak)
Ó, hvað heyri' ég sagt!

*Einar*

Ég þori það ei!

*Agnes*

(hljóðar upp yfir sig)
Þar var lagt
með þungra strauma nið sem hvín
heilt úthaf milli mín og þín!
(til Brands)
Ég fer í bátinn!

*Brandur*

Flýt þér þá!

*Konur*

(þegar Agnes stökkur út í bátinn)
Guð forði!

*Einar*

Agnes!
(hann og fleiri vilja ná í hana)

*Ýmsir*

Upp úr! Frá!

*Brandur*

Hvar liggur bærinn.

*Konan*

(bendir yfir um fjörðinn)
Bærinn? Hér!

**Á bak við þetta svarta sker.**

(báturinn leggur frá)

*Einar*

(kallar eftir þeim)

Hún móðir þín! — Nei, enn eitt orð! —
Alt úti!

*Agnes*

Við erum þrjú um borð.

(báturinn siglir, fólkið þyrpist upp á bakkann og horfir á eftir honum)

*Maður*

Hann nær fyrir oddan!

*Annar*

Ekki!

*Hinn fyrri*

Jú;
út fyrir komst hann; sjáðu nú!

*Annar*

Þar skellur hviða á skipið flatt!

*Fógetinn*

Nei, skoðið, veðrið tók hans hatt!

*Konan*

Hið blakka hár hans berst um stafn
sem berji vængjum úfinn hrafn.

*Hinn fyrri*

Alt er í reyk.

*Einar*

Hver rödd það var,
sem rumdi gegnum loftið þar?

*Kona*

Úr gilinu?

*Önnur*
(bendir)
Þar hún Gerður er;
hún grenjar, því hún bátinn sér.

*Fyrri konan*
Hún blæs í gamalt hafurs-horn
og hendir grjóti, þessi norn.

*Önnur*
Nú blístrar hún í hnefta hönd,
en hornið skellur niður á strönd.

*Maður*
(bendir til Gerðar)
Þér duga ei þín kyngin köld,
sá karl á sterkan verndarskjöld.

*Annar*
Sé hann við stýrið hafs um veg
þó hvass hann væri, fylgdi ég.

*Hinn fyrri*
(til Einars)
Hver er hann?

*Einar*
Prestur.

*Annar*
Hvað um það,
hann hjartað ber á réttum stað.
Hann hopaði' ekki heldur en foss.

*Hinn fyrri*
Er hann ei prestur fyrir oss?

*Margir*
Já, hann er prestur kjörinn oss.
(þeir dreifa sér um bakkann)

*Fógetinn*
(tekur saman skjöl sín)

En samt mér finst það formsins galli,
að fást við slíkt í annars kalli,
og hleypa sér í hættu-spil,
ef hærri skipun knýr ei til;
mitt skamtað svið og skildu-reit
ég skoða mína héraðssveit.
(fer).

*(Nálægt bænum hins vegar fjarðarins. Það er liði langt fram á dag. Fjörðurinn blikar í sólskini).*

*Agnes* situr í fjörunni. *Brandur* kemur frá bænum.

*Brandur*

*Þar* var dauðinn. Liðinn lá hann,
léttur, sléttur, hreinn á brá,
ógn og skelfing flúin frá, —
áður voða-sjón að sjá hann.
Getur blekking, barnslegt tál,
breytt í ljós svo myrkri sál?
Af því svarta Satans-verki
sá hann að eins þunna skán,
eigið níðings-nafn og smán,
þar sem má með hendi hreifa,
hrópa upp, má grípa, þreifa, —
dauða barnið með hans merki.
Enn þau tvö, sem hýmdu hreld,
skimandi, sem fugl á flótta,
föl og grá og stirð af ótta
kring um dáinn arin-eld;

*þau*, sem horfðu sæðið á,
enn ei skilja hvað þau sjá,
*þau*, er sálarflekk þann fengu,
fljót og höf sem burt ei skola,
og til elli, lengi — lengi,
lýtið illa bera, þola;
*þau*, sem bera þetta' í minni
þúsund ár þó fram hjá rynni;
þau sem draga' í dagsins soll
dauða-verksins nætur-hroll;
*þau*, sem aldrei úr sér brenna
út það níðings hræva-bál, —
*þau* hann sýndist sízt að kenna
svo sem þá, er höndum spenna
einmitt glæpsins eptirmál!
Kannske aftur út frá þeim
sexlist synd um víðan heim.
Því? Ó, hása heljar svar:
hann því faðir þeirra var!
Hvað mun jafnast hels í tómi?
Hvað mun gefið upp í dómi?
Hvenær byrja börn að gjalda
brota-sekt, er feður valda?
Hvílíkt þing, er þar að rekur
þegar herrann dæma tekur!
Hver skal vitna? Hver skal kæra?
Hver og einn með saka-vef; —
hver mun dirfast fram að færa
fylgiskjöl og erfða-bréf?
Mun þá gilt og gott það svar:
Gjaldið mínum feðrum bar?

Stóra gáta, myrkri máða,
maður enginn kann þig ráða!
Fjöldinn, fjöldinn engu anzar,
yfir grafarbakka dansar.
Sálin mætti blikna, bifa, —
hundraðasti hver ei skilur
hvílíkt syndafjall sig dylur
í því eina orði': *að lifa!*

(Nokkrir bændur koma til móts við hann).

*Maður*

Í annað sinn við hittumst hér.

*Brandur*

En hann þarf ekki neins hjá þér.

*Maðurinn*

Já, hann er sjálfur sæll, en þó
þar sitja þrír með hungur nóg.

*Brandur*

Og því?

*Maðurinn*

Af okkar skorna skamt
við skiftum með þeim okkar jafnt.

*Brandur*

Ef líf þitt heilt þú hefur ei veitt
þá hefurðu ekki gefið neitt.

*Maðurinn*

Ef maður sá, sem nú er nár
hér nærri landi hrepti fár,
og æpti' af kjöl um hjálp og hlíf,
í hættu setti jeg mitt líf.

*Brandur*

En sálarinnar þraut og þörf?

*Maðurinn*
Hér þreyta mest vor dagleg störf.
*Brandur*
Því snúið ekki ykkar sýn
frá ásnum, hvaðan sólin skín,
en vendið ykkar vinstra auga
frá veröldinni, meðan hitt
til foldar snýr og hennar hauga,
þar hver einn dregur okið sitt.
*Maðurinn*
Við bjuggumst við þú byðir ráð
að brjóta sundur okið smáð.
*Brandur*
Já, freistið þess.
*Maðurinn*
Í þitt vald lagt
er það.
*Brandur*
Í mitt?
*Maðurinn*
Oss títt var sagt
og sýnt hvar vegur væri beinn,
þeir *vísuðu á*, þú *gekst hann* einn.
*Brandur*
Þú meinar víst?
*Maðurinn*
Á vorri storð
eitt *verk* er meir en þúsund *orð*.
Sá vandi' er á, oss vantar mann
í vorri sókn, og þú ert hann!

*Brandur*

Hvað viljið þið?

*Maðurinn*

Við viljum prest.

*Brandur*

Hvað, mig?

*Maðurinn*

Það sárið svíður mest
vor sókn og bygð er prests-manns laus.

*Brandur*

Nú skil ég —

*Maðurinn*

Nú er fólkið færra,
því fyr var kallið miklu stærra;
en óár kom og kornið fraus;
þá kvöldu sóttir menn og fé,
þá feldi tíðin flest á kné
og fár og neyð hér bústað kaus;
þá varð á fáum voða lot,
þá varð hér líka prestaþrot.

*Brandur*

Biðjið mig alls, en ei um slíkt,
því æðra starf mig bindur ríkt;
ég heimta lífsins opið eyra,
svo allir lýðir megi heyra.
Ég vil ei festast, fjöllin þrengja,
í fjötur verður orð hvert lagt!

*Maðurinn*

Nei, fjöllin herma, hækka, lengja
hvert hjartnæmt orð sem snjalt er sagt!

*Brandur*

Hver grúfir niðr' í gryfju djúpa
ef grænar engjar brosa mót?
Hver ræktar heldur holt og grjót
en hlýja jörð og ekru gljúpa?
Hver leikur sér að luktri rós?
Hver les þau ber sem náðu' ei aldri?
Hver horar sál á hungurs-skvaldri
ef hann á andans fjör og ljós?

*Maðurinn*
(yptir öxlum).

Þitt verk jeg skyldi, ei þitt orð.

*Brandur*

Svo endum tal, ég fer um borð.
(ætlar að fara).

*Maðurinn*
(fer í veg fyrir hann).

Sú köllun þú vilt kjósa þér, —
það kall þitt, sem í milli ber,
er þér svo ljúft —

*Brandur*

Ég léti fyr
mitt líf en það.

*Maðurinn*

Svo vertu kyr!
(með áherzlu).

„Ef líf þitt heilt þú hefur ei veitt
þú hefur ekki gefið neitt!"

*Brandur*

En eitt er það, þú ei mátt gefa,
það ert *þú sjálfur*, vinur minn,
þitt vilja-magn þú mátt ei sefa;

sem móðan ryður farveg sinn,
eins knýr þig áfram köllunin.

*Maðurinn*

Þó kall vort fari' í fen, sem grafið,
það fellur þó sem dögg í hafið.

*Brandur*

Hver kendi þér þau kjarnorð merk?

*Maðurinn*

Þau kendu mér þitt afreksverk.
Þá rokið hvein við bárubrot
og bátinn settir þú á flot
og fyrir týnda synda sál
þú sóttir fram í voðans bál,
þá hljóp oss marga hrollur í,
og hjörtun fæddust sem á ný;
þá vaktist margt í minni geymt
(lækkar róminn)
á morgun kanske dautt og gleymt,
svo aldrei sigur-segl á stag
við setjum eftir þennan dag!

*Brandur*

Ef þrekið vantar, vantar alt,
ef vera máttu' ei hvað þú *skalt*
þá vertu hreint og heilt hvað ert,
(hart)
og horfðu svo til jarðar þvert!

*Maðurinn*

(eftir litla þögn)
Vei, vei, þú sýndir sannleiks strik
en sveikst oss næsta augnablik!
(fer, og hinir á eftir).

*Brandur*
(horfir lengi eftir þeim)

Aftur heim með höfuð lotin
hægt og þögult snúa þeir,
heim í gömlu hrygðarskotin,
hyggju-þungir, tveir og tveir;
líta' ei við né eyða orðum,
eins og flýi refsi-hrís,
líkt og manna faðir forðum
flæmdur burt úr paradís; —
burt sem hann, með bundinn vilja,
burt, sem hann, með skuld og sekt,
burt sem hann, sín brot að skilja,
burt sem hann frá synd og nekt.
Nýjan vildi mann ég mynda,
meistara smíði sterkt og hreint;
er það þessi ímynd synda
en ei Guðs, — sem hafði' ég meint?
Hér er þröngt, við ilt að etja:
Út í lífið, Drottins hetja!

(ætlar að fara, en sér Agnesi í fjörunni)

Sjá, hún hlustar, horfir, starir.
Heyrir hún í lopti söngva?
Hlustandi hún hjá mér undi,
hræddist engar svaðil-farir,
hlustandi greip þóttu þrönga
þegar báran skall og dundi,
strauk svo kinn á svölu sundi.
Hefur hún víxlað heyrn og augum,
heyrir alt með sjónartaugum?

(gengur nær henni)
Ertu' að horfa fram um fjörðinn?
Finst þér ljótt á báðar hendur?

*Agnes*
(án þess að líta við)
Enginn fjörður, ekki jörðin
augum mínum fyrir stendur,
stærri jörð mitt auga eygir,
upp úr heiði rönd hún teygir;
ég sé höf og háa tinda,
heljar fjöll í landi dauðu,
ég sé ljósin loga rauðu
leiptra gegnum þoku blinda;
ég sé pálma, beina, bjarta
byljir sem að slá og hrista;
ég sé skin og skugga svarta
skúrir byrgja toppinn yzta.
er það jörð, sem á að skapa?
Ég á raddir sit og hlýði
og mér finst þær þetta þýði:
Þú skalt frelsast eða hrapa;
gjörðu verkið þrauta-þunga,
þú skalt byggja landið unga!

*Brandur*
(líka hrifinn)
Hvað þá meira?

*Agnes*
(bendir á brjóstið)
Hérna inni
hef ég stóra sólardrauma,
finn þar dynja fossa, strauma:
hjartað er sem eldur brynni,

opnast, verður feikna-geymur,
eins og jörðin, hnöttur, heimur;
orð ég heyri' er þetta þýða:
Þú skalt landið byggja, prýða!
Hugsun öll, þó ei sé fundin, —
öll þau verk sem tímans bíða, —
vakna, iða, anda, stríða,
eins og komin væri stundin;
og mig grunar, ei þótt eygi,
uppi *hann* á ljóssins vegi;
um hann sorg og elska skín,
ofan lítur hann til mín,
mildur eins og morgunljóminn,
minnir þó á gröf og dóminn.
Líka þrumar til mín tunga:
Sjá, þér ber að skapa — skapa,
skapast, lyptast eður hrapa; —
gjör þitt verk, hið þreytu-þunga!

*Brandur*

Innra, innra! Orðið rétta!
Inn á við er gatan rétta.
Hjartað, það er hauðrið hlýja
helgað fyrir sköpun nýja;
*þar* skal viljans hræfugl hræða,
helgan mann í Guði fæða.
Svo má veröld sína leið
sigla fram í rauðan deyð; —
nema gegn mér ætli' að æða,
ónýtt gjöra verkið mitt,
þá skal flagð í hjarta hitt!
Svæðið vítt sem sólin skín,

sjálfs ég krefst að njóta mín!
Þann ég kýs, og engan annan
einkarétt, — og hver má banna' hann?
(stendur litla stund og hugsar)
Njóta sín? En sektin hin,
sem oss leifir ætt og kyn? —
(nemur staðar og horfir út)
Hver mun sú, sem hingað klifar
hrum og vesöl neðan bakkann,
skjögrandi með hokinn hnakkann,
hóstar oft og staldrar við;
ætlar þá og þá að hrasa,
þreifa'r niður í djúpa vasa
mögrum fingrum, tutlar, tifar,
eins og hrædd um fé og frið.
Dingla' um beinin leppar langir.
líkt og fuglahræðum á,
höndin kreppt og hnýtt sem tangir!
hún er líkust örn, sem hangir
skammrifin á skemmuslá.
(angurvær)
Bernsku minnur kólgu kalda
kveykja aftur þessar slóðir,
þær um kerling klaka tjalda —
kaldara slær þó hjartans alda. —
Eilífi Guð! Mín eigin móðir!
*Móðir Brands*
(kemur upp bakkann, setur hönd fyrir augu
og skygnast um)
Hér segja þeir hann sé. — Hinn armi
eigi þá sól, mín sjón er frá.
Hvað, son minn?

*Brandur*

Já.

*Móðirin*

Sú birta' er bág,
hún þvingar mína þreyttu brá,
ég þekki' ei prest frá kotungs garmi.

*Brandur*

Þar heima aldrei sá ég sól
frá sumri þar til vorfugl gól.

*Móðirin*

Nei, þar er gott, því þar er svalt,
og þurra frostið herðir alt;
menn tuskast hér við tröll og hel,
og trúa samt þeir fari vel.

*Brandur*

Lif heil, ég hlýt að hraða mér.

*Móðirin*

Þú hafðir snemma asa' á þér,
í æsku strax þú straukst mér frá.

*Brandur*

Þú studdir að því sjálf hvað bezt.

*Móðirin*

En það stóð öðruvísi á,
það átti' úr þér að gera prest.

(virðir hann fyrir sér)

Jú, hár og stór. En heyrðu mér,
og hygg að hvað ég segi þér:
Far vel með lífið!

*Brandur*

Var það alt, —

*Móðirin*

Ég veit ei neitt, sem þýðir meira.

*Brandur*

Ég meinti reyndar ráð þitt snjalt,
var ráð það alt?

*Móðirin*

Nú, þiggðu fleira
af lífsreglum, ef lízt, hjá mér,
en lífið, mundu, gaf ég þér.

(reið)

Og heldur fræg var ferðin þín!
Ég felmtruð hljóp um alla móa;
þú sættir helzt því eina' að lóga,
sem á að treinast vegna mín!
Þitt kyn er dautt, þú ert sá eini,
minn einkason, mitt hold og blóð,
sá mæni-ás og bjálkinn beini,
sem ber það hús, sem líf mitt hlóð.
Ver sterkur, lifðu langar tíðir
og lífsins gættu mest, því það
er arfans skylda; efa' ei að
mitt verður þitt, að segja um síðir.

*Brandur*

Hvað, vegna þessa muntu masa
og mæta hér með fulla vasa?

*Móðirin*

Hvað, ertu frá þér!

(hopar aftur)

Ekki nær!

því annars —

(reiðir prikið)

sérðu stafinn þenna!

(hægari)

Hvað vildi' ég segja, — sonur kær,
þú sérð mér hnignar, loksins slær
sú stund, þá æfin út skal renna.
Þá reiknast þér alt reitna-greyið,
sem raðað liggur, mælt og vegið.
Ég hef ekki' á mér, heima liggur
hús mitt og góss, og hver það fær,
þó lítið sé, af sveit ei þiggur. —
Vert'u þarna kyr og komdu' ei nær!
Trú mér að ég skal engu leyna,
og engu stinga' í gjöt og sprungur,
né fleygja út í urð og klungur,
og engu troða' í milli steina,
né inn í vegg og undir fjöl;
mín eign er sjálfsögð, viss og föl
þér, son minn, einum, — öll ég meina.

*Brandur*

Með hverjum kostum?

*Móðirin*

Hvað? Þeim eina
þú viljir lífið vernda' og treina.
Lát kyn mitt vara, nið frá nið,
og gæt svo að, að ekkert spillist
og ekkert skiftist, ruglist, villist.
Afla þú eins og afla máttu,
en um fram alt, gæt þess sem áttu'.

*Brandur*

(eftir litla þögn)

Nei, annað viðtal vert er hér.
Þú veizt, ég aldrei hlýddi þér;

hvort okkar þræddi þvert sinn veg
unz þú varðst hrum og vaxinn jeg.

*Móðirin*

Ég heimta' ei klapp né kossa leik,
kærðu sem vilt, ég er ei smeik;
sýn hörku, stríð og hótin köld,
það hrín ei við minn bringuskjöld,
en geym þinn arf — set hann ei hætt,
og haltu' honum fast í minni ætt!

*Brandur*

En þóknaðist mér nú þvert á mót,
að þeyta' honum út í holt og grjót?

*Móðirin*

Hvað þeyta! Ó, mín þrældóms ár,
mitt þrautpínt bak og hvítu hár!

*Brandur*

Já, þeyta út!

*Móðirin*

Já, þeyta' á bál!
Æ, þá er úti' um mína sál!

*Brandur*

Ég varpa helzt þeim auði' á eld. —
Og ef ég stæði svo eitt kveld
við beðinn hvar þú hvíldir rótt,
og hefðir ljós og opna sálma, —
þá fyrstu döpru dauða-nótt, —
og tæki' ég þá að þreifa, fálma
við höfðalagið, ýtti ótt
því öllu frá, sem gerði tálma, —

*Móðirin*
(hálf-forviða)
Hvað, hvernig færðu hugmynd þá?

*Brandur*
Það er eitt bernsku æfintýr,
sem aldrei mér úr huga flýr,
en skemmir hjartað eins og ör
af illa grónu skarði í vör.
Eitt kvöld um haust ég kom þar inn,
sem kaldur lá hann faðir minn;
þú sjálf varst sjúk. Ég horfði' á hræddur,
hve hann var þögull, fölur, klæddur;
ég sá hann hélt á sálmabók;
ég settist þar í hurðarkrók
og undraðist hans djúpa dvala,
en dirfðist ekki neitt að tala.
Þá heyrði ég frammi fótaburð,
og fölleit kona opnar hurð,
hún svipast um, en sér ei mig,
við sængina hún beygir sig;
hún leitar, snuðrar, þreifar, þá
hún þokar höfði líksins frá,
hún tekur, hirðir, tínir fleira,
hún telur, hvíslar: *meira, meira!*
Og sænginni undan seinast tekur
hún sívafning, sem upp hún rekur,
og fumar til með fingrum grönnum
og flækjuna slítur loks með tönnum.
Hún rótar enn og finnur fleira,
hún fálmar enn og hvíslar: *meira!*
Hún biður, grætur, blótar, hrín,

og bograr við hvert hirzlu-skrín,
og bæði gleði og hræðslu háð
hún hremmir hverja nýja bráð.
Og loks er hver ein hirzla tæmd,
þá horfir hún sem væri dæmd;
hnýtir svo alt upp hundraðfalt
og hvíslar: *Þetta var þá alt!*

*Móðirin*

Ég þurfti margs en fann svo fátt,
og fyrir það var ei látið smátt.

*Brandur*

Þú máttir láta meira til,
þú mistir þá minn sonar-yl.

*Móðirin*

Þá það; jú oft hefur áður skeð,
að ást var seld, en þegið féð.
Ég mátti láta meira þó,
mig minnir alla gleði' og ró.
Ég eitthvað lét, sem löngu er dautt,
en ljómaði þá sem gullið rautt,
og gerði hjartað glatt, ei snautt;
en hvað um það, — sú heimska brást,
ég heyrði sagt það nefndist *ást.*
En sorgin mín ég man, var hörð,
ég man míns föður ráðagjörð:
„Gleym kotunginum; kjóstu hinn;
þó kögursveinn sé strákurinn,
þá á hann góða greind í kolli
og græðir tvöfalt bú, sá skolli!“
Ég átti' hann, en fékk enga þökk,
því ekki neitt fyrir skuldum hrökk.

En síðan hef ég sveizt sem dróg
og senn hvað líður hef ég nóg.

*Brandur*

En sérðu ei nú við sjálfs þín gröf,
að sálina léztu í ofanígjöf?

*Móðirin*

Ég sá það fyr og sýndi bezt
þá sendi' ég þig og gjörði prest.
Þá stundin slær og þín ég þarf,
átt þú að launa móður-arf;
þú færð hjá henni fast og laust,
en færir henni skjöl og traust.

*Brandur*

Þó skörp þú sért var sjón þín röng
og sálin þín að skilning þröng.
Sú fyrirhyggja og fósturást
með fyllsta rétti margoft brást
Þið ætlið börnum hús og hokur
svo haldist sama maura-okur.
Af eilífðinni við og við
einn veikan bjarma sjáið þið,
og notið hann; og nú þið meinið
að nóg sé, ef þið fjársafnið
og kynstofn ykkar að ei greinið,
og hel við líf svo hnýta reynið,
að áratalan ykkur hjá
við eilífðina standist á

*Móðirin*

Rýn þú ei hót í huga minn,
en hirð minn auð ef verður þinn.

*Brandur*

En skuldin?

*Móðirin*

Hvað þá, skuldin, hvað?
Ég skulda engum.

*Brandur*

Gott er það;
en skilurðu' ei, ef skuldir væri,
með skilum kvitta þær mér bæri;
því allar kröfur arfinn á,
ef andast móðir hans, að fá;
og sá við húsi tómu tók
hann tekur við þess skuldabók.

*Móðirin*

Svo skipa hvorki lög né lönd.

*Brandur*

Ei lög, er ritar mannleg hönd,
en í hvers drenglynds sonar sál
er sett og skráð það lagamál;
og það skal einnig framgang fá.
Ó, flýt þér blind að læra að sjá,
að þú hefur Drottins góssi glatað,
og grafið djúft þitt sálarpund
og fjötrað ímynd Guðs við grund
og jarðargrómi alla atað,
og andast vængi stýft og klipt.
Er hér ei skuld, og hvar er þitt,
ef herran segir: Kom með mitt?

*Móðirin*

(óróleg)

Hvað, hvar sé mitt?

*Brandur*

En hræðstu ei þó,
ég hef, ég vona, í skuld þá nóg.
Guðsmyndin þín, af þér oft blettuð,
skal þvegin verða af mér og sléttuð,
þú skalt ei deyja skuldug, móðir,
skunda því örugg heljarslóðir, —
jeg svara skuldum.

*Móðirin*

Skuld og sök?

*Brandur*

Skuldum, ei meiru, heyr mín rök.
Þú geldur brota, sértu sek,
en synda skuldum við ég tek.
Sú mannsins upphæð er var eytt
þá aura og girnda hlaup var þreytt,
hún verður yfir á annan leidd,
og af honum að fullu greidd;
en fyrir að hirða ei þann auðinn,
sé yfirbót ei gjörð, er dauðinn!

*Móðirin*

(óróleg)

Mér væri skárra að skunda heim
í skotið mitt við jökulreim;
hér sprettur margt sem mér er eitur
á móti slíkri brunasól;
mig svimar, verði haus minn heitur.

*Brandur*

Já leita þú í skuggans skjól,
en skyldi ljóssins vanta hól,
þá sendu bráðast boð til mín,

þá bíð ég ei, en kem til þín.

*Móðirin*

Með tal um syndir, sekt og pín?

*Brandur*

Nei, einsog vinur, einsog son,
ég óttan rek, en gef þér von,
og sit hjá þér með söng og ljóð
og sefa skal þitt kvalablóð.

*Móðirin*

Því lofar þú með munni og mund?

*Brandur*

Ég mæti á þinni angurs-stund.
En kost ég set, sem settir mér,
að sjálfráð alt, sem heldur þér
við jörð, þú látir laust sem gjöf,
og leggist ber í þína gröf.

*Móðirin*
(slær til hans)

Skil eld frá hita, salt frá sjó,
og safnaðu öllum kulda' úr snjó:
Of hátt!

*Brandur*

Lát barn í brunninn lygna,
og biddu Guð þitt verk að signa!

*Móðirin*

Nei, lát mig hungra, líða þorsta,
en lát það ei hið stærsta kosta.

*Brandur*

Ei dóminn mýkir annað allt,
sé ekki þetta *stærsta* falt.

*Móðirin*

Ég ætla kirkjum auð og plóg.

*Brandur*

**Hvað, allt?**

*Móðirin*

**Er** *mikið* **þá ei nóg?**

*Brandur*

**Þín frjálsa bót er forn og seyrð,**
**fyr enn í ösku' og sekk þú deyrð.**

*Móðirin*

**Allt lífið eymd, og sálin seld,**
**og svo fer góss mitt líka' á eld!**
**En hafa skal meðan halda má:**
**Heim, heim til þess sem enn ég á!**
**Ó, eignin mín, mitt mæðu-jóð,**
**ég mjólkaði heldur alt mitt blóð.**
**Heim, heim að gráta gullið mitt,**
**sem gréti mamman barnið sitt!**
**Því hlaut mín sál þá hold fyrir þjón,**
**ef holdsins ást er sálar-tjón? —**
**Statt nærri mér. Ég veit ei vel,**
**hve verður mér, þá kallar hel.**
**En megi ég ekki eiga' hið minnsta,**
**ég engu sleppi til hins hinnsta.**

(fer.)

*Brandur*

(horfir eftir henni)

**Sendu, ég skal biðja' og bíða,**
**bættu ráð svo frelsist önd;**
**ég skal með þér strita og stríða,**
**strax sem þú mér réttir hönd.**

(fer niður bakkana til Agnesar.)

**Kaldur morgun, kvöldstund blíð,**

kyrrist lund, sem þráði stríð.
Hróp og gný ég heyrði' í fjarska,
hugðist öllum friði raska,
fella lyga-kynið kalda,
kremja heiminn milli skjalda.

*Agnes*

(kemur í móti honum með hýru bragði.)

Indælt kvöld, en árdags kalt,
undi' ég þá við glysið valt,
vildi höndla, grípa, græða
gróðann, sem er vöntun gæða.

*Brandur*

Hugann stóra dreymdi drauma
dynja framhjá líkt og svani,
lyfta sér með vængi víða, —
út að stefna var minn vani;
hugðist temja veröld víða,
vaða djúpa tímans strauma;
prósessíur, prís og skraut,
pálma, rósir, gleðisöngva,
mælskufrægð og múginn þröngva
mæta sá ég lífs á braut.
Vegur minn lá bjartur, beinn, —
blekking þó og draumur einn;
elding, séð frá andans hól,
en til helmings blandin sól.
Nú mér finnst sem fari að kvelda
fyr en dags er komin þurð;
fastur sit ég fjalls við urð,
fjærri glaumi ríkra velda;
hefi vart af himni rönd

*heima* samt á kyns míns strönd.
Helgidags míns flug er frá,
fallnir hugar-vængir mínir,
augnamið sig annað sýnir
en að herja veröld á.
Nú í hvers dags hlýðni trúa
helgidegi lífs skal snúa!

*Agnes*

En sá Guð sem átti' að falla?

*Brandur*

Eins fyrir því, þó sé með leynd,
verða skal sú raunin reynd,
þótt það kunni undra alla. —
Glöggt ég sé að skammt ég skildi
sköpun floksins, sem ég vildi;
ekkert afreks-afl né gifta
orkar því til Guðs að lyfta;
vel má andans gáfur glæða,
gömlu sárin meðan blæða;
hér þarf *viljans* vald, sem neyðir,
viljan þess, sem frelsar, deyðir;
það er hann, sem lífgar, leiðir,
léttir þyngir, safnar, greiðir. —

(lítur út um bygðina þar sem kvöldskuggarnir taka að lengjast.)

Fram þá, fram, þú fólkið sljófa
fætt í þessum jökuldölum,
sál og sál við saman tölum,
sannleiks verkið nú skal prófa,
lygi vega villu hrekja,
viljans ljónshug skapa, vekja.

Hönd á reku sem á sverði
sýnir mann í fullu verði.
Þetta er miðið: Þú skalt lifa,
þú ert spjald, er Guð vill skrifa.
(ætlar að fara, en mætir Einari.)

*Einar*

Slepptú henni! Hún er mín!

*Brandur*

Hún má fara, sé hún þín.

*Einar*

Veldu' um ást og inndælt líf
eða mæðu, sorg og kíf.
Kjóstu?

*Agnes*

Eg á ekki að velja.

*Einar*

Agnes, hættu mig að kvelja;
hér úr finnst mér hægt að skera:
heldur laus, en kross að bera.

*Agnes*

Gakk þú, fagri freistarinn!
Fram í dauðan, krossinn minn.

*Einar*

Saknarðu' eigi ættar þinnar?

*Agnes*

Orð mín flyt til móður minnar;
bið þau frá mér farsæl lifa,
fái ég kveðju, mun ég skrifa.

*Einar*

Horfðu fram á fjörðinn bláa,
fögur skipin kveðja sand,

vitrun líkt um loftið háa,
líða gullnir snekkju-stafnar,
skríða vakurt, vænta hafnar
við hið fyrirheitna land.

*Agnes*

Hvar sem þeirra verða vistir,
vit, mitt líf er dáið, grafið.

*Einar*

Fylg þú mér, sem mundi systir.

*Agnes*

Milli okkar er nú hafið.

*Einar*

Héðan samt, og heim til móður!

*Agnes*

Hér á ég mér vin og bróður.

*Brandur*

Gleym ei mær, en gæt þess vel:
Gnæfa fjöllin köld sem hel;
undir skuggum hamra-hlíða
heljar-myrkrin þar sem stríða
nú skal öll mín æfi líða
eins og regin-nætur él.

*Agnes*

Myrkrið eigi hót mig hræðir,
heilög stjarna von mér glæðir.

*Brandur*

Ég verð þungur þér í kröfum
því ég heimta ei minna en alt,
hættir þú að þola kalt,
þú er skip í hafís-köfum.
Ekkert hik, þó nísti nauðin,

náð við bresti engin til;
heimti stríðið hjartans yl,
hlýðir þú uns kemur dauðinn!

*Einar*

Flýðu, flýðu, ferlegt spil,
flýðu lögmálsógnarann!
Flýðu, lifðu; fari hann!

*Brandur*

Veldu, sjá hér vegamót!

(fer)

*Einar*

Veldu nú um tún og grjót,
veldu um blíðu og kulda kífs,
kjóstu millí hels og lífs!
Veldu nú um sælu og sorg,
svarta gröf og ljóssins borg.

*Agnes*

(stillilega)

Gegnum nótt og dauða drómann
daga sé ég morgunljómann.

(Snýr á eftir Brandi. Einar horfir á eftir henni).

# Þriðji þáttur.

(Þrem árum síðar. Lítið garðsrúm fyrir framan prestshúsið. Það sést lítið út á fjörðinn, sem er luktur fjöllum. Hlið er á garðinum móts við húsdyrnar).

*Brandur (stendur á tröppuriði við húsdyr sínar) Agnes (situr skör lægra)*

*Agnes*

Um fjörðinn yfir auga þitt
fer enn að nýju, hjartað mitt.

*Brandur*

Á orði er von —

*Agnes*

Þú ert svo hljóður.

*Brandur*

Á orði er von frá sjúkri móður.
Í þrjú ár beið ég búinn hér
að boð hún gerði eftir mér.
Í dag er sagt hún sé í voða.

*Agnes*

Því viltu, kæri, bíða boða?

*Brandur*

En hvað skal henni huggun mín,
ef hún ei játar brotin sín?

*Agnes*

Hún móðir þín —?

*Brandur*

Því meiri raun
að mega' ei blóta goð á laun.

*Agnes*

Æ, þú ert harður.

*Brandur*

Þér?

*Agnes*

Ó, nei.

*Brandur*

Að þrautir biðu, duldi' ég ei.

*Agnes*

(brosandi).

Þær komu ei fram; þú hélst ei heit.

*Brandur*

Jú, hörð og köld er þessi sveit.
Og roðinn flýr af fríðri kinn
og frostið leitar bráðum inn;
ei una blóm um okkar svið,
í urð og skriðu búum við.

*Agnes*

Við búum hér svo hlýtt og trygt,
því hengjan stendur fram at þykt,
svo þegar á vorin hrynur hún
og hrapar niður af fjallsins brún,
þá búum við sem bak við foss
er byltist snjórinn fram af oss,

*Brandur*

En sólin skín ei hér á hlið.

*Agnes*

En hinu megin skín hún blíð
á vanga fjallsins voru mót.

*Brandur*

Já, vikur þrjár um sumartíð,

en finnur þó ei fjallsins rót.

*Agnes*

(stendur upp og lítur framan í Brand).

En til er eitt, sem þjáir þig!

*Brandur*

Nei, þig!

*Ágnes*

Nei, þig!

*Brandur*

Ég hef þá trú

Þú leynir kvíða.

*Agnes*

Líka þú!

*Brandur*

Þú titrar sem á tæpum stíg,
æ, trú þú mér!

*Agnes*

Ég játa sjálf
ég titra —

*Brandur*

Hví?

*Agnes*

Að hugsa um Álf.

*Brandur*

Um Álf?

*Agnes*

Þú líka.

*Brandur*

Ó nei — já,
en okkur deyr hann varla frá.
Guð er svo góður. Sveinninn sá

skal sínum pabba dafna hjá.
Hvar er hann nú?

*Agnes*

Hann sefur.

*Brandur*

(lítur inn um dyrnar).

Sefur,
og sorg og mæðu enga hefur.
En höndin snotur, feit og fín!

*Agnes*

En fölur.

*Brandur*

Já, það batnar bráðum.

*Agnes*

Nú blundar dável elskan mín.

*Brandur*

Guð signi þig og sof í náðum.

(lokar dyrunum).

Með þér og honum hlaut ég frið
og helga ró mitt skyldu-svið.
Hver mótgangsstund og mæða sett
á meðal ykkar varð mér létt;
hjá þér mig hvergi hreystin sveik,
ég hrestist við hans barnaleik;
mitt kall mér sýndist reynslu-raun,
en reyndist bezta sigurlaun.
Mér fylgir lán á lífsins ferð.

*Agnes*

Þess láns er, Brandur, sál þín verð.
Hvað hefur þú ei haft og átt
af harðri þraut og stríða mátt,

já, gráta blóði þungt og þétt. —

*Brandur*

En þó? Ég bar það vel og létt.
Með þér kom ást og ylur hér
og árdagssól í hjarta mér;
það sumarljós ég sá ei fyr,
og sízt við foreldranna dyr;
ef einhver neisti í mér sást,
hann aftur slökkva sjaldan brást.
Það var sem alt það mjúkt og milt
sem með mér falið bar ég stilt
sig hefði geymt sem helgiglóð
um hann og þig, mín ástin góð!

*Agnes*

Ei okkur ein, nei alla þá,
sem okkur leita styrktar hjá;
hver mótlœtt sál, hver breiskur bróðir,
hvert barn sem grét, hver angruð móðir,
má hressa og styrkja hjartað sitt
við hjartans ríka borðið þitt.

*Brandur*

Mitt hjarta opnar hann og þú,
þið hafið lagt þeim gæzku-brú.
Hver hlýtur fyrst að faðma *einn*,
því fyr hann má ei rúma alla;
án ykkar hefði' ég orðið steinn
og andans hungur staðist varla.

*Agnes*

Og þó er ást þín ofur-hörð,
þín atlot nísta mann við jörð.

*Brandur*

Hörð þér?

*Agnes*

Nei, ekki mig ég meina;
hvað mér þú bauðst, var hægt að reyna.
En þó varð mörgum þelið kalt
við þína kröfu: *Gefðu alt!*

*Brandur*

Ég veit ei hvað í heimi hér
menn halda kærleik, — sama er mér.
Af herrans kærleik heyri' ég óm,
og hann er ekki líknin tóm;
hann býður dauða, storm og stríð,
í staðinn fyrir atlot þýð.
Hvað gerði hann í garðsins stríði,
er Guðs son hét á föður sinn,
að taka kvala kaleikinn?
Var honum kipt frá herrans munni?
Nei, heyrðu barn, hann drakk að grunni.

*Agnes*

Ó, séð við þetta mat og mál,
þá má ei frelsast nokkur sál.

*Brandur*

Hver dæmast skal, er dulið hér,
en Drottins eldi skrifað er:
Ver trúr með hjarta, hug og mætti,
þitt hnoss ei fæst með undandrætti!
Ei stoðar hrelling, tár og tregi,
nei, tæmdu hornið kvölum fylt;
þér fyrirgefst að *orkar* eigi,
en aldrei hitt, að þú ei *vilt.*

*Agnes*

Já, svo er það; en lyft mér, lyft mér;
þar liggur á, svo geti ég fylgt þér.
Œ, hef mig upp í himin þinn,
svo hressist sál og dugur minn.
Mig svimar oft, og hrædd og hljóð
ég hangi fast við jarðarslóð.

*Brandur*

Vit, Agnes mín, í herrans hjörð.
ei heyrast skal nein miðlungsgjörð.
Í akri Guðs er glötun sjálf
að gera ei verkin meira en hálf,
það leyftra skyldi lagamál
ei lagt í orð, nei, viljans stál!

*Agnes*

(leggur höndur um háls honum).

Hvar helzt þú gengur, geng ég hratt!

*Brandur*

Ei gugna tveir, þó mæti bratt.

(Læknirinn hefur komið og numið staðar við garðshliðið).

*Læknirinn*

Ég horfi á ljúflingsleik hjá dúfum
á lyngivöxnum fjallaþúfum.

*Agnes*

Æ, gamli vinur, gaktu nær
í garðinn hingað, fóstri kær!

*Læknirinn*

Nei, nei, þú veizt ég illur er;
að ætla sér að lifa hér,
hvar nákuldinn frá nepjuslóð
sig nístir gegnum sál og blóð!

*Brandur*

Ei gegnum sál —

*Læknirinn*

Nú, svo? Æ, nei;
það segja skal ég heldur ei.
Mér finst sem ykkar flausturs-band
sé fast og gott, það sést ei grand
að það sem stofnist fjarska fljótt,
sem fólkið segir, endi skjótt.

*Agnes*

Eitt sólarbros á sumarvegi
oss sælum spáir marg oft degi.

*Læknirinn*

Far vel! Til veikra vík ég nú.

*Brandur*

Til veikra? Er móðir mín það ei?

*Læknirinn*

Jú, með mér eflaust fylgist þú.

*Brandur*

Ei nú.

*Læknirinn*

Þú varst þar?

*Brandur*

Var þar? Nei.

*Læknirinn*

Þú, prestur, hjarta-harður ert.
Í hríð og ófærð gekk ég þvert
um fjallið; þó ég vissi vel
að völt eru laun hjá húðar-sel.

*Brandur*

Guð launar sjálfur lofsverk fríð,

og léttu ef getur hennar stríð.

*Læknirinn*

Hann launi viljann; víst er það,
þá vildi' hún hjálp, ég gekk af stað.

*Brandur*

Hún gerir orð — en gleymir *mér*
ég geng á nálum, hvar sem fer.

*Læknirinn*

Kom óboðinn.

*Brandur*

Ef ei hún sendir
í öðru verra för mín lendir.

*Læknirinn*

(til Agnesar)

Þú, stráið, í svo harðri hönd!

*Brandur*

Ég er ei harður.

*Agnes*

Hennar önd
hann mundi feginn frelsa og græða
með fórnarblóði hjartans æða.

*Brandur*

Af eigin hvöt ég að mér tók
sem arf minn, hennar skuldabók.

*Læknirinn*

Gæt þinnar eigin!

*Brandur*

Margra meins
ei minst er tíðum sakir eins.

*Læknirinn*

En sá er skárri siknu-gjafinn

er sjálfur liggur skuldum vafinn!

*Brandur*

Líkn eða ei, ég heimta heilt,
ei hálft, né volgt, né sundurdeilt.

*Læknirinn*

Já, viljans krafta *quantum satis*[1]
skal kvitta alt, og gott er það?
en fjárins *Conto caritatis*[2]
er, klerkur minn, þitt eyðublað.

(fer).

*Brandur*

(horfir um stund á eftir honum).

Ei finst í máli lýðs og lands
eins logið orð sem *kærleikans*;
menn sveipa því með Satans hrekk
sem silkihjúp um viljans flekk;
menn hafa það um dufl og dorg;
menn dylja með því lífsins sorg.
Sé brautin krókótt, kröpp og hörð —
í *kærleik* skal hún styttri gjörð,
og sé hún eins og syndin breið,
menn sanna það sé *kærleiks leið*;
þó viti menn það kosti kross —
í *kærleik* fá þeir lífsins hnoss.
Ríði þeir öllu réttu slig
rata þeir allir — *kærleiks* stig!

*Agnes*

Það satt er alt, ég segi já,
en samt ég spyr oft: Hvernig þá?

---

(1 þ. e. svo nóg sé.
(2 þ. e. reikningur kærleikans.

*Brandur*

Menn gleyma: *að velja* verður fyrst;
í viljann er Guðs lögmál þyrst.
Þú vilja átt ei að eins það,
sem er þér fært í hverjum stað;
ei að eins það, sem erfitt er —
þó ætli rétt að sálga þér. —
Nei, þú skalt vilja ljóst og leynt
í logans ógnir ganga beint.
Ég píslarvotta víst ei sé
í voða-deyð á krossins tré, —
nei, hitt, að kjósa krossins deyð
að kjósa mitt í holdsins neyð,
að kjósa andans ógnar-pín,
sjá, einmitt það er lausnin þín.

*Agnes*

(grípur um handlegg hans).

Ef krafan hræðir hörð sem nú,
ó hrausti vinur, tala þú!

*Brandur*

Ef viljinn stenzt í slíkum styr,
þá standa opnar kærleiks dyr,
þá dalar hann sem dúfa hrein
með Drottins friðar viðsmjörs-grein;
en hér í klækja-kuldans voða
í kærleiks stað skal hatur boða.
Já, hatur!

(með hryllingi).

Ó, að heimsstríðs hyggja
í hálfu orði skuli liggja!

(gengur fljótlega inn í húsið).

*Agnes*

(horfir inn við gættina),

Hann krýpur barns síns kodda hjá;
hann kyppist við sem byrgi grát;
hann leggur kinn við lökin smá,
sem leiti ráðs, — sem nær við fát.
Ó, ó, hve mikil elska sönn,
sem önd hans geymir, sterk og sæl.
Sitt barn hann elskar, barnsins hæl
ei bítur enn þá höggormstönn.

(hrópar upp).

Hann hrökkur frá með hræðslu fár!
Ó, hann er fölur eins og nár!

*Brandur*

(kemur út).

Kom ekkert boð?

*Agnes*

Nei, ekki neitt.

*Brandur*

(horfir inn).

Hann brennur, svo er barnið heitt,
og æðar hans með ákefð slá.
En óttast ei!

*Agnes*

Hvað gengur á?

*Brandur*

Nei, hræðstu ei.

(lítur út eftir veginum).

Svo, — þar sé ég manninn.

*Maðurinn*

(maður við garðshliðið).

Nú kallar hún þú komir,

*Brandur*

Strax!

Hvað áttu að segja?

*Maðurinn*

Leita lags;

hún lá við dogg og sagði þanninn:
„Èg heimta prest, — vil hafa sent;
gef helming, fái ég sakrament“.

*Brandur*

Hvað helming? Nei, seg nei!

*Maðurinn*

Þá væri

ei nógu hreint, sem fram ég bæri.

*Brandur*

Hvað, að eins helming, alt er efnt?

*Maðurinn*

Já, hvað um það, en hreint og beint
það hljóðar svo; ég gleymi seint.

*Brandur*

Þá sálu þinni er síðast stefnt
þú sverð að *það* orð væri nefnt.

*Maðurinn*

Já!

*Brandur*

Seg þá henni er hefur sent
að hún fái ekkert sakrament!

*Maðurinn*

Þú manst víst ekki, maður, þá

að móður þinni liggur-á?

*Brandur*

Ég þekki engan æðri rétt
í ættlið manns, en fólkið slétt.

*Maðurinn*

Hörð orð,

*Brandur*

Hún veit það var ei falt
ef vildi' hún gefa minna en alt.

*Maðurinn*

Svo?

*Brandur*

Segðu gullkálfs minsti moli
í mannsins sál sę skurðgoðs boli.

*Maðurinn*

Ég vil með svarsins svipu slá
ei sárara en þarf og má.
Kannské' hana geti glatt sú trú
að Guð sé henni betri' en þú!

(fer).

*Brandur*

Sú huggun hefur heyrst, og mest
um heiminn blásið eiturpest;
sú mútan drjúg á dómsins stund
er dómaranum lögð í mund;
sem von er; hér eru víðar dyr;
þeir vissu hvernig gengur fyr;
þeir sáu fyr við svika-spil
að sá hinn gamli slakar til!

(Maðurinn kemur aftur með öðrum)

*Brandur*

Enn boð

*Hinn fyrri*

Nú?

*Brandur*

Hvað nýtt berð þú?

*Annar maður*

Hún níu tíundu býður nú.

*Brandur*

Ei alt?

*Annar*

Ei alt?

*Brandur*

Mitt orð skal efnt;
nei, engan prest né sakrament!

*Annar.*

Hana hefur margföld mæða grætt.

*Hinn fyrri*

Og mundu hver þig hefur fætt.

*Brandur*

(gnýr höndunum).
Ég veit ei tvennslags vogar mál
fyrir vonda menn og skylda sál.

*Annar*

Það kvelja hana kynja mein,
kom, eða sendu friðar grein!

*Brandur*

Farið og segið sem ég bauð,

ég sel ei heilagt vín og brauð!
(mennirnir fara).

*Agnes*
(kastar sér í fang honum)
Nú, Brandur! ég þig óttast verð,
þú ógnar eins og lagasverð!

*Brandur*
(með gráthljóði).
En höggur mig ei heimurinn,
þó hafi ei nema sverðsslíðrin?
Og berst ei sál mín sár og móð
við synda-vanans dauðablóð?

*Agnes*
Æ, harðan kost þú hefur sett.

*Brandur*
Haf þú hann mýkri, sé það rétt.

*Agnes*
Haf þú þann kost við hvern þú vilt,
því hvergi verður ósk þín fylt.

*Brandur*
Ég hræðist hve þú segir satt.
Því svo er þjóðin komin flatt,
svo trúlaus, fráhverf, full af vindi,
að fólkið kallar stórtíðindi
ef maður gefur öðrum arf,
sem ei á prenti nefna þarf.
Hrópa til kappans: Hyl þitt nafn,
hagnaður stríðs þíns samt mun jafn,
og sömu bjóddu kongum kjör,

og kom svo fram með þeirra svör.
Bjóð skáldinu: Lát fugl þinn fljúga,
og föðurlausan heiman snúa,
svo engan gruni hver sé hann
sem hann og rödd hans smíða vann.
Leitaðu' á þurri og grænni grein,
guðstrúarhlýðni finst ei nein;
hvervetna' er heimslífs heimsku þráin;
á hengiflugi, hamslaust, fast
menn halda sér í viðarstráin,
og svíki þau, þeir hringsnúast
og höggva nögl í rót og bast.

*Agnes*

Og þetta fólk, svo veikt og valt
þú vonar samt að gefi alt!

*Brandur*

Í sigurför má fólk ei hníga,
sé fallið djúpt, þarf hátt að stíga!
(þegir fyrst og breytir svo rómi)
Og þó, við hverja sjúka sál
sem særi ég með slíkum kröfum,
er mér sem væri ég úti' í höfum
og ætti að tæma dauðans skál;
og tunguna er ég typta hlýt
ég títt af kvalastríði bít;
og þegar höggin hef ég flest,
ég hjartans faðmlag þrái mest. —
Gæt, Agnas, að hvort sveinninn sefur,
og syng hann inn í fagra drauma;
barns sál er spegill bjartra strauma,

er blessuð sólin, gliti vefur,
en móðirin það hlutverk hefur
að svífa þar með yndis-yl
sem álftin yfir sumarhyl.

*Agnes*

Hvað kemur til, þinn hugar-knör,
hjá honum endar hverja för?

*Brandur*

Nei, víst ei, gæt hans vör og stilt.

*Agnes*

Eitt vonarorð!

*Brandur*

Eitt sterkt?

*Agnes*

Nei, milt.

*Brandur*

(faðmar hana).

Hinn saklausi skal lifa lengi.

*Agnes*

(fjörleg)

Þá lifir eitt, það tekur engi.

(fer inn í húsið).

*Brandur*

(horfir hugsandi í gaupnir sér).

En ef hann alt að einu tekur —
var Ísak forðum nokkuð sekur?

(harkar af sér)

Nei, ég hef drotni fórnir fært,
og fórnin var mitt lífsverk kært,

að þruma um heimsins víða veldi
og vekja fólk með drottins eldi.
Lýgi. Sú fórn mín féll á jörð,
því fánýt varð sú ráðagjörð,
mig vakti Agnes úr þeim draumi,
að inna sama fjærri glaumi.
(horfir út eftir veginum):
Sú ógnar-töf og eftirþrá,
að iðrist hún og gjöri bót,
svo sektarinnar rifni rót
og rætist alveg grunni frá.
Hver fer þar? Hvað þá? Fógetinn?
Jú, feitur, kátur, hýr á kinn
og hendur ber í báðum vösum
sem bogasveig á hverri hlið.

*Fógetinn*

(gegnum hliðið)
Heilir! Þó sjaldan sjáumst við; —
en naum er tíðin nú að mösum.

*Brandur*

Kom hingað nær.

*Fógetinn*

Nei, hér er gott
og fái' ég áheyrn fer ég brott
með fullri vissu', að þessum stað
og báðum okkur bezt sé það, —

*Brandur*

Þér meinið — hvað?

*Fógetinn*

Hún móðir yðar

er mjög svo þjáð og víst án biðar —
það angrar mig.

*Brandur*

Ég efa ei það.

*Fógetinn*

Já, einkar mikið. Nú, en hvað?
Háöldruð konan, — hvað segi ég?
Skal hver og einn ei sama veg?
Og þar mín leið hér lá um hlað,
mér leizt ei vert að geyma það, —
ég heyri líka fólk því fleygja
að fæð — og — hvað ég vildi segja?
að einhver fæð frá eldri tíð
með ykkur sé, og fjármisklíð.

*Brandur*

Hvað, fæð?

*Fógetinn*

Og löngum heyrist hitt,
og hún vill, skepnan, eiga sitt.
Að yður gremst, ég allvel trúi,
sitt eigið gagn hver stunda þarf,
í óskiftu er hún enn þá búi
með yðar heila föðurarf.

*Brandur*

Í óskiftu, — þér ætlið að —?

*Fógetinn*

Að örfum sjaldan geðjist það.
Og nú þar ég hef orsök til
að ætla, þó hún hvíldi sig,

þér sigrið létt þann sorgar byl,
þá sýndist mér þér heyrðuð til,
ef stundin væri ei til ama,
sem ég hef valið.

*Brandur*

Mér er sama
hvort sé það nú eða' síðar meir.

*Fógetinn*

Ég sný þá strax að efni. Heyr,
óðara' en hún er héðan liðin
og hold er lagt í grafarfriðinn,
sem verður brátt, — þér verðið ríkir, —

*Brandur*

Þér haldið —?

*Fógetinn*

Ekki held, ég veit.
Hún á hér lönd í allri sveit
sem eigt þér getið lengst í kíkir;
flugríkir!

*Brandur*

Þó að rýrni bú
við réttarhaldið?

*Fógetinn*

Bitti nú!
nei, skiftaréttar rugls ei þarf,
hvar reikna þarf ei sundur arf.

*Brandur*

En ef nú samt á móti mér
meðarfi skyldi finnast hér

sem segir: Ég á arf með Brandi!

*Fógetinn*

Þá er það víst hinn gamli fjandi!
Já, fjandinn! Hvessið augun eigi,
ég ætti' að vita, hvað ég segi;
og mér má trúa þó ég þegi.
Nú finst mér manni, fjáðum, ríkum,
ei fært að una' á stöðvum slíkum, —
ef ekkert heldur yður band,
en opið stendur gjörvalt land.

*Brandur*

Ég vildi, herra, hafa spurt,
er hugsunin ekki: Farðu burt?

*Fógctinn*

Því nær. Ég ætla öllum það
sé einna bezt, því hyggið að
hver þjóð það er, sem eigið þér
að aga, kenna' og siða hér;
þið fremur saman eigið ei
en úlfurinn og sauðar-grey. —
Nei, gætið að, þér gáfur hafið
til gagns og yndis víðri jörð,
en ógagns hér, þar alt er grafið
í eymd og neyð og jöklum kafið
við skuggabjörg og fanna-fjörð

*Brandur*

En ættbygð manns ég ætla sé
hans eðlisstöð sem rótin tré,
og finnist ekki þar hans þörf
þá þýða sjaldan neitt hans störf.

*Fógetinn*

En fyrst er það í lífsstarfslögum
að laga sig eftir fólksins högum.

*Brandur*

En betur sézt frá hæðum háum
hvað hentar, en í dölum lágum.

*Fógetinn*

Hin auðgu löndin um það tala,
sem ei á við í þrengslum dala.

*Brandur*

Ó, þið með ykkar þref og slettur
um þessi landmörk, fjöll og sléttur!
Þið heimtið ykkar rétt sem ríki,
þó rétt og skyldur allir svíki,
og hrópið svo ef harðna nauðir
um hjálp og segið: Við erum snauðir!

*Fógetinn*

Sinn tími hvað, hver þegn og þjóð, —
og þessa bygð ég einkum nefni,
því hún hefur og í heimsins sjóð
sinn hluta lagt þó bresti efni
oss nú, og langt sé liðið síðan;
hún lagði samt til skerfinn fríðan,
því fegri var hún fyr á dögum
á frægðaröld í gömlum sögum;
þá Beli sat í Baldurshaga
var bygðin stærst og öll vor saga,
og enn þá fágar frægðin stór
þá fornu bræður Úlf og Þór,
og margan dreng, sem forðum fór

að finna gullin vesturlönd,
og brendi þar og bræld i strönd.
Guð sjálfan bað hver suður-þjóð
að sefa þeirra grimdarmóð;
og þetta eðla áablóð
var efalaust frá vorri slóð.
Og hvort þeir kunnu harma að hefna
og höggva, sigla, ræna, stefna!
Og meira enn, ég mætti nefna
einn mann sem héðan krossast lét,
en hvort hann fór, ég hermt ei get.

BRANDUR.

Frá honum kominn hér í sveit
ég hygg sé margur.

FÓGETINN

Enginn veit
því haldið þér?

BRANDUR

Ég hygg af því
að hér eru margir líkir því,
að festa heit hins fræga manns
sem fór þó ei til krossins lands.

FÓGETINN

Já, við erum af þeim víkings lýð.
Við vorum til á Bela tíð!
Fyrst æddum við í önnur lönd,
svo óðum við um grannans strönd,
og sýndum frændum fal og egg,
og feldum garð og akur hans
og brendum hof og brutum vegg
og bundum margan sigurkranz.

Þó óvíst sé um alt það blóð,
sem okkur greinir sögn og ljóð;
en eftir því sem eg hef sagt,
ég ýkjulaust og glaður þori
að benda á þessa manndóms makt
á miðju okkar frægðarvori;
í sjóðinn höfum við líka lagt
og lífsins hjálpað stóra máli
með björtum eldi, beittu stáli.

BRANDUR

Þó finst mér hér því fæstir trúi,
að frægðin niðjum vanda búi,
mér finst við mæðu-moldar-starf
þið minkið heldur Bela arf.

FÓGETINN

Nú, því fer fjærri. Farið þér
í fölmenn boð og gildi hér,
hvar ég er kominn, kennarinn,
klukkari' og umboðsmaðurinn;
þá á ég von að flestir finni
að farið er ekki Bela minni.
Með skálum, kvæðum, sumbli, söng,
og svo með ræðuhöldin löng
þeir minnast hans og láta' hann lifa;
ég sjálfur fann oft þrá og þröng
til þess um hann í ljóðum klifa,
og festa upp mitt fræðispjald
á frægðarinnar skólatjald.
Við skáldskap oft ég skemti mér,
það skapadómur sýnist hér
á okkar bygð — en alt í hófi, —

hann á ei við í hversdags þófi;
nei, skáldin eiga að skemta á kvöldin
þá skyldustörfin eru gjörð,
og langa tekur lúna hjörð
að teyga andans töðugjöldin.
Sá munurinn er okkur á,
þér ætlið bæði að plægja og slá,
þér viljið eftir minni meining
að mætist trú og líf sem eining, —
Guðsríki og rækt á rófum, malti, —
að renni saman hold og andi,
sem púður maður bruggi og blandi
úr brennisteini, koli, salti.

BRANDUR

Sízt fjær?

FÓGETINN

En hérna heimskan hreina,
í höfuðborg það mætti reyna;
prédikið slíka pistla þar,
við plægjum sjó og mýrarnar.

BRANDUR

Nei, plægið fyrst í hyldjúpt haf
alt heimskugort og feðra skraf.
Þú gefur ei dvergum gildi manns
þó Golíat sé afi hans.

FÓGETINN

En framför vex af frægðarsögum.

BRANDUR

Ef frægð þá inn í líf vort drögum.
En þið, — þið gjörið gleymda hauga
að glæpaskotum landsins drauga.

FOGETINN

Mitt fyrsta orð ég inni enn:
Ég ætla bezt við skiljum senn.
Hér mun ei yðar skoðun skiljast
en skörungskapur yðar dyljast;
það hugarflug, sem fólk fær hér, —
sú fylling lífs að sérhver maður
við basl sitt unað geti glaður,
er hlutverk einmitt handa mér.
Um elju og dáð míns embættis
ég efa' að nokkur tali gys.
Tvöfaldað hef ég tölu lýðsins, —
ef til vill meira: þrír mót einum,
því ég hef kent hér kepni stríðsins
og krækt í fjölda af vinnugreinum.
Mót náttúrunnar voða-valdi
við hlöðum vegi, byggjum brú. —

BRANDUR

En brúið ei saman líf og trú?

FÓGETINN

Á milli fjöru og fjalla-ranns.

BRANDUR

Ei frjálsræðis og guðsviljans!

FÓGETINN

Nú, fyrst þarf vegi sveit úr sveit,
og síðan um vorn bygðar-reit,
og á því voru allir hér
áður en hingað komuð þér.
Í hræring alt þér hafið sett.
Náttlampa-týru og norðurljós —
má nokkur við það villiskin

sjá hvað sé rangt og hvað sé rétt,
hvað skaði, hagur, skarn og rós?
Þér skekkið öllu, góði vin.
Nú hatast þeir við storm og styr
er stríddu og unnu saman fyr.

BRANDUR

Þér hrindið mér ei; hér ég dvel,
mitt hlutverk ég ei sjálfur vel
sem hver sem veit og vill sitt mið
og vilja-loga Drottins við
les hér á jörðu: Sjá þitt svið!

FÓGETINN

Svo dvel, en innan yðar marka;
ég ann þeim vel sem syndga, slarka,
að fá hjá yður harðan þvott;
þeir hafa víst af ráðning gott.
En gjörið hér ei helgidag
úr hinum sex, né merki upp drag
sem komi himnakonguriun
með hverri sleif, er siglir inn!

BRANDUR

Ef yðar ráðs ég ætti að neyta,
ég yrði sál og trú að breyta;
mitt kall er: Sjálfur sjá og vera,
og síðan stefna brautu þvera;
og þó það kosti kvöl og hrygð,
þá kveiki' ég ljós í minni bygð.
Það fólk sem ykkar fylking hratt
í feigðarblund skal vakna glatt.
Svo lengi ykkar tízku-tál
í tjóður batt þess fjalla-sál

þið hafið allan sannleik svelt
og sæmd og lífstáp frá því elt;
þið hafið svelgt þess bezta blóð,
brotið til mergs þess hreysti-móð,
smá-holað sundur hverja sál
sem hefði orðið gull og stál. —
En samt má enn þá hefja hríð,
og hljóða svo þið vaknið: Stríð!

FÓGETINN

Stríð?

BDANDUR

Stríð?

FÓGETINN

Þér munuð fyrstur falla
ef farið þér í stríð að kalla.

BRANDUR

Í stríði því sem stefnt er að,
hinn stærsti sigur væri það.

FÓGETINN

Nei, Brandur, mjótt er mundángs-bilið,
þér munuð aldrei sigur fá.

BRANDUR.

Ég læt ei bifast.

FÓGETINN

Búið spilið, —
og burt er lífi sóað þá.
Nú stendur opinn auðnu sjóður,
þér eigið þessa fjáðu móður,
og þetta barnið eitt að annast
og eðla konu, mun ei sannast
að gæfan yður hossi hlý?

BRANDUR

En ef ég baki að öllu sný,
sem yður þykir ráðið snjalt,
og ef ég hlýt. —

FÓGETINN

Þá hrapar alt, —
ef hér í okkar hamrahlíð
þér hefjið þetta alheimsstríð.
Far út og suður, út til landa
þar allir þora að tala og standa;
sjá, þar má lyfta, lýsa, fræða,
og láta hjörtum manna blæða.
Vor blót-fórn er ei blóð, en sveiti
og baráttan um hafra-hveiti.

BRANDUR

Hér verð ég þó, mitt heima' er hér,
og hér ég berst og safna her.

FÓGETINN

En gætið að ef illa fer, —
og einkum því, sem missið þér.

BRANDUR

Mitt bezta er týnt, ef burt ég fer.

FÓGETINN

Sá berst ei vel, sem aleinn er.

BRANDUR

Mitt lið er hraust, ég hef þá beztu.

FÓGETINN

Ég heyri það, — en ég þá flestu.
(fer).

BRANDUR
(horfir á eftir honum)

Sjá heiðursmanninn hér á landi!

Hægur og réttsýnn, mildur, skýr,
dugandi á sinn hátt, settur, hýr,
og samt sem áður landsins fjandi!
Ei skriðu-hlaup og heiftar-fár,
ei hungursneyð og sóttar-ár —
fær valdið slíkum voða og sá
með verki sínu fólki hjá.
Af hungri menn í hópum deyðast, —
en hann? Hve margra kraftar eyðast,
hve margra hagir megni sneiðast,
hve margra ljóð í duftið neyðast
af slíkri karar-kreftri sál?
Hve fjölmörg bros á mannvits munni,
hve margur neisti saklauss barms
og gróðrar-blómstur gleði' og harms,
sem glóa móti sólu kunni
af honum deytt og bylt á bál!
(hrökkur saman).
En boðin! Kemur enginn — enginn?
Jú, læknirinn!
(hleypur á móti honum).
Hvað nú? Hún er—hún er—?

LÆKNIRINN

Til dómara síns og Drottins gengin.

BRANDUR

Með iðrun?

LÆKNIRINN

Þá eru allir búnir;
hún undi sér við reiturnar
unz tíminn kom og kallað var.

BRANDUR
(höggdofa)
Mun viltri sálu vera spilt?
LÆKNIRINN
Við vonum hins, hún dæmist milt,
af kærleik en ei kirkjutrú.
BRANDUR
Hvað sagði hún?
LÆKNIRINN
Hún sagði stilt
„Æ, son minn, Guð er betri en þú".
BRANDUR
(hnígur niður á bekkinn)
Þó manninn særi synd og bál,
hin sama lýgi í hverri sál!
(byrgir andlitið).
LÆKNIRINN
(gengur að honum og hristir höfuðið)
Þið viljið lífgva liðna tíð,
og lifa upp aftur hennar stríð;
þið hugsið Guð og góða menn
hið gamla lögmál fjötri enn.
Hver öld sér stað og stefnu kýs;
nú sturlar oss ei logans hrís,
né fræða-stofu fornyrðin,
vort fyrsta boð er mannúðin
BRANDUR
Já, mannúð! Þetta magra orð
er máttaróp um landsins storð,
í skjóli þess hvert skauðið frekt
nú skýlir viljans blygð og nekt;

í skjóli þess hver lyddan lifir
og leti og klæki breiðir yfir;
í skjóli þess hvert gauð og geit
má ganga á hvert sitt orð og heit.
Senn breytir ykkar tízku-tál
í tóma mannúð hverri sál!
Var mannúð helt í herrans skál?
Já, hefði ykkar Guð mátt ráða,
þá hefði hann flýtt sér hann að náða,
og endurlausnin eflaust þá
hefði orðið tvíræð himnaskrá!

LÆKNIRINN
(í lágum hljóðum).

Lát blæða fyrst þitt sorgarsár;
þér svalar ef þú fellir tár!

AGNES
(er komin út á riðið náföl
og titrandi).

Inn? Fylg mér!

LÆKIRINN

Hvað? Ég hræðist þig.
Hvað heilla barn?

AGNES

Það nagar mig
sá ormur hér í hjartastað, —

LÆKNIRINN

Hvað, hvað þá?

AGNES

Jesús minn veit það!
(þau fara inn; Brandur tekur
ei eftir því).

BRANDUR

Iðrunarlaus! Eins líf og ending; —

en lít ég hér ei Drottins bending?
Er mér ei selt það sálar-pund
er sóaði hún um lífsins stund?
Svo forði Guð ég gugni' í lund!
(stendur upp)
Nú héðanaf í hennar bygð
með helgri sonar skyldu og trygð
ég herja skal á hold og blóð
uns hljóma andans sigurljóð;
Guð kjöri munns míns kraft og stál
og kveykti' í mér sitt refsi-bál;
nú finn ég hjá mér veldis-vilja,
og vil og þori fjöll að mylja.

LÆKNIRINN
(kemur, og Agnes með honum)
Sel þú þitt hús og svo á dyr!

BRANDUR
Þó sólin hrapi, verð ég kyr!

LÆKNIRINN
Um hann er öll von úti þá.

BRANDUR
Um Álf? Hann Álf? Hvað gengur á?
er barnið — ?
(ætlar inn)

LÆKNIRINN
(stöðvar hann)
Heyr mig, heyr mig vel!
Hér finnst ei sól né sumarblær,
í súg og fönn er ykkar bær,
og jökulþokan heim á hlað;
eitt hálft ár meir á þessum stað

mun blása þetta blóm í hel.
Far Brandur, svo þitt barn ei deyi
far burt, og helzt á næsta degi!

BRANDUR

Í dag, í kvöld, í dag af stað! —
Nei, deyja skal ei barnið það; —
þá dauðans nepju og næðings-gjóst
ég nísta læt ei þetta brjóst!
Kom, Agnes, ber hann hægt á hönd,
og höldum suður beint með strönd.
Æ, Agnes, Agnes, hel og hjarn
vill hrifsa þetta eina barn!

AGNES

Í hljóði lengi harm ég bar,
þó háskann þekti ei eins og var.

BRANDUR

En fari' ég burtu barnið lifir?

LÆKNIRINN

Það barn, sem faðir vakir yfir
um dag og nótt vill dauðinn eigi;
hann deyr ei, munið hvað ég segi;
en leiðið hann á lífsins vegi.

BRANDUR

Haf þökk!

(til Agnesar)

En fóðr' hann fötum vel,
út fjörðinn stendur kóf og él.

LÆKNIRINN

(leggur hönd á herðar Brandi, sem horfir inn um gættina)

Við heiminn ekkert sig að sveigja,

við sjálfan sig að vera beygja;
hann skal ei láta lítið, mikið,
hann láta skal: ei neitt eða' alt;
en sjálfur ei að standast strykið.
Þá stund er manni er sagt: þú skalt,
er offurlambið undan svikið!

BRANDUR

Hvað meinar þú?

LÆKNIRINN

Til móður þinnar
þú mælir dómsorð sektarinnar:
„Þér býðst ei nokkur náðargjöf
ef nakinn leggstu ei í gröf!“
Og þetta hróp er þér ei nýtt
við þá, sem hafa sárast strítt.
Nú hefurðu' sjálfur hjartans kvöl,
nú hangir þú á skipbrots-fjöl,
en heljar-eldsins heiftarstaf
þú hendir nú svo fer í kaf;
og þeirri bók, er breyzkan sló
er bráðast fleygt í djúpan sjó;
nú liggur meir en lífið á
að láta barn sitt undan ná.
Á flótta suður fjörð og vík, —
á flóttu yfir móður lík; —
á flótta burt með kjól og kall,
því klerkurinn hefur messufall!

BRANDUR
(ráðviltur).

Hvað, var ég frá mér? Var eða er?

LÆKNIRINN

Þér verður nú sem vorkunn er,
og varla nokkur láir þér;
og síðan þú hefur seglin lækkað
þú sýnilega hefur stækkað.
Far vel! í þessum spegli spáðu;
þú færð þar sanna sálarbót
og sérð hinn rétta himinbrjót!

(fer).

BRANDUR

Nær fór ég öfugt? Nú eða þá?

(Agnes kemur út albúin til ferðar með barnið í faðminum. Brandur sér hana ekki. Hún ætlar að tala til hans, en hræðist svip hans. Í sama bili kemur maður inn í gegnum hliðið. Sólin gengur undir).

MAÐURINN

Þú átt hér háska-hatursmann.

BRANDUR

Já' hér!

(ber á brjóstið)

MAÐURINN

Ég meina fógetann.
Mót sólu hlógu sáð þín bezt,
en svo kom hann með eiturpest.
Það kvis hann milli bæja ber
að bráðum prestlaust verði hér, —
hann segir að þú unir ekki,
þar önduð sé hún móðir þín.

BRANDUR

Og sé það svo?

MAÐURINN

Nei, þig ég þekki,
og líka hann með lastmál sín.
Því stöðugt hann þér stendur mót
þó steypt til fulls þér gæti aldrei;
ég veit ég þekki rógsins rót.

BRANDUR

En reynast kann hann skrökvi' ei hót.

MAÐURINN

Þá fyllirðu' oss með falsi' og skvaldri.

BRANDUR

Ég?

MAÐURINN

Þú hefur sjálfur sýnt og kent
og sagt að Guð þig hafi sent;
að hjá oss ættir heima þú,
að hér þú skyldir boða trú;
sitt orð og kall mætti' enginn svíkja,
og aldrei bugast hót né víkja.
Og köllun áttu leynt og ljóst,
þinn logi vermir ótal brjóst.

BRANDUR

Nei, hér er andans eyra sljótt,
og yfir flestum sálarnótt.

MAÐURINN

Þú betur veist, fyrir verkan þín
hér víða blessuð sól nú skín.

BRANDUR

Hve míklu víðar myrkra spor.

MAÐURINN

En mundu, þú ert sólin vor.

Það sé og veri sem það er,
þitt sálnatal ei stoðar hér.
Ég stend hér, sem þú sérð mig nú,
og segi: Far, ef getur þú!
Ég hefi sál að svara til,
ég sé á bók ei stafa skil;
þú náðir mér af feigðar-flaki,
ég ferst, ef nú þú sleppir taki;
þú réttir hönd, ég hélt í fast,
ég hlyti ella' að tortýmast
Far heill um sinn; ég hef þá trú
mér hjálpi bæði guð og þú!

AGNES

Þín kinn er bleik og bráin föl,
sem brjóst þitt veini af sálarkvöl.

BRANDUR

Hvert hljómskært orð sem hamar slær
og hjá mér tífalt bergmál fær.

AGNES

Ég búin bíð.

BRANDUR

Hvað, búin? Til —

AGNES

(einbeitt)

Að breyta sem ég á og vil!

GERÐUR

(kemur hlaupandi að garðshliðinu)

Presturinn er floginn, farinn!
Fram úr giljum, skútum, haugum,
kemur her af dvergum, draugum
dimmum, ljótum, stórum, smáum,

teygja sig af tindum háum.
Augun eru úr mér barin,
öll er sálin tröllum gefin,
en þó ég sé mulin, marin,
mun ég ekki telja skrefin.

BRANDUR

Heldur vilt fer hugur þinn,
hjá þér stendur presturinn!

GERÐUR

Ekki þú, ég á við prestinn.
Ofan beint frá Svartatindi
haukinn sá ég svífa í vindi;
sá hann girtan söðulreiði,
sá hinn trylta vængjahestinn
fljúga burt með bygðarprestinn,
berja væng í grimdarreiði.
Ljóta kirkjan liggur auð,
lokuð aftur, myrk og dauð;
aldrei byggist aftur sú,
öldin minnar kemur nú:
Þarna! Hérna, horfðu á!
Hyllir undir prestinn, sjá!
tröllaukinn í töfrahökli
tvinnuðum úr smeltum jökli.
Viltu koma? Komdu þá!
Kirkjan hin er lögst í dá;
kenningin hjá klerki þeim,
kveður við um allan heim.

BRANDUR

Hygstu mig í heiðni villa,
hjáguðsbarn, og galdri trylla?

GERÐUR

Hjáguð? Hvað, er hjáguð til?
Hjáguð? Jú, ég veit og skil:
Ungur, lítill, aldinn, hár,
oftast gyltur, skrítínn, smár.
Hjáguð? Líttu' á hana þarna!
Heldur hún ei á gulli barna?
Hreifist þar ei hönd og fótur?
Lín og fat er lipurt undið,
laglega felt og smelt og bundið;
strangan mjúkt hún mundu vefur
mundi það ei barn, er sefur
Hjáguð; maður! Hann er ljótur?

AGNES

(til Brands)

Bið og hrópa! Hræðslan tárið
hefur mér af auga brent.

BRANDUR

Agnes, sérðu ógnar-fárið?
Annar hefur þessa sent!

GERÐUR

Heyrðu, heyrðu, klukkur kalla
kirkjufólkið upp til heiða!
Hópar stefna fram til fjalla,
fylkja sér um veginn breiða.
Flögðin, sem hinn kristni klerkur
kvað í sjóinn, ganga aftur.
Sérðu' ei ótal álfa og púka,
upp þeir gröfum sínum ljúka,
þeim sem læsti kynja-kraftur
klerksins, sem var haldinn sterkur.

Grafir ei né höf þeim halda,
horfðu' á svipi, vota, kalda.
Svei, svei, útburð sé ég þarna
sópa frá sér moldarhnausi;
heyr þá masa: Mamma, pabba!
Menn og konur svara, rabba;
eins og gráti ungra barna
anza mennskir drauga rausi;
bygðar-konan króa-kauðann
kjassar upp við brjóst sitt dauðann;—
aldrei með svo hreyknum hausi
hún með barn til skírnar fór.
Burtför prests er bylting stór!

BRANDUR

Vík þú burt! — En verra nær
sé ég annað —

GERDUR

Heyr! Hann hlær,
hann, sem situr þar við veginn,
bak við hólinn hinu megin;
hver ein sál, er fer til fjalls
færð er inn í bækur karls;
öll hjá honum lendir lestin.
Ljóta kirkjan liggur auð
lokuð aftur, myrk og dauð.
Haukurinn flaug til hafs með prestinn!
(Stökkur yfir hlið og hverfur í urðinni.
Þögn).

AGNES

Komum, nú er hvíldar skeið.

BRANDUR

Hvert þá?
(bendir á garðshliðið og svo á húsdyrnar)
Þessa? — eða þessa leið?

AGNES

(hopar undan hrædd)
Barnið, barnið!

BRANDUR.

Fékk ég fyr
föðurnafn en prests, — ég spyr?

AGNES

(hopar undan lengra)
Þó mig skyldi þruma slá,
þessu svara ég ei má.

BRANDUR

Þú ert móðir, því er þitt
þessu að svara, ekki mitt!

AGNES

Eginkona er ég, mitt
er að hlýða', en skipa þitt!

BRANDUR

Kjóstu, tak nú kaleik minn!

AGNES

(fer á bak við hríslu í garðinum)
Kjósa skal ei móðirin!

BRANDUR

Dynja heyri' ég dóminn ljósa!

AGNES

(með áherzlu)
Dæmdu, hvort þú átt að kjósa!

BRANDUR

Aftur sannleiks svar mér gall!

AGNES

Seg mér, skilurðu Drottins kall?

BRANDUR

(grípur hönd Agnesar)

Já, og örugt eg þér fel
úrskurðinn um líf og hel.

AGNES

Þú átt köllun, — veg þinn vel.

(Þögn um hríð).

BRANDUR

Komum, nú er hvíldar skeið.

AGNES

(lágt)

Hvert þá?

BRANDUR

(þegir)

AGNES

(bendir á garðshliðið)

Þessa?

BRANDUR

(bendir á húsdyrnar)

Þessa leið!

AGNES

(lyftir barninu hátt og segir)

Guð minn! Fyrst mín fórn er þetta
fram ég dirfist hana rétta!
Leiddu mig þá ljósið þver!

(fer inn í húsið).

BRANDUR
(Starir fyrst þegjandi, fær svo grát mikinn, grípur höndum um höfuð sér, kastar sér niður á riðið og hrópar):
Lýstu, Jesús Kristur, mér!

# Fjórði þáttur.

(Aðfangadagskvöld fyrir jól á prestssetrinu. Það er dimt í stofunni. Dyr á bakveggnum; gluggi til annarar handar og dyr þar andspænis. Agnes stendur við gluggann og starir út í myrkrið).

AGNES

Enginn enn, og enginn enn!
Ó, hvað þó er langt að bíða!
Vera að hvísla: Senn og senn!
Svara, spyrja, þreyja, kvíða! —
Úrkoman er ekki hætt,
eins og dánar-líni klætt
drúpir kirkju-kofa þakið.

(hlustar)

Þey! Ég heyri hurðarbrakið!
Fast er stigið; maður minn!

(hleypur að innri hurðinni og lýkur upp)

Maður minn? — Æ, komdu inn!

(Brandur kemur alsnjóugur; fer úr vosklæðum meðan þau tala saman)

AGNES

(faðmar hann)

Æ, þú varst svo voða-lengi!
Vertu hjá mér, farðu' ei frá mér!
Sértu burtu, sé hér engi,
svart er alt og napurt hjá mér.
Ó, sú nótt og nöpru dagar,

núna tveir, og þessi nótt!

BRANDUR.

Kona, það mín koma lagar.
Köld og föl!

AGNES

Mig vantar þrótt.
Eg hef horft, en hvergi fundið, —
hefi lítið grænlim bundið,
mér var ekki meira léð,
þó ég væri að safna' og safna
í sumar, vildi ekkert dafna, —
jólin fá ei jólatréð, —
nema beðið, beðið hans,
blóm þess fékk hann líka' — í krans!

(fer að gráta)

Æ, en skelfing! Skaflinn harði!

BRANDUR

Skaflinn úti' í kirkjugarði?

AGNES

Láttu það orð liggja kjurt!

BRANDUR

Láttu tárin fara burt!

AGNES

Þreyztu ei í þolinmæði,
þó mér enn þá nokkuð blæði
sárið ungt, en ekki grætt,
út er sálartáp mitt blætt. —
Æ, mér batnar angrið kalda;
eftir þessa rauna-daga
hætti ég að kvarta' og klaga.

BRANDUR

Er það jólin helg að halda?

AGNES

Heyrðu, — nei; ég skal mig kyrra.
Hann var, manstu, heill í fyrra.
Blóm míns lífs og bezta arðinn
báru þeir. —

(hikar sér)

BRANDUR

(hart)

Í kirkjugarðinn!

AGNES

Nefndu ei hann!

BRANDUR

Jú, hann skal hljóma;
hrædd er enn þín veika önd.
Hann skal duna, eins og óma
öldur hafs við kletta-strönd.

AGNES

Undan viltu einnig hopa
orði því, þótt dyljist við;
sé ég kalda kvala-dropa
koma fram um brúna svið.

BRANDUR

Sjávardropa sérðu kalda,
svalar öldur þessu valda.

AGNES

En sá dropi á augans brám?
Er það snjór úr skýjum hám?
Nei, hann yrði ei svo varmur,
upptök hans er sjálfs þíns barmur.

BRANDUR

Agnes, skylda okkar beggja
er að sýna þrek og mátt,
sál og vilja saman leggja,
sigra og vinna smátt og smátt. —
Áðan var ég sterkur, státinn:
Stórsjór huldi sker og boða,
mávar flýðu feigð og voða,
haglið hvein og barði bátinn.
Miðfirðis við brak og bresti
báran sauð en veðrið hvesti,
seglið reif og rána lesti,
svarta-rok af sjó og hagli,
söng hver röng en tísti nagli;
skriðu-brak úr báðum hlíðum
buldi, drundi ótt og tíðum;
átta menn ei ausið gátu,
eins og hvítir náir sátu.
Þá við stýrið hló mér hugur,
hinna þó að brysti dugur.
Annar með mér mundi stýra,
mig sem vildi endurskýra.

AGNES

Hæg er þraut við hregg og sjá,
hæg er þraut sem kappinn á;
gæt að mér sem morna' og sit
mæðunnar við fugla krit,
mér, sem hverja stranga stund
stilla hlýt og sefa lund;
gæt að mér, sem má ei stríða
mér, sem hlýt að þola, bíða;

gæt að mér, sem alt er annað,
en það minsta hlutverk bannað;
gæt að mér, sem hýrist heima,
hlýt að muna, vil þó gleyma.

BRANDUR

Minsta hlutverk þegið — þú?
Það var aldrei stærra' en nú.
Heyrðu, ég vil hvísla að þér
hvað í raunum verður mér.
Augað tári oft er fylt,
auðmjúkt hjartað, geðið milt,
og mér finst ég fram úr máta
fegin vildi mega gráta;
undarlega, Agnes kær,
auglit guðs þá færist nær, —
ó, svo nærri eins og að
ég hann gæti handsamað:
Og mig þyrstir önd að halla
eins og týndur við hans barm,
hrópa, krjúpa, flatur falla
fram á sterkan drottins arm.

AGNES

Ætíð guð þú átt að sjá
eins og þann er máttu ná, —
eins og föður heldur' en herra.

BRANDUR

Honum má ei veginn sperra;
í hans mikla veldis-verki
vera hlýtur guð hinn sterki,
himinhár og stór sem stríðin,
sterkur, því að veik er tíðin,

Æ, í þínum augum nær
er hann víst sem faðir kær,
þú mátt þér í faðm hans fleygja,
fá þar hvíld og skjól og traust,
standa' upp aftur heil og hraust
höfuð síðan aftur beygja
trúarörugg móti mér
með Guðs dýrð í augum þér.
Af því hjónin öllu deila,
Agnes, sprettur lífið heila;
hann skal stríða, hegna, hræða,
hún skal barnasárin græða.
Þá er engum brögðum beitt,
bæði vissulega eitt.
Frá því heimsins hættu-líf
hafðir kvatt og gjörst mitt víf,
og þín kjör með vilja valið,
var þér þetta hlutverk falið;
mitt er að standast mannraun alla,
mitt, að sigra eða falla,
mitt, að vera á verði rótt
varman dag sem kalda nótt;
þitt, að svala mæði manns
munarveginn kærleikans;
þitt að fóðra hlífar hans,
honum líknar-skyrtu vefa.
Mikil köllun, utan efa!

AGNES

Engin köllun er mitt færi
ef að vel er skoðað, kæri.
Hvert helzt sem ég huga stefni,

hurningu snýst um sama efni.
En mig dreymir dularmál.
Lof mér gráta, kveina, kvarta,
kendu mér, mitt eigið hjarta,
skyldu mína, skap og sál. —
Heyrðu': Í nótt þá brá til birtu,
Brandur, kom hann til mín inn
sýndist heill og hýr á kinn,
hjartað mitt, í einni skyrtu,
stendur rétt við rúmstokkinn
réttir til mín báða arma
eins og barnið bæði' um varma!
Blóð mitt fanst mér stöðvast alt.

BRANDUR

Agnes!

AGNES

Barnið klaka-kalt!
Heldur þú sé heitt í snjónum?
Hvílir hann ei á tómum spónum?

BRANDUR

Lík á snjófgum beði blundar,
barnið fór til Drottins fundar.

AGNES

(hrökkur við)

Ýfðu' ekki sollnu sárin,
sérðu' ei nýju hræðslu-tárin?
Legðu' ei saman lík og hjarnið,
líkið finst mér vera barnið.
Sál og líkami eru eitt,
aldrei fæ ég skilið neitt
hvernig þú ferð þessu að deila,

það er mér sem veran heila.
Álf minn, sem þar úti sefur,
engill Drottins mundu vefur.

BRANDUR

Fyr en sár þín blæða betur
batnar aldrei þetta stríð.

AGNES

Já, en líð mig lengri tíð,
leitt mig en ei neitt þú getur.
Heyrðu, Brandur, hjálpa mér,
helzt svo milt sem unt er þér.
Þú, sem hljóðin hefur stormsins,
hljótir þú á stundu nauða
vekja seka sál frá dauða, —
hrekja vélar illa ormsins, —
áttu' ei líka strenginn stilta
stilt sem getur harminn trylta?
Átt þú ekkert orð, sem svalar
og um ljós og frelsi talar?
Guð, sem þú mér kenna kenndir
kongur er í stórri borg,
honum frá í hræðslu vendir
hreldrar konu móðursorg.

BRANDUR

Væri þá til betra' að breyta,
bæðirðu hann, sem vanstu neita?

AGNES

Aldrei, aldrei aftur hann!
Oft og tíðum samt mér brann
þrá í hug að losna' úr læðing,
löngun eftir hjartans glæðing.

Heldur laus en hlekki bera
heyrðist forðum reglan vera.
Of stórt er mér alt, þitt svið
yfir gengur mína sál,
þú, þitt kall, þinn kraftur, mið,
kennning þín og viljans stál,
fjallsins hengiflug og tindur,
fjörðurinn, sem spor manns bindur,
sorgin, kuldinn, kvöl og þrá, —
kirkjan ein er þraung og lág.

BRANDUR

Kirkjan! Ertu enn með það?
Er það sjálfrátt? Seg mér hvað
vantar til?

AGNES

Þú veizt, ég skil
varla neitt, sem þó ég vil.
Dettur manni ei margt í hug?
Meinar nokkuð vindsins flug?
Hvort hann stendur utan, innan,
er mér sama', ef glögt ég finn hann;
eins ég þykist þekkja og sjá
þessi kirkja er heldur smá.

BRANDUR

Fólkið sér þó sé í draumi,
sama margir hvísla í laumi,
enda sumir eins í glaumi;
jafnvel hún, sem fer um fjöllin
flakandi með galdra sköllin,
sagði: „Hún er ljót og lág“.
En hún gat ei gjört mér heldur

grein, hvað þeirri skoðun veldur.
Ótal konur inna mér:
Alt of lítil kirkjan er.
Þessi mörgu kvenna köll
kalla: Þú skalt reisa höll!
Heyrðu, Agnes, heims um stig
herrann sjálfur valdi þig.
Lífs míns engill, leiddu mig!
Þó að sjálf þú sjáir eigi
sífelt ertu' á réttum vegi;
hræfareldur aldrei villti
anda þinn, né hjarta spilti.
Fyrsta dag sem fann ég þig,
fanstu mér hinn sanna stig,
ofan drógst mitt alheimsflug,
opnaðir mér sjálfs míns hug,
sjálfs míns vilja dáð og dug.
Agnes, þú hefur aftur sagt
orð, sem slær með ljóssins makt,
vísað braut þar vilt jeg fór;
glögt ég sé hvar á að yrkja,
oflítil er Drottins kirkja; —
vel og gott; hún verður stór!
Aldrei þekkti' eg eins og nú
ástgjöf Guðs, sem stendur hjá mér;
ó, því bið ég eins og þú:
Agnes, vík ei frá mér — frá mér!

*Agnes*

Hrakin burt skal hjartasorgin,
hætta skulu tára köf,
læst skal minnis bráðum borgin,

byrgð, sem kyr og þögul gröf;
grafa skal jeg gleymsku höf
síðan hennar milli' og mín;
hverja rós í muna og minni
mái ég, sem finst þar inni,
lifi öll og að eins þín!

*Brandur*

En hið stærsta þarf að þora.

*Agnes*

Þarftu hvassa strangleiks spora?

*Brandur*

Annar stærri hug minn hvetur.

*Agnes*

Hann! Þú manst þú sagðir mér,
að hann vilja mannsins metur
megnið þegar bila fer.

(ætlar að fara).

*Brandur*

Hvert þá, Agnes?

*Agnes*

Hússins starfa
hentar sízt að gleyma' í nótt.
En í fyrra fékk ég ljótt
orð, að hafa eytt án þarfa.
Þá var nóg af krönsum, kökum,
kveykt á öllum ljósastjökum,
jólatréð í gulli glóði,
gleðisöngur dundi, flóði.
Brandur, ég vil jólin halda
jafnt sem fyr, og öllu tjalda,
fara að kveykja, fága, prýða

fyrir móður allra tíða.
Líti Guð til okkar inn
auðmjúkan hann finnur sinn
hirta son og hrelldu dóttur
helga saman Drottins nóttu
glöð, en ekki afundin,
eins og börn við föður sinn.
Burt svo tár og trega spor!

*Brandur*
(faðmar hana).

Tendra ljós. Gæt þinnar yrkju.

*Agnes*

Byggðu svo þá björtu kirkju,
Brandur! strax — og fyrir vor!
(fer).

*Brandur*

Mitt í raunum reiðubúin,
reiðubúin fram í deyð,
bresti þrekið, bilist trúin
beina stefnir viljinn leið.
Drottinn, hennar götu greið;
Drottinn, þínum þræli vægðu,
þína heiptarreiði lægðu,
lát ei svo þitt lögmál hræða,
lát ei mig sem haukinn skæða
þurfa að heimta hennar blóð.
Ég á krapt og mikinn móð;
brenn þú mér á brjóst og enni
beggja sök, en vægðu henni!

(Það er klappað á dyr. Fógetinn kemur inn).

*Fógetinn*

Hér kemur sigri sviptur einn.

*Brandur*

Hvað? Sigri?

*Fógetinn*

Því er ei að leyna.
Ég komst of skamt er skyldi reyna
að skilja yður og söfnuðinn.
Ég yður spáði ei því bezta
í okkar skiptum — munið þér?

*Brandur*

Já.

*Fógetinn*

Enn þó fylgi margur mèr,
við mótstöðuna ég hættur er.

*Brandur*

Hvers vegna?

*Fógetinn*

Því þér fenguð *flesta.*

*Brandur*

Ég?

*Fógetinn*

Já, þér sjálfsagt sjáið það,
svo sækir fólkið yður að.
Sá andi dregst hér drjúgum inn,
sem Drottinn veit að ei er minn;
hann kemur einmitt yður frá,
það er ég viss um. Sættumst þá,
og höfum handsal hér upp á!

*Brandur*

Ei endar stríð, sem okkar tveggja,
þótt annar vilji' á flótta leggja.

*Fógetinn*

Mun annað betur enda stríð,
en alger sætt og friðartíð.
Ég spyrni aldrei beint á broddinn,
það bera flestir skjöldinn við,
og sjái' eg brjóst mitt bert við oddinn,
þá bið ég óvin minn um grið;
og sé á móti spjóti spíta
mun spítan varla lengi bíta,
og eigi maður einn að verjast,
er eflaust skárra' að flýja' en berjast.

*Brandur*

Ég sé hér tvennt, og set við merki.
Þér segið ég sé nú hinn sterki;
èg eigi flesta —

*Fógetinn*

Efalaust.

*Brandur*

Já, eins og er. En hvor mun traust
í mundum hafa' og meiri hag
hinn mikla' og stóra offurdag.

*Fógetinn*

Hvað, offurdag? Það er nú hann,
sem ekki koma skal né kann!
Og enda þó að offrað sé
er alt og sumt að borga fé.
Vor öld er mild og engan krefur
um annað en hann vill og hefur.
En óviðfeldast er þó eitt
að, einn af mörgum, ég hef leitt
í sveitina inn það ljúflingslag,

sem lagði' af þennan offurdag,
svo segja má ég hefði hönd
mót hag min sjálfs, og sneri vönd
til höggs á lífs míns afreks enda.

*Brandur*

Já, afdrifin þar *mættu* lenda.
Í öðru lagi' eg ekki skil,
að yðar sé nú búið spil;
hvert líf er sakir takmarks til,
og takmarkið, þó hræði hrís,
er hvers manns lofuð Paradís.
Ef haf á milli hennar væri
og hans, en nærri Satans lóð,
á hann að hrópa: Hér er færi!
og hrapa sér í vítis glóð?!

*Fógetinn*

Hér svara ég til já og nei;
því alt skal lykta einhverstaðar,
og ef vor mæða' og stefna skaðar,
að strita lengi stoðar ei.
Og æ sér gjöf til gjalda; fátt
er gert fyrir ekkert, stórt né smátt.
Ef beint og hreint ei barizt getur,
þá beyttu lagi, það fer betur.

*Brandur*

En hvernig? Verður *hvítt* gert *svart*?

*Fógetinn*

En heilla-vin, það hentar vart
að hrópa: Þetta er dökkt sem mórinn,
ef fjöldinn segir: Svart sem snjórinn!

*Brandur*

Þér segið já?

*Fógetinn*

Í líka átt.
ég segi' ei *svart*, ég segi *grátt*;
vor öld er mild; vér miðlum þá,
því menn vilja ekki rekast á.
Þér vitið þó, vor þjóð er frjáls,
svo hver má segja sína meining,
en sundra mundi allri eining
ef hver stæði' einn með sök sín sjálfs.
Þér hafið flesta, — fljótt að segja,
því flestir yðar vilja hneigja;
því fylli' eg líka fylking yðra,
sem fjöldinn vill, og býð mitt lið,
og trauðla mun mér nokkur niðra
þar nauðsyn bauð ég semdi frið.
Ég veit menn dylgja um dugnað minn,
að dreifast taki framkvæmdin.
Þeir nöldra' að eitt sé nauðsynlegt,
þó næsta margt hér gangi tregt;
um auka-framlög ef ég spyr
þeir eru seinni nú en fyr, —
en framkvæmd öll er sigri svift
ef sönnum vilja' er undan kipt.
Mér þykir vont, það veit mín trú,
að verða' að sleppa hverri brú,
áveitu-skurðum, útræsum
og öðrum héraðs stórræðum.
En hvað þá? Hvað þá? Satt að segja
er sigruðum ætíð bezt að þegja,

með hógværð bíða betri tíðar,
því batna kann, þó verði síðar.
Nú, vinsæld mín er týnd og töpuð,
og töpuð þar sem hún var sköpuð;
en vel og gott, hún vinnast mætti
og vaxa á ný, með öðrum hætti.

*Brandur*

En létuð þér fyrir lof og hrós
þá loga yðar snildarljós?

*Fógetinn*

Nei, það veit góður Guð, að það
var gert svo yrði notum að
í vorri bygð, en víst ei neita' eg
á verðskuldaða umbun leit ég
sem sjálfsagða. Það sönn er reynd,
að sérhver, hafi hann fulla greind,
vill ávöxt sinnar iðju sjá,
en ekki tóman vindinn slá,
þó hugsjón kunni' að horfa á.
Og þó ég vildi' og gerði glaður,
þá get ég ekki öðrum sint,
sé ei að sjálfs mín sökum hlynt,
því ég er barnamargur maður;
og eigi maður margar dætur
er meir en nóg að hugsa' um fyrst;
hugmyndir fylla' ei fátæks lyst.
Hugmyndir tómar hefta' ei sult,
ef húsið er af börnum fult;
og skyldi þetta einhver yggja,
og ekki vilja reyndum trúa,
þá segi' eg: Lærðu betur að búa?

*Brandur*

Og nú, — nú byrjið þér — ?

*Fógetinn*

Að byggja.

*Brandur*

Að byggja, nú?

*Fógetinn*

Til heilla' og hags
og hamingju vors bygðarlags.
Fyrst vil ég byggja upp það orð,
sem áður naut ég hér um storð; —
og þareð senn til þings skal kjósa,
ég þarf að höggva stórt og títt
uns allir mínum málstað hrósa;
ég meina fólki þings val nýtt.
Ég hugsa, sem sé, sjáið til
að sigla' ei einn í foraðshyl.
Nú heimtar fólk að mannast, mentast,
en mér er það starf ei sem hentast;
ég hjálpa því að brölta' og búa,
en banna því, ef get, að fljúga;
en nú eru allir móti mér.
Og því er helzt í hyggju minni
að hlynna að sveitamálum hér
og finna ráð við fátæktinni.

*Brandur*

Og útrýma henni?

*Fógetinn*

Alveg? Nei,
hún er og verður skyldugrey,
sem engin sveit má undan flúa,

en oft má svo í haginn búa,
að hana megi stöðva og stanza
og stórum bæta hennar vansa.
En fátækt er sú forarlind,
sem frjóvgar alla landsins synd;
þann forarstraum ég hefti hér.

*Brandur*

En hvernig, maður?

*Fógetinn*

Getið þér?
Ég bæti' úr því sem brýnast þarf,
og bændum hér er happastarf,
ég brauðleysingjum byggi pesthús.
Já, pesthús, segi' eg, af því að
örbirgðar-pest skal varna það.
Svo kræki ég þar þeim klefa við,
sem klækis-mönnum þykir verst hús, —
orsök og verkan sama svið
skal hafa bak við harðan lás,
en hvað um sig á luktum hás.
Og úr því braskið byrjað er,
að byggja viðbót hugnast mér
við hússins enda, háan sal,
sem hentur er við kjör og val,
og sem við gráts og gleðifundi
við gestum öllum taka mundi.
Samkomu-, funda-, gildis-, gest-hús.

*Brandur*

Um slíka nauðsyn þarf ei þinga,
en þarfara mér finst þó annað.

*Fógetinn*

Þér meinið víst fyrir vitleysinga?
Ég veit það að þess meir en þarf,
og vildi kjósa strax það starf,
en mér hafa aðrir annað sannað
svo ég að lokum frá því hvarf.
Því hvar á hér að finna fé
svo framtak þvílíkt gjörlegt sé?
Því slíkur yrði sjálfsagt salur
í sannleik æði stór og dýr,
ef sèrhver í þeim bústað býr,
sem biður og er hæfur, falur.
Oss bendir tímans bráði foss,
vér byggjum ei fyrir sjálfa oss,
alt brunar fram, sem fossi ár;
í fyrra' of stórt, of smátt í ár,
alt, alt á fleygi-ferð er hér
af framförunum, sjáið þér,
alt eflist, magnast, áfram stefnir,
svo enginn viðnám lengur nefnir.
Ég geri því ei gaman að
að gefa slíkan samastað
framtíð og niðjum. Þeir um það.
Því ræðst ég ei í þess kyns þóf,
mér þykir bezt að kunna hóf.

*Brandur*

Og verði nokkur viti fjær,
í veizlusalnum hús hann fær.

*Fógetinn*

(ánægjulegur).

Já, húsrúm nóg, þar optast er,

og óskaráð mér gefið þér;
og verði botn í bygging minni,
fær brjálað fólk þar gefins inni;
und sama þaki safnast þá
með sama fána stafni á
alt það, sem gefur okkar þjóð
einkunnarblæ um þessa slóð;
fyrst vorrar sveitar sultar-grúinn,
svo sakamanna leiðu hjúin,
og flökkukind hver rænu rúin,
sem ráfað hefur lands um braut,
og hvergi húss né hjálpar naut.
Svo fjörgast okkar frelsisvöld
við funda-, þing- og ræðu-höld;
vér eigum ráðhús, þar sem þreytum
öll þingmál eins og bygð vor þarf,
og veizlusal, þar hátt vér heitum
að hirða rétt vorn föðurarf.
Og sé nú heppnin holl og góð
þá hefur okkar klettaþjóð
hér um bil alt, sem þarf til þrifa,
til þess hún einfær megi lifa.
Kalt er og hrjóstugt hér um reit,
en fáist þvílíkt þinghús byggt,
ég þori' að segja, hér sé tryggt
og laglegt hérað, sæmdarsveit.

*Brandur*

Og efnin?

*Fógetinn*

Já, þá vex nú vandinn,
sem vant er, hvað sem gjöra þarf.

að borga' er viljans versta starf,
og færuð þér mér frá, á hvarf,
er framkvæmdanna þrotinn andinn.
En ef þér sýnið orðsins mátt,
og aðra vilduð hvetja' og teyma,
þá sigra ég og syng þá kátt,
og seint skal yðar liðsemd gleyma.

*Brandur*

Þér ætlið mig að kaupa, kæri?

*Fógetinn*

Nei, kallið eigi svo það færi,
sem okkur býðst til allra gagns,
svo okkar misklíð falli strax,
og fylt sé upp það fáleiks skarð,
sem færir báðum lítinn arð.

*Brandur*

Þá hittuð þèr ei henta tíð. —

*Fógetinn*

Heimilis yðar reynslustríð
er vissulega' í minni mér;
en manndáð yðar kunnug er;
og málið til svo mikils gagns.

*Brandur*

Í mæðu' og gleði' er ég til taks
ef þörfin krefur, þó að eigi
í þetta sinn ég hjálpa megi.

*Fógetinn*

Hví þá?

*Brandur*

Ég sjálfur býzt að byggja.

*Fógetin*
Að byggja? Er sama yðar hyggja?
*Brandur*
Ei alveg.
(bendir út um gluggann).
Heyrið, horfið á!
*Fógetinn*
Þar?
*Brandur*
Já.
*Fógetinn*
Þetta — þessa hlöðu,
sem þér hafið fyrir kýr og töðu?
*Brandur*
Nei, þetta litla, svarta, sjá!
*Fógetinn*
Kirkjuna!
*Brandur*
Hana býzt ég byggja.
*Fógetinn*
Það skal ég aldrei, aldrei leyfa,
nei, enginn skal við henni hreifa,
né mína framkvæmd skemma' og skyggja.
Mitt ráð er gjört, það fæst ei frestur;
þér fyllið ekki göngin, prestur.
Í einu tvennt, er alt að svíkja.
*Brandur*
Nei, aldrei hef ég lært að víkja.
*Fógetinn*
Þér hljótið! Byggjum, prestur, pesthús,
pólitískt þinghús, tukthús, gesthús,

málhús og brjálhús, byggjum strax,
en bíði kirkjan næsta dags!
Og því skal hún ei þroka kyr?
Hún þótti dágóð áður fyr!

*Brandur*

Hún þykir heldur hrum og smá.

*Fógetinn*

Ég hana fulla aldrei sá.

*Brandur*

Þó ein á bekk þar byggi sál,
hún bælir huga, raust og mál.

*Fógetinn*

(í gamni).

Sú eina sál mér sýndi hitt,
hve sjálfsagt væri húsið mitt.

(alvarlegur).

Nei, kæri, jeg vil kirkjan standi,
hún kallast má í þessu landi
forngripur vor og föðurleifð,
með flasi skal hún aldrei hreifð!
Og bregðist mér mín rök og ráð,
þá rís ég upp í fólksins náð,
sem fuglinn Fönix, drýgi dáð
og dýrgripinn á vorri strönd
ég djarfur ver með hetjuhönd.
Í fornöld stóð hér heiðið hof,
ég hygg þegar Beli vann sér lof.
En svo kom kristnin, kirkjan bygðist,
og Kristsgjöfum og ránum trygðist;
óbrotin, heiðvirð, hlý og lág,
háöldruð fram við marinn blá;

var hún og er til okkar daga.

*Brandur*

Af fornrar tíðar frægð og auð
hún fyrir löngu' er orðin snauð,
og ekkert, nema segin saga.

*Fógetinn*

Já, einmitt það! Svo öldruð er hún,
að enginn sér né veit nær fer hún.
En afi minn man eftir vegnum,
að opið gat var þar í gegnum.

*Brandur*

Gat?

*Fógetinn*

Eins vítt og vídd á sekki.

*Brandur*

En veggurinn sjálfur?

*Fógetinn*

Hann var ekki.
Því segi' eg það, að hreifa hana
er helgibrot og mesta rán,
já, næsta hrópleg héraðssmán,
sem minti á gamlan grimdarvana.
Og hvaðan ætti féð að fást?
Og haldið þér menn skatt þann skilji
og skilvíslega gjalda vilji,
svo kostnaðurinn kunni nást?
En hana má í laumi laga,
svo lítið kosti fé og baga,
að standi hún vel um *vora* daga.
Þér megið spyrja' og fleiri finna,
þér fáið sjá, að ég mun vinna.

*Brandur*

Ei eyrisvirði varið skal
úr vösum fólks í Guðs míns sal,
á kostnað sjálfs mín kirkjan byggist;
ég glaður legg mína' eign, minn arf,
og alt sem hef, í þetta starf,
Fógeti, seg, hvort þess nú þarf
að þér af minni hugsun styggist?

*Fógetinn*
(slær höndum saman).

Ég er sem dottinn ofan úr skýjunum!
Slík ósköp spyrjast vart úr býjunum; —
og hér í Fjörðum, hér hjá oss, —
hvar gilda skal sem gömul skrá
að gefa ei neitt þó liggi á, —
að opna slíkan örleiks foss,
hvar öldur hvella, sjóða, hvissa, —
nei, séra Brandur, ég stend hissa!

*Brandur*

Arf minn ég hafði hugsað lengi
að hirða' ei sjálfur —

*Fógetinn*

Fregnin kvað
að talsvert mundi til um það,
en trúa samt því vildi engi.
Því getur nokkur gefið alt
ef gott í móti er hvergi falt?
Nú það er yðar eigin sök.
En opnast mér þá hvergi vök?
Þér sjáið opinn frægðar-framann,
en framkvæmd mín ei verður gaman. —

En Brandur, heyrið, hyggjum *saman*!

*Brandur*

Hvað ætlið þér þá öllu að sleppa?

*Fógetinn*

Já, öllu, það veit Drottinn minn!
Því hvaða vit er hér að keppa?
Því hverjum fylgir múgurinn,
ef annar fóðrar, auðgar, elur,
en annar sveltir, reytir, kvelur?
Hver fjandinn! Já, ég fylgist með,
af fjöri lyptist alt mitt geð,
í brjósti berst nú hjartað heitt,
mig hefur einstök gæfa leitt
hingað í kveld til ykkar inn,
hjá yður vakti hugur minn
það ráð, er kannske lá þar leynt,
en líklega hefði vaknað seint.
Og segja má ég sjálfs mín yrkju
að setja hér upp nýja kirkju.

*Brandur*

Og þessum háa helgidómi
við hljótum þá að synja um ró!

*Fógetinn*
(horfir út).

Já, skoðuð nú í tunglskins tómi
og töfraglætu af nýjum snjó
mér sýnist kirkjan hjallur, hró.

*Brandur*

Svo?

*Fógetinn*

Já, hún fjarska farin er,

mig furðar nú á sjálfum mér,
að áðan skyldi' eg ei það sjá; —
að ofan snöruð, — lítið á!
Nei, hún er fráleit, hún er frá!
Og líti menn á loft og ris,
er lagið rétt til athlægis.
Hvað mundu kalla meistarar
og menn, sem þekkja, slíka hvelfing?
Þeir mundu hrópa: Mikil skelfing:
Og þakið — mosa þemburnar!
Frá Bela — þetta fjárans fargan!
Nei, fastheldin þarf eitthvert hóf;
nei, allir gefa sama svar
að sveitarskömm sé þvílíkt gargan,
og þola megi' ei þetta hróf!

*Brandur*

En ef nú sóknin samt ei vildi
það sjá né heyra, 'hún rífast skyldi?

*Fógetinn*

Ef það vill enginn þá skal *eg*!
Og ég skal nú um jólin laga
og jafna alt til sinni daga,
og setja málið vel á veg.
Ég hvet og skrifa, skrafa, sendi, —
þér skylduð kannske ei þekkja mig;
og ef ég hef ei alt í hendi
og aulaskapnum vinn ei slig,
og vilji fólkið henni hlífa,
og hræðlan bindur legg og mund,
þá skal hana alla ofan rífa
mín eigin hönd þá sömu stund;

já, svei mér skal hún fá á fætur;
ég fer með konu' og allar dætar;
hún falla skal í grunn við grund!

*Brandur*

Nú kveðið er við annan tón,
svo ekki gildir hlífð né bón.

*Fógetinn*

Mannúðin skal oss venja við
að varast gamla *einrænið;*
og ef ei skáldaljóðið lýgur
er laglegt orð um mannsins hug,
að kenna hann við fuglsins flug,
með öðrum orðum, — andinn flýgur. —
Far vel!

(tekur hatt sinn)

Ég hlýt að hugsa um fanta.

*Brandur*

Um hvað?

*Fógetinn*

Ég tala' um gripna ganta,
nauðljóta, sem við núna tveir
á næstu mörkum hérna fundum;
við heimtum reipi, hyskið bundum,
og hérna nærri geymast þeir;
hver þeirra skammar, skrækir, lemur,
og skrattinn, hélt ég, tók við þremur.

*Brandur*

En nú er hringt inn frelsi' og frið.

*Fógetinn*

Hvern fjandann hingað vill það lið?
Þó viti ég hitt að hér um bil

þeir heyra vorum byggum til —

(glottandi)

og jafnvel yður. Ein er gáta,
sem yður ráða vil ég láta:
Í bygðum þessum fólk er fætt
og framkomið af vissri ætt,
en ber í æðum annað blóð
af öðru húsi, kyni' og þjóð?

*Brandur*

(hugsandi)

Mörg gátan hér í heimi finst
sem hugsun engri ráða vinnst.

*Fógetinn*

Sú gátan er ei þung að þýða,
og þér hafið eflaust heyrt svo víða
um fátækling, sem flæmdist vestur,
en fróðari var en nokkur prestur; —
sem móður yðar, Brandur, bað. —

*Brandur*

Hvað?

*Fógetinn*

Ríku móður — mundi' ei það?
Hún bað hann eins og vonlegt var,
að vappa beint til Nástrandar.
En hvernig gekk svo garminum?
Hann geggjaðist á heilanum;
hann festi sér eitt flækingshró
af fantakyni og áður en dó
fjölguðu drjúgt þau flækings skauð,
sem flakka hér við skömm og nauð.
Og á hans langa lausungs flakki

hér lenti einn hans vafa-krakki,
og heldur en ekki heiðurs verður —

*Brandur*

og hver þá?

*Fógetinn*

Tatara-stelpan, Gerður!

*Brandur*

(lágt)

Nú, hún!

*Fógetinn*

Já, var ei gátan góð?
Af honum er það fóstur fætt,
en framkomið af vissri ætt;
af yðar móður ástum stóð
sú orsök að hann gat það jóð.

*Brandur*

Seg, getið þér ei nefnt til neitt,
sem náð og líkn þeim gæti veitt?

*Fógetinn*

Svei, nei, svo fordæmt fantalið;
þess föðurhús er tugthúsið;
ef leysti' ég þennan fólskufans
ég færi' í vasa andskotans,
sem heimtar sitt af heiminum,
því hann er að verjast skuldunum!

*Brandur*

Þér hugðust áðan bráðast byggja
borgir og vígi synd og neyð.

*Fógetinn*

Það frumvarp, eftir á að hyggja
fór aftur á bak þá sömu leið.

*Brandur*

En gott ég *tel* — ef tiltök væri —

*Fógetinn*

(brosandi)

Nú talið þér, minn prestur kæri,
í öðrum tón en áður fyr.

(klappar á öxl honum)

Hið dauða fari dauðans dyr,
en dugum vel með föstum vilja.
Far vel, far vel, við skulum skilja. —
Hvar skyldu mínir flóttaliðar
sig halda' og hafa skreiðst í skjól?
Við finnumst bráðum. Blessuð jól!
Og heilsið frá mér húsfrú yðar!

(fer).

*Brandur*

(eftir djúpa þögn)

Hver fyrir alla feikn þá friðar!
Ó, skelfilega skapanót
og skuldar fléttuð eiturrót!
Svo tvinnast saman sekt og sök
við syndarinnar fyrstu rök
að augað loks sér ekki neitt
nema ilt og gott sem heild, sem eitt!

(horfir lengi út um gluggann)

Þú lambið Guðs, mitt góða barn,
þú goldið hefur ömmu þinnar;
og gegnum flagð, sem hljóp um hjarn,
mig hrópar Guð til skyldu minnar, —
og flagðsins sjúka sál varð til
við sekrar móður aura-spil.

Svo fyrir Guði gjöldin safnast,
þau greinast, tvístrast, niðurjafnast;
svo ríkt er Drottins réttlætið
sem refsar oss í þriðja lið.

(hrökkur frá glugganum óttasleginn)

Guðs ógn og hefnd yfir ættinni! —
Augnamiðið er jafnvægi.
Auðmýktarinnar fórnum frá
hin fyrsta lífsvon koma má;
en öldin lýgur að sér sjálfri
við orðið hrædd af vizku gjálfri.

(gengur lengi fram og aptur)

Að biðja? Biðja? — Orð það er
svo undur-hægt í sjálfu sér,
það haft er líka hvar sem stendur.
Menn halda bæn að hrópa: Náð!
í heimsins blindni um sjó og láð,
og klífa um skjól við krossins tré,
að kveina sárt og teygja hendur —
þó vantrúna þeir vaði í hné.
Hóhó, ef með því gæfust grið,
þá gæti ég sem hver einn hreldur
nú þegar knúð þess herra' hlið,
sem heitir „tortýmandi eldur".

(nemur staðar og hugsar í hljóði)

Og þó á minni þyngstu stund,
á þeirri stund, er barnið svaf
og hvorki koss né móður mund
gat mýkt né sefað dauðans haf, —
nær bað ég? Eða bað ég þá?
Sú bifun, hvaðan kom hún frá,

sá ómur, — helgi hulins-kór,
sem húsið fylti, kom og fór, —
minn hugur lyftist, hár og stór?
Bað ég? Hefir mér herrann svalað,
og hefir Drottinn við mig talað —
í húsi þessu, signt mín sár,
og séð á meðan ég feldi tár?
Æ, hver veit? Lukt og læst er alt
og ljósið dáið; heljar-kalt.
Er hvergi ljós? Er hvergi kraftur?
Jú, hún sem sér með augum aftur.

(hrópar)

Heyr, Agnes, komdu, kveyktu ljós!

(Agnes lýkur upp og kemur inn með kertaljós svo bjart verður í stofunni)

*Brandur*

Ljós!

*Agnes*

Jólaljósin horfðu' á hér!

*Brandur*

Hóhó! Jólin!

*Agnes*

(setur ljósin á borðið)

Leiddist þér?

*Brandur*

Nei, nei!

*Agnes*

Hér er hel, og kalt
þér hlýtur vera.

*Brandur*

(einbeittur)

Nei!

*Agnes*

Já, alt
þú þola vilt, eins varmt sem klakann.
(leggur í ofninn)

*Brandur*

Hm, vil ég!

*Agnes*

Hérna set ég stjakann.
(fer að taka til í stofunni)
Í fyrra teygði fingur sín
í fögru ljósin elskan mín
svo fallegur og frískur þá.
Ég man hann hélt sér hérna í stólinn
og horfði og spurði: „Er það sólin?“
(flytur stjakann úr stað)
Nú lýsir blessuð birtan þó
á beðinn — staðinn, — þá er nóg,
ef rétt í gegnum rúðuna
á rúm hans leggur birtuna,
þá horfir hann úr hvílu sín
í húsið inn á ljósin mín.
Á gluggann eins og grátdögg slær, —
ég græði það —
(þerrar hann)
svo við hann hlær.

*Brandur*

(hefur horft á og segir lágt)
En nær mun þessi sorgarsjór
er sífelt dunar, verða rór?
Hann *skal* í ró!

*Agnes*

(við sjálfa sig)
Nei, sko hve bjart,

svo skilrúmið það merkist vart,
það birtir út um svalan svörð,
mér sýnist öll hin kalda jörð
sé orðin björt, og blessuð stofa
þar barnið góða á að sofa.

*Brandur*

Hvað gjörirðu, Agnes?

*Agnes*

Góði kyr!

*Brandur*

Frá glugganum tjaldið? Hví? Ég spyr?

*Agnes*

Mig dreymdi — læt þó drauminn fara,

*Brandur*

Í draumi liggur morgoft snara.
Drag fyrir!

*Agnes*

Brandur!

*Brandur*

Byrg hann þétt!

*Agnes*

Æ, Brandur, vægð! Það er ei rétt.

*Brandur*

Byrg, byrg!

*Agnes*

(dregur fyrir tjaldið)

Ég byrgi, þek hann þykkt;
en þetta' hefur varla Guð minn stygt,
að ég í draumi fékk mér fró
og friðun litla.

*Brandur*

Ekki þó!
Svo strangt þinn drottinn dæmir vart,
hann drottinn tekur ei á því hart,
þó hjáguð finnist hér og þar
í húsi þinnar dýrkunar.

*Agnes*

(með grátrödd)
Ó, seg þá hvernig — — hvers er krafið,
mitt hjarta' er veikt, mitt blóð er kalt. —

*Brandur*

Ég sagði þér, að hent í hafið
sé hverri fórn, sem eigi er *alt?*

*Agnes*

Ég gaf mitt alt, ég á ei meira.

*Brandur*

(hristir höfuðið)
Nei, offra betur, gefðu fleira.

*Agnes*

(brosandi)
Kref þú, ég hef kjark hins snauða,

*Brandur*

Kom!

*Agnes*

Tak þú finnur hirzlu auða.

*Brandur*

Þú hefur bæði sorg og sút
og synda þinna táraflјót.

*Agnes*

(örvingluð)
Já, hjartans köldu, kviku rót,
ó, komdu, taktú, rífðú út!

*Brandur*

Ef fórnin þykir frek og ströng
hún fellur ógild, spilt og röng.

*Agnes*

Þín vegarspor eru vönd og ströng.

*Brandur*

En *viljinn* byggist með þeim einum.

*Agnes*

Og *frelsi* og *náð?*

*Brandar*

Úr fórnarsteinum.

*Agnes*

(starir höggdofa)

Nú sé ég eins og opnist storðin
hin óttalegu spádómsorðin,
ég aldrei skildi.

*Brandur*

Orð, hver? Heyr!

*Agnes*

Ef eilífan Guð þú sér, þú deyr!

*Brandur*

(grípur hana í fang sér)

Æ, fel þig! Sjáðu' ei, sjáðu' hann ei!
Legg augun aptur —

*Agnes*

Á ég? —

*Brandur*

(sleppir henni)

Nei!

*Agnes*

Þú sjúkur ert.

*Brandur*

Ég elska þig.

*Agnes*

En ástin þín er hörð við mig.

*Brandur*

En seg mér hvort hún of hörð er.

*Agnes*

Ég einskis spyr; ég fylgi þér.

*Brandur*

Hvort hyggur þú ég hafi valið
og hrifið þig af gleðistig
og hlýðnis skyldu kvölum kvalið
með köldu blóði' og gabbað þig?
Vei okkur þá, þá væri hörð
þín voða-stóra fórnargjörð.
Ég á þig, þú ert *öll* mín eign,
við eigum samleið, skyldu-veginn.

*Agnes*

Já, skipa þú, en far ei frá mér.

*Brandur*

Ég fer um tíma, hvíld að fá mér.
Hin stóra kirkja á brátt að byggjast.

*Agnes*

En bænhúsið er fallið mitt.

*Brandur*

Ef brotnað hefur blóthús þitt,
þá ber mér ei af því að hryggjast.
(faðmar hana að sér eins og kvíðandi)
Guðs friður inn og yfir þér
og út frá þér og hlífi mér!
(fer að innri dyrum stofunnar)

*Agnes*

Æ, má ég gjöra glufu hér
við gluggatjaldið? Leyfist ei
að lypta? Þetta? Þetta?

*Brandur*

Nei!

(fer inn í sitt herbergi)

*Agnes*

Lokað, lokað — lífs hver glæðing,
lokuð hróp og andvörp byrgð,
gleymskan sjálf er lögð í læðing,
læstur himin, gröfin stirð.
Út og út mér ögn að svala!
Út, úr drómi slíkra kvala!
Út! En hvert? Frá himni heiðum
horfa niður augu ströng!
Gæti ég með löngum leiðum
losað mig við hjartans göng?
Flý ég þessa, — þótt ég rynni, —
þögn og ógn í sálu minni?

(hlustar við hurðina á herhergi Brands)

Hann er að lesa, að hans eyra
ekki nær mín veika raust.
Engin hjálp né hjartans traust!
Guð er í önnum, hlýtur heyra
hinna ríku, börnum gæddu,
lukkudrjúgu, láni klæddu
glaum og dans, því gleðitíð
Guðs og manns eru jólin blíð.
Mig er varla von hann eygi,
vesöl, barnlaus, ein ég þreyi.

(læðist nær glugganum)

Á að sifta svörtu húmi,
senda' út aftur ljósið bjart,
reginmyrkrið reka svart
frá hans lága legurúmi?
Nei, þar niðri er hann ekki.
Eiga' ei jólin smábörnin?
Honum er leyft að líta inn. —
En ef ég hann úti þekki
og hann ber á gluggann minn? —
Ungbarnshljóð mér heyrðist eitt! —
Hjartað mitt, ég get ei neitt;
fæ þig ekki' að faðma, Álfur,
faðir þinn hann læsti sjálfur.
Vel þú kunnir hlýðnis-hót,
honum gjörðir aldrei mót.
Svíf þú upp til sólarhæða,
sjá þar ljós og fylling gæða;
lít þar engla ljóssins káta;
lát ei nokkurn sjá þig gráta.
Seg ei frá að faðir þinn
fyrri læsti en komstu inn;
mundu börnin mega' ei skilja,
margt það, sem þeir eldri vilja.
Segðu' hann hafi syrgt og grátið,
seg það væri hann, sem látið
hefur binda blöð í krans,
barn mitt, líttu' á, þetta er hans!

(hlustar, áttar sig og hristir höfuðið)

Mig er að dreyma! Meir er bilið
milli okkar heldur en þilið,

eigi fyr en fórnin logar
fellur ógnarveggur sá,
eigi fyr en bresta bogar,
bálið rjáfrið togar, sogar,
hrökkur sundur heljar-skrá.
Ógnar-margt er enn að vinna
áður hann ég megi finna.
Ég skal keppa, kvalir dylja,
kröfur allar reyna' að skilja,
jeg skal herðast, jeg skal *vilja*.
Já, en nú er helgin kyrra.
Hversu ólík og í fyrra!
Jú, jú, þessi jól ég held:
Gullin mín ég geng að skoða,
gullin keypt með sálarvoða,
þá mín lukkusól var seld.
Meti þau hver móðir hreld!

(Hún krýpur við dragkistuna og dregur út skúffu og tekur upp ýmsa muni. Brandur lýkur upp dyrunum en nemur staðar. Hún sér hann ekki).

*Brandur*

(í hálfum hljóðum).

Sama hringsól: Sorgin, gröfin;
sama hringl við dauða-höfin.

*Agnes*

Signuð kápan, sem hann bar,
sonurinn, þá skírður var.
Þarna hef ég kotrað kjólnum.

(heldur fatinu upp, horfir á og hlær).

Yndislega ögnin smá! —
Ó, hve gaman var að sjá
þegar elskan stóð í stólnum!

Hér er kotið, hèr er trefjan, —
fatið sem hann fékk í strút
fyrsta sinn er kom hann út;
meir en þrisvar þurfti' að vefja 'ann;
þar til barnið óx úr kút. —
Hanskar, sokkar; — sjáum fót!
Svo hin þykka silkihúfa,
sem við kulda skyldi hlúa; —
ný og fögur búningsbót.
Ó, svo koma ferðafötin,
fötin, er ég sat við sveitt
að færa' 'ann í svo yrði heitt.
Þá ég aftur, farin flöt inn,
færði' 'ann úr þeim — var ég þreytt!

*Brandur*

(gnýr saman höndum).

Þyrm mér Guð, að þurfa' og hljóta
þetta eina goð að brjóta!
Sendú annan, herra hár!

*Agnes*

Hér er blettur — eptir tár.
En sá auður! Perlum prýddur,
píslum stunginn, tárum skrýddur,
ofinn gegnum voðans val.
Helgi fórnar-skrúðinn skæri,
skartið hinsta, sonur kæri!
Veit ég enn mitt auratal?

(Barið hart á dyr. Agnes lítur við og rekur upp hljóð er hún sér Brand. Hurðinni er hrundið upp og inn kemur kona, lörfum klædd með barn í fanginu).

*Konan*

(sér barnsfötin og kallar til Agnesar).

Ríkiskona, miðla mér!

*Agnes*

Móts við þig ég fátæk er.

*Konan*

Líkt og aðrar ertu spör;
aldrei vanta kuldasvör.

*Brandur*

(gengur fram).

Seg, hvað viltu hitta hér?

*Konan*

Ekki þig, fyrst þú ert prestur!
Heldur út, þá er hann verstur,
en að heyra synda-lestur;
heldur beint í hel ég fer,
heldur rotna dauð við sker,
en ég hlusti' á hempu-karlinn,
hann, sem þekkir vítis-pallinn.
Fjandann viltu finna' að mér,
fæ ég gjört að hver ég er?

*Brandur*

(við sjálfan sig).

Hennar vekja hót og mál
hræðslu-grun í minni sál.

*Agnes*

Þýð þig upp ef þér er kalt,
þú og barnið mettast skalt.

*Konan*

Tatara-krói' ei kennir til,
koðnar upp við ljós og yl.
Okkar fólk á heima' á heiðum,
hjarni, skógum, urðum, leiðum;

öll á flótta fæðumst við;
frið og bygðir eigið þið.
Ekki þoli eg þennan stanz,
þeir eru' eftir mér sem vargar,
elta mig, en enginn bjargar.

*Brandur*

Hér þig enginn hreifir.

*Konan*

Hér?
Hérna milli þinna veggja!
Nei, nei, karl minn, nóttin er
notalegri gisting beggja.
Slettið dulu bara' á barnið!
Bróður-mynd hans, elzta skarnið,
sem er fyrir stundu strokinn,
stal þeim lepp, sem hann var í.
Skoðið hér er fönnin fokin,
freðin, rifin, blá og hokin
tusku-skömmin skelfur því.

*Brandur*

Kona, láttu laust þitt barn,
losa það við dauðans hjarn;
lát það signast, lífgast, lyftast,
ljótu brennimarki sviftast.

*Konan*

Þú munt kannske dubba drenginn!
Dásemd slíka megnar enginn,
enda megna enginn *skal*!
Hatur þér! Þið hafið grætt hann.
Heyrðu, seg hvar ég hef fætt hann.
Hérna rétt hjá vegarveitu,

viður söng og drykkju-gal;
skírður er hann upp úr bleytu,
krossaður með koli' úr ösku,
kristnaður með tári' úr flösku,
í því borið barn hann lá
bölvuðu þeir, sem stóðu hjá.
Hverjir þá? Sá fríði fans,
faðirinn og lagsmenn hans!

*Brandur*

Agnes, skoða skyldu þína!

*Agnes*

(með hryllingi).

Skelfing! Henni? Aldrei — mína!

*Konan*

Gef mér, sýn mér! Silkið rautt
sama' er mér og ræsknið snautt.
Ekkert er of ilt né gott
ef það þolir regnsins þvott.
Með sitt bera bak og hupp
bráðum *króinn* veslast upp.

*Brandur*

(til Agnesar).

Heyrðu valið þrumu-þunga!

*Konan*

Þú átt nóg fyrir eiginn unga.
Áttu' ei fyrir börnin mín
dánarhjúp og lífsins lín?

*Brandur*

Hvað mun þýða þessi tunga?
Þrumu-boðskap víst hún hvín!

*Konan*

Gef mér!

*Agnes*

Hróplegt helgirán,
heljar-synd og verra' en smán.

*Brandur*

Helzt til snemma hlaut hann deyð,
hættum við á miðri leið.

*Agnes*
(hikandi).

Hlýða skal, og hjartans rætur
heitar treð ég undir fætur.
Ráð ég á á auði heilum:
Auma kona, tak, við deilum.

*Konan*

Gef mér!

*Brandur*

Agnes, *deila!* Deila?

*Agnes*

Dauðann fyr enn auð minn heila!
Sagt og gjört ég get ei fleira,
gef hið hálfa, þarf hún meira?

*Brandur*

Var hið *heila* hóflaust þá
handa þér, er á því lá?

*Agnes*

Kom og tak þú, kona, þá:
Kápan hans við skírnarsá!
(réttir).
Hér er kjóllinn, kotið, trefjan,
kalt er úti, þú mátt vefja' hann,
hér úr silki saumuð húfa,
sú mun vel að barni hlúa,
fleira, meira fá þú skalt. —

*Konan*

Fá mér!

*Brandur*

Agnes, gafstú *alt*?

*Agnes*

Hérna' er vígður fórnarfeldur
frá því hann var ofurseldur!

*Konan*

Nú er búið, nú er tæmt.
Nú að takast, væri slæmt!
úti skal ég barnið búa,
burt í skyndi síðan snúa.

(fer).

*Agnes*

(stendur þegjandi í stríði við sjálfa sig, segir loks).

Inn mér, Brandur, er það rétt
enn að krefjast fleiri gjafa?

*Brandur*

Seg mér fyrri, fanst þér *létt*
að fylla ógnir þeirra krafa?

*Agnes*

Nei.

*Brandur*

Þá er ei gagn að gjöfum;
Guð er miklu þyngri' í kröfum.

*Agnes*

(kallar á Brand, sem ætlar út).

Brandur!

*Brandur*

Hvað?

*Agnes*

Ég satt ei sagði.

Samvizkan ei lengi þagði.
Ég er unnin; ei þú skalt
ætla það ég gæfi *alt.*

*Brandur*

Svo!

*Agnes*

Já, ei þarf langt að leita.
(tekur samanvafða barnshúfu úr barminum).

*Brandur*

Húfan.

*Agnes*

Vætt í voða-tári,
vökvuð með hans dauðasveita,
geymd á heitu hjartasári!

*Brandur*

Grúfðu þínum goðum hjá.
(ætlar að fara).

*Agnes*

Gakk ei!

*Brandur*

Hvað þá?

*Agnes*

Tak við þá!
(réttir honum húfuna).

*Brandur*

(gengur nær henni og spyr áður en hann tekur við).
Viljugt!

*Agnes*

Já!

*Brandur*

Í hönd mér hér
hún ei enn þá farin er.

*Agnes*

Rænd og flett við rauna-stand,
rofið hinsta jarðar-band!
(stendur grafkyr stundarkorn; smámsaman færist hinn mesti gleðisvipur yfir andlit hennar. Brandur kemur; hún hleypur fagnandi um háls honum og kallar upp).
Nú ég frjáls og alfrjáls er!

*Brandur*

Agnes!

*Agnes*

Myrkrið búið er!
Allar þessar ógnir stóru,
ég sem martröð bera hlaut,
niðr' í svarta sogið fóru;
sigur er á viljans braut!
Nú eru burtu bleikar þokur,
bólstrin svört og veðra-strokur;
gegnum nótt og dauðadoðann
daga sé ég morgunroðann.
Kirkjugarður! Kirkjugarður
kvelur nú ei táraharður,
bitur eigi blóðugt arið;
barnið er til himins farið!

*Brandur*

Agnes, sigursæl ert þú!

*Agnes*

Sannlega unnið hef ég nú,
horfi beint á hel í trú.
Horf þú upp að sólna sól,
sérðu' 'ann Álf við Drottins stól
brosa sætt og blítt sem fyr,
benda oss á lífsins dyr?

Þó ég ótal ætti munna,
og ég margfalt þættist kunna,
engan þeirra' ég opna skyldi
til að kalla' 'ann ofan aptur.
Ó, sá Drottins vísdómskraptur
leið að finna, líkn og mildi!
Fórn míns barns í feigðarnauðum
frelsar mína sál frá dauðum.
Guð sem gaf, og Guð sem svifti,
gegnum freistni' og stríð mér lyfti.
Haf nú þökk að þú mig leiddir,
þú varst trúr og veg minn greiddir.
Þína sá ég sálarkvöl.
Sjálfum þèr nú mætir völ,
nú er kjörið: *Ekkert*, *alt*,
einmitt nú þú velja skalt!

*Brandur*

Viltu' í gátum til mín tala?
Trúðu' á endir stríðs og kvala!

*Agnes*

Gleym þú ekki; heyr, ó heyr:
Hver sem lítur Guð, hann deyr!

*Brandur*
(hopar aftur).

Ógnarljós þú, Agnes, kveykir;
en ég svara: Margfalt nei!
Eru þessir armar veikir?
Agnes, ég þér sleppi ei!
Fari sérhver heilla hagur,
hverfi sérhver lukkudagur,
hverfi alt, en ekki þú!

*Agnes*

Einmitt kjósa skaltu nú.
Slökk þú aftur birtu bjarta,
byrg þú jólaljós míns hjarta;
fáðu töfrafötin mér,
farin burt ei konan er;
og mig reyndu aptur draga
inn í blindni fyrri daga;
sökk mér aptur, sérðu' ei fenið,
sálar minnar dauða-slenið!
Viltu? Þú átt vald á mér,
veik er ég á móti þér.
Stýfðu væng minn, sveltu sál,
set við hæl minn blý og stál;
steyp mér í hinn sama sjó,
sem þín hönd mig upp úr dró.
Viltu' opna voða-dyr?
Vera skal ég þín sem fyr.
Veldu, heitt er viljans bað.

*Brandur*

Vei mér ef ég gjörði það!
Ó, ó, líðum langt á braut,
langt frá okkar stóru þraut,
sæla' og líf hvar saman renna!

*Agnes*

Sérðu ei, þig binda, spenna
kalls og fórnar kraptar hér?
Sagði ei Drottinn sjálfur þér:
Sauði þessa skaltu græða,
hirða, vakta, verma, fræða,
leiða heim í ljóssins stað.

Veldu; heitt er viljans bað!

*Brandur*

Vei, ef ég ei stæðist það!

*Agnes*

(leggur hendur um háls Brandi).

Þökk fyrir alt og einnig þetta,
að mig studdir frá að detta,
Að mér þyngsla-þoka fer,
þú munt vaka yfir mér.

*Brandur*

Vel er unnið; sofðu sætt!

*Agnes*

Svefnhúss-ljósið mitt er glætt.
Dvalarsvefn mig sækir ótt,
sigurinn tók mitt fjör og þrótt.
Brandur, góða, góða nótt!
Guð er hægt að biðja' og lofa.

*Brandur*

Góða nótt.

*Agnes*

Já, góða nótt!
Þökk fyrir *alt*. Nú sætt skal sofa!

(fer).

*Brandur*

(heldur höndum að brjósti sér).

Sól, ver trú, þó sortni gata,
sigursæld er *öllu'* að glata.
Ef þú missir alt, þú vinnur;
eilífðin hið týnda finnur.

---

## Fimti þáttur.

(Hálfu öðru ári síðar. Nýja kirkjan stendur fullgjör og prýdd til vígslu Elfan rennur rétt framhjá henni. Það er snemma morguns og þoka yfir).

*Klukkarinn* er að hengja upp kransa fyrir framan kirkjuna, rétt á eftir kemur *kennarinn.*

*Kennarinn*

Til starfs nú þegar?

*Klukkarinn*

Þess þarf við,
og hjálpið mér; sú fléttings-festi
skal fegra' og prýða gangriðið.

*Kennarinn*

Og eins er fegrað alt hjá presti,
og eitthvert kringlótt boga-snið.

*Klukkarinn*

Jú, víst.

*Kennarinn*

Hvað skal svo prjála' og prýða?

*Klukkarinn*

Nú, prestsins sæmdir skal það þýða,
þær glóa þar með gyltu letri!

*Kennarinn*

Glatt er á voru höfuð-setri!
Úr fjarlægð streymir hingað hjörðin,
og hvítu seglin þekja fjörðinn!

*Klukkarinn*

Já, nú er fjör í fólksins tetri;
í fyrri prestsins sæla tíð
var lítið hér um líf og stríð,
en eilíf værð yfir öllum lýð;
og seg mér, hver mun siður betri?

*Kennarinn*

Jú, það er líf!

*Klukkarinn*

En þér og ég
við þumbum enn hinn gamla veg.
Af hverju? Erum við orðnir linir?

*Kennarinn*

Við unnum meðan sváfu hinir,
en þegar á fætur fóru þeir
framkvæmdar okkar þurfti' ei meir,

*Klukkarinn*

En sælla' er lífið, segið þér.

*Kennarinn*

Og sama meina geistlegheitin,
og sama líka sýnist mér;
þó lízt mér minst, hvort lifnar sveitin,
ég á við landsins heila her.
En alls ei hlusta okkur ber
á óróann og dægur-þjappið.
Við erum hér í embættum
og eigum að sjá við lausungum,
og vernda kirkju' og vísindin,
og vera fyrir utan stappið,
þó hamist bygðar-hringlandinn.

*Klukkarinn*

En presturinn er pottur og panna.

*Kennarinn*

Það á hann einmitt ekki' að vera.
Ég veit, hans yfirmönnum er
ei ýkjavel við starf hans hér,
og ef þeir þyrðu þras að gera
hann þyrfti víst að gá að sér.
En hann er kænn, og sér hvað setur,
og sínum herrum skákað getur.
Hann byggir kirkju. Hvers manns hug
er hérna stolið, sjái' 'ann dug.
*Hvað* unnið er, er öllum sama,
*að* unnið er, — það veitir frama.
Nú vinna eldri' og yngri djarfara,
svo allan lýð má kalla starfara.

*Klukkarinn*

Þér prýdduð fyr vort þjóðar-þing
og þekkið fólkið alt í kring;
en einn, sem hér í sókn er saknað
og sá oss, þá við höfðum vaknað,
„þið voruð fyrri„, sagði' 'ann „sofendur,
en svefninn fór, nú eruð þið lofendur“!

*Kennarinn*

Já, loforðanna lið býr hér,
og lýður, sem ei heitorð vegur;
á skömmum tíma skelfilegur
þjóðvilja-kliður kominn er.

*Klukkarinn*

En eitt mér vita væri kært,
það vítið þér, sem hafið lært:

Hvað eru þjóðheit, þjóðar-vilji?

*Kennarinn*

Það er mér, kæri, varla fært
að þýða fljótt svo fjöldinn skilji.
Jú: Hugsjón sú, er skín svo skært
við skynseminni' að allir stara
á þjóðar-verk, sem fram skal fara
í framtíð lands, þá vel er ært.

*Klukkarinn*

Ég þakka fyrir, þetta skilst;
en þó er nokkuð, sem mér dylst,
— ef snöggvast mætti spurull spyrja.

*Kennarinn*

Já, hvað þá?

*Klukkarinn*

Seg mér, nær skal byrja
það ártal, framtíð?

*Kennarinn*

Framtíð? Svei,
það byrjar aldrei.

*Klukkarinn*

Aldrei?

*Kennarinn*

Nei.
Það áratal við aldrei sjáum,
því öll sú tíð við líta fáum
er *nútíð*, sko, öll framtíð flýr.

*Klukkarinn*

Já, röksemd þessi' er skörp og skýr,
og getur engum vafa valdið.
En nær skal þjóðarheitið haldið?

*Kennarinn*

Hef jeg ei yður fullvel frætt;
í framtíðinni efnt skal heitið,
og forgefins þér lengra leitið

*Klukkarinn*

Og nær kemur hún, og nær er hætt?

*Kennarinn*

(lágt)

Nú stendur klukkan!

(hátt)

Kæri minn
jeg kem yður seint í skilninginn,
um framtíð þarf ei þrefa hér,
því þegar hún kemur, burt hún er.

*Klukkarinn*

Þökk!

*Kennarinn*

Bakvið allan orðaleik
er eitthvað til sem margan sveik
þó ei sé talað undir rós,
en orðin sýnist hrein og ljós
heilvita fólki, hal og drós.
Já, oft er sama, að *lofa* og *ljúga*.
Efndanna' er vant þó heitin hörð —
svo hljóðar orðið,— séu gjörð;
já heitin *geta'* ei haft sér efnd.
sé hugsunarlistin eigi skemmd,
og hafi maður menta-fremd.
En látum nú þann fuglinn fljúga.
En heyrið!

*Klukkarinn*

Þey!

*Kennarinn*

Hvað hljómar?

*Klukkarinn*

Þey!

*Kennarinn*

Mér heyrist leikið — er það ei
á organið?

*Klukkarinn*

Þá er það hann.

*Kennarinn*

Hver, prestur?

*Klukkarinn*

Einmitt.

*Kennariun*

Sá fyrir sann
er snemma þennan dag á ferli.

*Klukkarinu*

Hann hetur ei, ég hygg, í nótt
sitt höfuð hvílt fyrir vöku-erli.

*Kennarinn*

Hvað?

*Klukkarinn*

Að honum gengur eitthvað ljótt,
og síðan konan sæla dó
er sorgar-ormur hann að narta,
þó aldrei gjöri hann um það kvarta,
ei sjaldán finnst og sézt það þó;
af harmi þá hans hjarta er
sem helt sé of fult lagar-ker, —

þá spilar hann. Heyr sorgar són,
hann syngur frúna' í hverjum tón.

*Kennarinn*

Það er sem tveir, er talast við —

*Klukkarinn*

Um trega annar, hinn um frið.

*Kennarinn*

Hm. — Ef að vikna maður mætti'! —

*Klukkarinn*

Og maður hefði' ei em — embætti —

*Kennarinn*

Og sá ei væri saman-reyrður,
í sinnar stéttar dróma keyrður!

*Klukkarinn*

Og maður mætti sýnast sukkari
og svegja bók og penna burt!

*Kennarinn*

Og láta vitið liggja kjurt,
og loga' af tilfinningu, klukkari.

*Klukkarinn*

Æ, látum okkur, vinur, vikna!

*Kennarinn*

Það væri skömm að fara' að stikna
sem hinir, er hver heimskan brennir,
nei, hættum, eins og prestur kennir
að vilja í einu vera tvennir.
Að ætla' að stunda embætti
og undir eins að vera maður,
er óþolandi þvættings-þvaður.
Í fyrirmyndar framferði
ég fer ei lengra', en bendi' á mann,

sem flestir þekkja — fógetann!

*Klukkarinn*

Svo, hann?

*Kennarinn*

Þér munið, húsið brann,
menn hömuðust að ná í skjölin
og heldur reyndi kappa kvölin
að kafa þar við reyk og eld.

*Klukkarinn*

Jú, sei — sei, það var seint um kvöld.

*Kennarinn*

Í svaka-veðri. Þá var ferð
á fógetanum, frægðarverð; —
í logunum Satan sjálfur stóð,
hún sá hann, frúin, rak upp hljóð.
„Æ, hann vill þína hreppa sál!"
hún hrópar upp í Jesú nafni.
Þá gellur rödd sem hljóð úr hrafni:
„Nei, hjálpið þessu skjalasafni,
en fari hún í heljarbál!
Já, þetta er frábær fógeti
og fyrirmynd í embætti!
Sá maður hér í veröld vinnur,
og verðlaun trúrra þjóna finnur,

*Klukkarinn*

Hvar fær hann þau?

*Kennarinn*

Hann fær sinn prís
í fógetanna Paradís.

*Klukkarinn*

Minn lærdómsvin!

*Kennarinn*

Já.

*Klukkarinn*

Alt að einu
í yðar tali hreinu, beinu
mér dylzt ei tímans iðu-ólga,
og ólga nóg er hér um svið,
og einkum þessi kurr og kólga
sem kastar öllum fornum sið,

*Kennarinn*

Því fúna skal ei gefa grið;
hið rotna er hins unga næring
og öldin þjáist hér af tæring;
ef hroðanum upp ei hóstað fær
á hún að setja upp allar tær.
En sízt þarf mikil sjónargler
að sjá að talsverð ölga' er hér.
Þann dag er kirkjan vesla valt,
það var sem henni fylgdi alt,
og alt til foldar félli þá,
sem fólkið bygði líf sitt á.

*Klukkarinn.*

Og flestir eins og féllu' í dofa.
En fyrst þeir æptu: Rífið, rífið!
En þögn kom eftir þrumu-rofa,
sem hræddust menn að missa lífið.
Þeir störðu smeykir, stóðu hremdir,
er byrja skyldi bana-rof
við bygðarinnar forna hof;
og sumir kváðust hræðast hefndir.

*Kennarinn.*

Hinn gamli andi ótal bönd
um allra vafði sál og hönd
á meðan ný og háreist höll
ei helguð yrði, björt og snjöll,
menn velktust bæði' í von og kvíða
og voru að skoða merkin tíða,
og mundu til hins mikla dags
með merkisstöng hins nýja hags,
sem kæmi stór og góður gestur;
en þó er kirkjan stóð með stöng
tók strax að draga' úr vonar söng,
og nú, já, nú er flúinn frestur.

*Klukkarinn.*
(bendir)

Nei, hvaða sægur, heilla vinur
er hingað kominn.

*Kennarinn.*
Þúsundir.

En kyrðin þá!

*Klukkarinn.*
Og þó finnst dynur,
sem þjóti' úr hafi stinnings-byr.

*Kennarinn.*

Já, þjóðar-hjartað hrærist, stynur.
Það er sem gangi gegnum lýðinn
sá grunur nú, að stór sé tíðin;
það er sem hlaupi örvarboð,
að eigi menn að skipta' um goð.
En presturinn? — Mér óglatt er,
ég óska helzt ég væri' ei hér.

*Klukkarinn.*

Ég segi eins.

*Kennarinn.*

Á slíkri stund
vér sjálfra vor ei þekkjum lund;
í hverju djúpi' er dimmra undir,
menn dragast, hopa, rétta mundir.

*Klukkarinn.*

Heyr, vinur!

*Kennarinn.*

Hvað þá?

*Klukkarinn.*

Hm!

*Kennarinn.*

Þér bliknið!

*Klukkarinn.*

Ég held ég tali rétt, þér *viknið!*

*Kennarinn.*

Hver, *ég?* Nei!

*Klukkarinn.*

Varla, — varla *ég.*
En vottorð *eins* eru trúanleg.

*Kennarinn.*

Nei, við erum ei sem landsins lýður,
og lifið heilir! Skólinn bíður.

(fer).

*Klukkarinn.*

Mig dreymdi' um stund sem heimskan hrók,
en hef nú aftur girzt í brók
og stend sem læst og lokuð bók.
Ég starf mitt rek með egg og oddi,

því iðjuleysi' er fjandans koddi.
(fer að hengja upp hinu megin).

(Organið hefur hljómað lágt og þungt meðan þetta samtal stóð, en nú hljómar það hátt og ógurlega, en þagnar snögglega með drynjandi hjáræmi. Að vörmu spori kemur Brandur út úr kirkjunni).

*Brandur*

Nei, mig forðast hljóðið hreina,
hvenær sem ég fer að reyna;
spilið snýst í hvin og óp.
Líkt sem veggir, loft og hvelfing
loki sig með dróma — skelfing
sorgarþungt um sönginn snauða
svo hann verði feigðar-óp
niðri' í kistu násins dauða.
Einn ég stóð sem elding lostinn,
organ mitt var tóna-laust;
beindi minni bænar-raust;
en hún rumdi röng og brostin,
og sem klukka rifnuð rymur
raddar minnar hási ymur
aftur gegnum brjóst mitt brausts.
Og mér sýndist herrann hár
horfa til mín inst úr kórnum,
benda móti bænarfórnum,
benda fram með reiðar brár!
Byggja vildi' ég herrans hús,
hugur minn var stór og fús;
alt ég reif að rauðri jörðu,
ruddist um með kappi hörðu; —
nú má unnið afrek sjá.
Allir hrópa: Lítið á!

Kirkjan stendur stór og há!
Skal ég hana' ei megna' að meta?
Munu þeir það betur geta?
Er hún stór? Mun þetta þak
þá svo hátt og rúmt sem skyldi,
eða' er kirkjan endurtak
andans, sem ég rúma vildi?
Er það kórinn herrans hár,
sem ég forðum sá í anda, —
svo mér hrundu gleðitár —
hvelfast yfir lýgi landa? —
Hm, ef Agnes hefði lifað,
hefði annað verið skrifað;
stórt í litlu sú oft sá,
sálarstríði bægði frá
himinn jörð, við hennar leik,
hneigði sig, sem krónan eik

(lítur á fyrirbúnaðinn til vígslunnar)

Blómstur-sveigar, blæja á stöng,
börnin læra vígslu-söng;
alt mitt hús er fólki fylt;
flokkar koma til að sjá mig;
nafn mitt þarna glóir gylt.
Ó, Guð, styrk þú — eða slá mig
auman maðkinn, sem þú vilt!
Sjá, nú byrjar bráðum lestin,
börn og vaxnir spyrja' um prestinn,
prest þeir bera' í munni' og minni.
Ó, ég þekki þeirra leið,
þeirra orð mér fyrri sveið;
þeirra dýrðar guðlaust gal

gnagar mig sem bruna-kal,
Ó, ef einhver kenna kynni
sér að gleyma, sál að hylja
djúpt í fylgsnum glúfra-gilja!

*Fógetinn*
(kemur skrýddur embættisskrúða og með miklu gleðibragði)

Loks heimtum vér þann háa dag,
þá herrans hvíld að liðnum sex; —
nú merkið upp, því vegsemd vex
með von og gleði friðarhags;
og sigur krýnir sannleiks vott,
því sjáum, alt er harla gott.
Þér, mikli maður, hæfir hrós,
þinn heiður berst til lands og sjós!
Til lukku! Ég er hrifinn, hrærður,
og hjartanlega líka glaður.
En þér?

*Brandur*
Með strengja-svipum særður

*Fógetinn*
Nei, segið ekki þetta, maður!
Nú fáið þér að stíga' í stólinn
og stíla textann yðar hjörð
og hljóðahvell er kirkjan gjörð,
af hennar lofgjörð sortnar sólin.

*Brandur*
Svo?

*Fógetinn*
Sjálfan herra prófastinn
með undrum bifar byggingin.

Hve alt er hátt og bogum bundið,
og bjargfast, og svo þessi kór —

*Brandur*

Hvað hafið þér svo frábært fundið?

*Fógetinn*

Hvað, fundið?

*Brandur*

Að hún sýnist stór?

*Fógetinn*

Nei, ekki *sýnist*, að hún er
eins álengdar sem nærri mér.

*Brandur*

Á, *er* hún það, eins kirkja' og kór?

*Fógetinn*

Já, kirkjan, svei mér, hún er stór,
og of stór hér á yztu ströndum,
í öðrum, veit ég, finnast löndum
stórsmíði' miklu meiri' en hér,
hjá mönnum, þeim er bjarga sér
á hraunströnd milli hafs og urðar, —
en hún er stór svo alla furðar.

*Brandur*

Já, víst er *svo*, og við höfum gefið
og víxlað lýgi, — fengið nýja. —

*Fógetinn*

Hvað nú?

*Brandur*

Og flúið heiðrið hlýja,
og hafið tízku-stöng til skýja.
Ó, hversu fornhelg! Gall fyr gígja,
nú gnýr í björgum: Hversu stór!
Svo hár er enginn kirkju-kór!

*Fógetinn*

Nei, vinur kær, þá vil ég segja,
þeim væri skammarnær að þegja,
sem þætti kirkjan lítil, lág.

*Brandur*

Ég segi enn sem áður: Smá!
Sem allir þeir, sem vilja, sjá
og ekki hafa lært að ljúga.

*Fógetinn*

Nei, látið slíkar grillur fljúga!
Er nokkur til sem níðir þvert
það niður sem hann hefur gert?
Fólk er þó ánægt, allir segja,
að aldrei hafi fyrri sézt
slík afbragðs-bygging eftir prest.
Æ, látið ei það loforð þeygja!
Hví skyldum vér þá græta garma
og gefa þeim bæði ljós og varma,
ef enginn hirðir um það nú?
Er alt ei bygt á mannsins trú?
Það kærist ekki korn né lús
þótt kirkjan væri svínahús
ef sérhver hugsar hjarta-rór
að hún sé ákaflega stór.

*Brandur*

Í öllum sökum sama kenning!

*Fógetinn*

Og svo er hátíð hér í dag
og hver einn gestur víst með lag.
Því lýsti það ei mannúð, menning,
að minka fólksins gleðibrag.

En einkum fyrir yðar sök
væri' ótækt fát — ég segi' ei meira —
að stækka þessa stórleiks vök.

*Brandur*

Af hverri sök?

*Fógetinn*

Þér fréttið fleira!
Því fyrst hefur nefndin það í ráði
að senda yðar silfur-staup, —
en utanáskriftin yrði raup
ef yðar verk er gjört að háði,
og kvæði' er yðar kveðið til
og kapítula ég halda vil,
en hvorutveggja yrði öfugt
ef ekki þætti verkið göfugt.
Því lægið segl og lundu þvera
og látið ei á neinu bera.

*Brandur*

Ég hræddist fyr þann héraðsdóm,
sú hátíð verður lýgin tóm!

*Fógetinn*

Í guða-bænum, góði vin!
Við gífuryrði slík ég styn.
Að fást um smekk er frágangs-sök;
ég fram kem nú með önnur rök:
Á eftir silfri glóir gull,
og gæfan býður rembings-koss!
og náðartunglin fleyti full:
Þér fáið, skjótt að segja, kross.
Í dag svo verði lýðum ljóst
hann leyptra skal við yðar brjóst.

*Brandur*

Mig þreytir kross, og þyngra hnoss,
en þennan snúa heim ég bið.

*Fógetinn*

Þér komist ei né kippist við
af kóngsins gjöf og stöku náð?
Nú skil ég engin sköpuð ráð;
nei, skiftið fljótt um þennan róm.

*Brandur*

(stappar niður fótunum)

Það hjal er bull og heimska tóm,
þér hafið ei skilið minnsta gróm
af því sem innst í önd mér brann,
því aldrei meinti' ég stórleik þann,
sem mældur er og metinn fetum;
ég meinti þann, sem andann vekur
svo hrífumst vér og hitnað getum
svo hlusti bæði frjáls og sekur;
þann stórleik, sem um stirnda nótt —
En sleppið mér, — ég hef ei þrótt, —
þér getið öðrum sýnt og sannað —
(fer upp að kirkjunni).

*Fógetinn*

Nei, svei mér geti' ég skilið annað
en þetta alt sé þvaður bannað.
Þann stórleik, sem ei sezt í fetum —
hann segir, — að vér hitnað getum,
og stirnda nótt? Það nefndi' 'ann orðið. —
Neytir hann víns við morgunborðið?
(fer).

*Brandur*
(kemur aftur)

Svo aleinn, aleinn upp á fjöllum
ég aldrei nokkru sinni var,
því eintómt dverga- og drauga-svar
hér dunar, sem úr hamrastöllum.
(sér hvar fógetinn gengur)
Þann mann ég vildi merja' und hæl!
því hvert sinn ég úr dauðans dýi
vil draga menn frá skömm og lýgi,
þá byrjar hann sitt höggormsvæl
og fnæsir sálar-fúa lýgi!
Agnes, þú varst alt of veik!
Ég örmagnast við þennan leik,
þar fæst ei frægð né frami neinn —
feigur er hver, sem stríðir einn!

*Prófasturinn*
(kemur)

Þið börnin mín og blessuð hjörð!
Nei, bróðir kæri! Hátíðin, —
og ræðan heillar huga minn;
já, hún sér víst á heilann slær,
því hana lærði' ég fyrst í gær.
Ég sleppi því, en þakkir sel,
þér hafið ísinn brotið vel,
og hirt ei neitt um nöldurs él,
og niðurrifið fornt og fánýtt
en fólki gefið stórt og spánýtt!

*Brandur*

Það vantar mikið.

*Prófasturinn*

Viti menn,

að vígslan sjálf er eftir enn.

*Brandur*

Ef vel bygt hús á vel að standa
þá vantar þvott og hreinsun anda.

*Prófasturinn*

Það leiðir beint af sjálfu sér,
svo sólbjart hús sem kirkjan er
með kórsins bláa, háa hvel,
þá hlýtur fólk að þvo sér vel.
Og svo við hvolfsins hvella óm,
sem hækkar tvöfalt prestsins róm,
víst hundraðfaldast hlýtur nú
að hyggju minni hvers eins trú.
Svo stórfeld áhrif eru það,
sem enda vart í höfuðstað
eru' altíð, svo sem Engla' og Frakka.
Og alt er yður þetta' að þakka,
því býð ég yður, bróðir kæri,
þær beztu þakkir, seinna' í dag
við borðið verður betra færi
að þilja yðar þakkarbrag,
sem þeir, sem yngri eru, læri. —
Mér sýnist yðar ásýnd föl? —

*Brandur.*

Já, orðin föl af raun og kvöl.

*Prófasturinn*

Ég skil það vel, er einn skal iðja,
og enginn til að hjálpa' og styðja.
En búið er að vinna' hið versta,
og við oss brosir hátíð mesta.
Nei, verið kátir, vel fer það!

öll veröldin hér strymir að
úr öllum áttum; hressið hug;
það hefur enginn mælsku-flug
til jafns við yður, — eða hvað?
Grann-prestar yðar opna arma,
og yðar hjörð ber vota hvarma,
alt býður þökk með virkt og varma'.
Og verkið, — þetta vildar-smíði!
og viðhöfnin og öll sú prýði!
og textinn líf og ljóssins orð,
og loks það mikla dýrðarborð.
Ég horfði' á kálf við húsgaflinn,
og hreint varð ég sem gagntekinn!
Það hefur kostað þraut og stríð
uns þvílíkt metfè yrði fundið,
og það á harðri hungurstíð
þá hér er ríkisdalur pundið!
Nú þar um ekki tala' eg tíðara,
að tala' um annað ferð var heitið.

*Brandur*

Já, talið, skerið, rífið, reitið!

*Prófasturinn*

Nei, optast tek ég tökum þýðara.
En fljótt, ég kýs ei færið síðara.
Um eitt ég get ei á mér setið, —
og óðar en það mál ég nefni,
ég veit þér hafið hitt og getið
á hvað ég, séra Brandur, stefni.
Þér skiljið, það er mín skyldu-vinna
að skoða breytni presta minna.
Þér litla rækt opt leggið við

landsvenjur hér og fornan sið;
en venjan er þó víst hið næsta,
ég vil ei segja: Allra stærsta.
Nei, bezti vin, ég brixla ekki; —
þér, bróðir, ungur, staðan ný,
þér komuð hér úr höfuðbý
og höfðuð skygnst hér lítt um bekki.
En nú er, vinur, meir en mál
að milda' og laga þetta brjál.
Þér hafið of mjög hingað til
gert hverjum einum prestleg skil,
en vega' ei alla' í einu lagi,
er ætíð synd af versta tagi.
Nei, eitt skal yfir alla ganga,
og óðar hverfur stefnan ranga.

*Brandur*

Útlistið betur!

*Prófasturinn*

Bezta kirkja
er bygð af yður til að styrkja
hér Guðsorð. Hún er gróðrarsvið
og girðing kringum lögmálið.
En stjórnin hefur helga trú
til halds og trausts sem lífsins brú,
og verndar hennar stöðu' og stétt
svo styðji' hún aptur lög og rétt.
En stjórnin á ei rentu ráð
og reiknings krefst fyrir sína náð.
Þeir kristnu jafnan kunna' að hlýða.
Því ætlið ei hún ausi út fé
þótt annarsvegar Drottinn sé,

ef hún á launalaust að stríða.
Nei, henni' er gatan glögg og kunn,
og gæfa hvers manns yrði þunn,
ef stjórnin væri' ei vörn og hlíf,
og verndaði' að eins þetta líf.
En þetta hennar mark og mið
er menn, sem okkur, bundið við,
embættislýðinn, okkur presta!

*Brandur*

Hvert orð er vizka! Meira!

*Prófasturinn*

Fresta
ég vil ei því sem eptir er.
Það orðsins hús, sem gáfuð þér,
ég treysti nú að ei þér efið,
sé einnig þessu ríki gefið.
Í þeirri trú ég held þá hátíð,
sem halda skal og víst er fátíð.
Í þeirri trú skal klukkum klingja,
og kirkjugjafar-ljóðin syngja.
Ég veit með gjöf þèr hlýðni heitið
og hugsið betur um hvað þér veitið.

*Brandur*

Það hef ég aldrei, aldrei meint!

*Prófasturinn*

Sú athugun kom, vinur, seint.

*Brandur*

Hvað seint? Hvað seint? Við sjáum það!

*Prófasturinn*

Nei, segið ei meir, og brosum að!
Hvað *er* það, sem *þér* eptir þreytið?

Hvað *er* það, sem þér lofið, heitið?
Þér getið umvent öllum heim,
og eflt og stoðað líka ríkið,
og þannig herrum þjónað tveim,
ef þreki, viti' og greind ei flíkið.
Þér messið ei fyrir einn og einn,
að ekki hrasi Páll og Steinn;
þér messið, svo að sóknin öll
um síðir nái dýrðarhöll;
en hjálpist sóknin, sjálfsagt er
að sérhver einn til Drottins fer.
Nú, ríkið er í eðli sjálfu
alþýðu-veldi rétt að hálfu,
það hafnar frelsi og hatast við,
en hefur jöfnuð fyrir mið;
en jöfnuður kemst aldrei á
ef ójöfnuður drottna má,
og einmitt *hann* þér alið hér,
og aukið stórum, því er ver,
sem fyrri hvergi hreifði sér.
Hver maður fyr hét meðlimur,
nú möglar hver sem einráður,
en ríkinu er það engin bót.
Af einmitt þeirri sprettur rót
hve illa fer með eignarskattinn
og allar skyldu-kvaðir samt,
að kirkjan látið hefur hattinn,
er höfðum allra sómdi jafnt.

*Brandur*

Þar opnast mikil útsjón, ó!

*Prófasturinn*

Nei, sæðrist ei, það bætir lítið,
þó víst sé orðið verra' en skrítið
óaldartrufl, sem út á sjó.
En til er von og til er líf.
Sú tignar-gjöf sé ríkishlíf,
já, rakleitt yðar rausnar-kirkja
skal ríkisgarðinn vakta' og yrkja.
Í reglu hvað eitt hafa skal,
svo haldi saman krapta-val
og sundrist ei með ringli' og róli,
né höfð sé frekju hrossabeit
í helgrar venju töðureit.
Til eru lög í efnum öllum,
þótt ýmsum nöfnum vér þau köllum.
Í konst og list það kallast *skóli;*
í her, þó mér sé miður tamt
það mál, er sagt: *að stíga jafnt.*
Já, einmitt þetta orð á við
um alla stjórn og hennar mið.
Að *stökkva* bannar stjórnin hreint,
að *stíga í sporum* finst of seint.
Nei, ganga jafnt og ganga beint
svo gjörvöll sporin heyrist senn,
sjá, það er vandinn, viti menn.

*Brandur*

Jú, fyrir erni — forardýið;
og fyrir gæsir — svimhátt skýið!

*Prófasturinn*

Nei, Guð hefur oss ei gjört að dýri.
En gott, þér viljið æfintýri,

sem eitthvað betur orð mín skýri;
og biblían er bókin þá,
sem beztu dæmin gefa má
frá fyrstu bók, frá Adam, Abel,
að opinberun postulans;
og tökum snöggvast turninn Babel.
Nú, hvernig fór fyrir fólki hans?
Hið tekna ráð því reyndist verra,
er ruglast fóru tungurnar,
hver vildi annan ofan þar,
í einu orði: Heita herra.
Ég trúi hér sé tvennslags kjarni,
og tel það fyrst, að hverju barni
er sýnt, að aleinn sigri' ei neinn,
og sá sé frá, sem berjist einn.
Og hvern þann mann vill herrann slá,
sem hugsar: Einn ég standast má.
Og Rómverjinn svo ríkt kvað að,
að rænuleysi' hann nefndi það.
Hvorttveggja einmitt á sér stað.
Hinn staki von sér ætíð á
þau afdrif sömu loks að fá,
sem yfirféllu Úríá.

*Brandur*

Ef til vill svo, en ei er alt
á enda þó vort líf sè valt.
Þér hyggið þá að þetta lið,
sem þreyta vildi Drottinn við,
það hefði brotið himininn
hefði' ekki komið sundrungin?

*Prófasturinn*

Nei, hvað þá! Hér er höfuðmál,
að himins til nær engin sál.
Og hér ég tek þann hálfa kjarna
úr hinni fornu Babels-sögn:
Það bresta ráð og bila gögn
ef bygging vor skal ná til stjarna.

*Brandur*

Svo hátt komst Jakobs himinstigi,
svo hátt er kent að sálin flýi. —

*Prófasturinn*

Á þann hátt! Hjálpi' oss herrann! Hvað!
Ég hugði sízt að rengja það.
Himininn er vort hnoss og laun
þá hér er unnin trúar-raun.
En blinduð verður breytni sú,
sem blandar saman lífi' og trú.
Sex daga skaltu verk þitt vinna,
en vikunnar fyrsta svölun finna.
Ef væri hringt hvern virkan dag,
þá vendust menn af helgibrag,
og drjúgast orðsins verður valdið
ef vitið temprar bænahaldið.
Í helgri trú, sem hverjum leik
skal hugurinn aldrei vaða reyk.
Af stólnum er það sjálfsagt synd
að sjá ei lífsins fyrirmynd;
en hún skal fylgja hempukjólnum
þá hringt er út, og þér úr stólnum.
Í öllu drottna leyni-lög,
þau lög sem heimta takmark sett.

Mín löngun var að leggja drög
að laga mættuð breytni rétt.

*Brandur*

Þeir mörgu ríkis sálna-sjóðir
ei sæma mér, þótt kallist góðir.

*Prófasturinn*

Þá sæmir yður samt að fylla;
en satt er það, að yðar hylla
er alt of lág.

*Brandur*

Fæst fremd með því
að falla dýpra sorpið í?

*Prófasturinn*

Nei hver, sig lækkar, hann skal hefjast,
og, hver sig stærir, niðurkefjast.

*Brandur*

En mun ei bezt að maður deyðist?

*Prófasturinn*

Nei, mikil ósköp! Hugsið þér
ég vilji það?

*Brandur*

Svo virðist mér
að fari bezt, að blóðið eyðist;
því ykkar horuð hálflífs-mynd
ei heimtar nema beinagrind.

*Prófasturinn*

Nei, Kristur veit ég krefst ei blóðs
úr ketti, og yðar miklu síður,
en hélt það væri víst til góðs
ef vissuð þér hver frami fríður,
ef fetið þér í mín spor, bíður.

*Brandur*

Og hvað er það þið heimtið, hrifið?
— að fyrir ríkis vísdóms-vind
ég varpi þeirri fyrirmynd,
sem ég hef helgað hug og lífið?

*Prófasturinn*

Þér varpið burt? Hver býður það?
Ég bendi' á veginn, hyggið að.
Mitt ráð er að þér rennið niður
því rugli', er skaðar fólk og yður.
Nú, haldið í það, ef þér viljið,
en ofurvel það fyrir þiljið;
já, ærslist, fljúgið, ærist hreint,
ef aðrir það ei sjá né vita.
En sá fær eitt sinn raunir reynt,
sem ráðlaust fer og einn vill strita.

*Brandur*

Já, ótti og hagur eflir verkið.
Á enni þér er Kains merkið,
sem hrópar: Þú þig heimi gafst,
og hjartans góða Abel drapst!

*Prófasturinn*
(lágt).

Nú segir hann, trúi' ég, „þér" og „þú",
nei, það má ekki!

(hátt).

Ég vil nú
ei lengja framar þetta þref,
en það er víst, sem sagt ég hef,
að yður gleyma aldrei hlýðir,
hvers æskir land og fólk og tíð;

því aldrei sigrar hetja' í hríð,
við hlið hans ef ei tíðin stríðir.
Já, skoðið skáldin, lista-lýðinn,
er lögmál þeirra' ei skyldan, tíðin?
Og hermenn vora! Hvestan brand
þeir hylja líkt og töfragand.
Af hverju? Því á hvora hlið
þeir horfa' á landsins þörf og sið.
Sinn sérgæðing skal sérhver temja
og sína kappgirnd ávalt hemja,
en eptir fjöldans sið sig semja.
Mannúðarfull og mild er tíðin —
svo mælir einatt fógetinn; —
þér þyrftuð ei að auka stríðin,
þér ættuð vissan sigurinn.
En hornin verða fyrst að fjúka,
og fornar værur burt að strjúka;
þér vera hljótið eins og aðrir,
og eiga' og nota sömu fjaðrir,
ef vel skal happa-verki ljúka.

*Brandur*

Burt héðan, óðara!

*Prófasturinn*

Einmitt það!
Þér eigið að vera' á betri stað.
En til bess yður vegni vel,
sem víst og sjálfsagt mál ég tel
að gá að Guði', að gleyma' ei því
að ganga tímans fötum í.
Hver kennir alla konst í her?

Sá korpóral[1], sem liðsmenn ber.
Og hann í fyllstu forustu' er
oss fyrirmynd á landi hér.
Sem korpóralinn kallar sína
til kirkjugangs í fastri röð,
eins skal ég líka leiða mína
um lífs og sáluhjálpar tröð.
Alt er sem rakið: Undir trú
er yfirvaldsins hellubrú,
en því sem er á bjargi bygt
má blindur maður fylgja trygt;
en hvernig kenna kristni skal,
það kenna lög og ritúal.
Svo, bróðir góður, óttist eigi,
en athugið hvað sé í vegi,
svo ganga alt að óskum megi!
Í kirkjunni skal ég reyna róminn,
hvort rödd mín fellir sig við hljóminn.
Því ei eru hvolfin ómgefandi
í öllum kirkjum hér í landi.
Far vel. Minn texti, trúi' ég, er
um tvöfalt eðli vort og stríð,
og Guðsmynd þá sem gjarnast fer
sinn gamla veg. En nú er tíð
að maður hressing sæki sér.

(fer).

*Brandur*

(stendur sem steini lostinn).

Alt, alt ég hefi ofurselt
að efla Guðs dýrð, sem ég hélt,

---

1) heræfingakennari.

svo heyri' eg tímans hróp og glaum
og hrekk nú upp við illan draum.
Nei, kveðið enn þau kyngis-ljóð!
Sjá, kirkja þessi drakk mitt blóð;
mitt líf, mín sól þar sökk í dá;
sálina skulu þeir ei fá!
Ó, voða-þraut, að vera einn
og vonarlaus í hinstu nauð!
Í hönd er lagður harður steinn
er hungursneyðin kallar: brauð!
Hve rétt, hve voða-satt hann sagði,
og samt þau ráð, sem djöfull lagði.
Mig vantar ljós á voða-stig.
Ó, vei, Guðs ljós flýr ávalt mig!
Ó, kæmi *einn*, ó kæmi' hann nú,
með kærleik Guðs og frið og trú!
(Einar kemur; hann er fölur og magur, sjúkur á svip; hann er dökkklæddur. Brandur kallar).
Hver? Einar!

*Einar*

Það er enn mitt heiti.

*Brandur*

Ég stóð og þráði einhvern einn,
sem ekki væri kaldur steinn.
Æ kom, svo ég ei lengra leiti,
og fá þér höfn við hjarta mitt!
(vill faðma hann).

*Einar*

Ég er í höfn.

*Brandur*

Þú enn manst hitt,
sem okkur bar í milli?

*Einar*

Nei:
ég veit nú betur. Varst þú ei
Guðs valið ker, sem til hann fékk
að benda mér þá blindur gekk?

*Brandur*

(forviða).

Nei, hverskyns mál?

*Einar*

Já, hverskyns mál!
Það lærir mannsins seka sál,
þá syndarinnar frí við drunga,
hún vaknar loks til lífsins unga.

*Brandur*

Mig undrar slíkt. Èg hafði heyrt,
þú hefðir gengið aðra vegi.

*Einar*

Já, drambið hug minn hafði reyrt
við heimsins glaum og syndakæti.
En alt það guðlaust eptirlæti,
íþróttir, söngur, það var eigi
annað en Satans svikamöskvar
og sálarháski', er mér nú blöskrar.
En lof sé þeim sem létti nauð
og loksins fann sinn týnda sauð;
í hæstri neyð kom hann til mín.

*Brandur*

Og hjálpaði? Hvernig?

*Einar*

Ég varð svín!

*Brandur*

Hvað?

*Einar*

Í drabb og dufl og vín
mig dró og leiddi náðin sterk.

*Brandur*

Er *þetta* herrans hjálparverk?

*Einar*

Já, fyrst til að salta sálina,
en svo tók Drottinn heilsuna.
Þau listahljóð, sem hafði ég,
og holdsins lyst, fór sama veg.
Jú, þá var genginn gleði-hugur
því Guð minn veit það almáttugur,
ég sá oft ekkert utan flugur.
Loks batnar mér það böl og fár,
og bind nú lag við systur þrjár,
sem helga Guði öll sín ár.
Og loks tókst þeim með kunnum klerki
að koma mér undan fjandans merki,
míns spilta holds að greiða garn
og gera mig aptur Drottins barn.

*Brandur*

Nú, svo?

*Einar*

Já mörg er manna leiðin,
og mista' gatan, dældin — heiðin.

*Brandur*

Og svo?

*Einar*

Já, svo sem margir muna

ég messa tók um ofdrykkjuna.
En þar er freistni' í för með vanda
og fall og hrösun allra handa.
Sem kristniboði kem ég núna,
að kenna Hala-negrum trúna,
og því er bezt við hættum hér,
ég hraða verð.

*Brandur*

Nei, tef hjá mér,
því hátið oss nú halda ber.

*Einar*

Nei, sálarlandið svarta kallar.
mín sókn er þar.

*Brandur*

Og raddir allar
í brjósti þínu þegja nú?

*Einar*

Um hvað?

*Brandur*

Um hana, er þektir þú;
en þinni breyting tryði sízt.

*Einar*

Nú grunar mig. Þú meinar víst
hvort muni' eg þessa kvennmannsnipt,
sem ginti mig í girndar nót,
þá götu lífs ég sinti' ei hót.
Já, hvernig líður hennar hag?

*Brandur*

Við urðum árið eptir gipt.

*Einar*

Það engu skiptir. Þvílíkt rag

ég gef ei um, þótt giptur sért,
en grein mér það, sem meir er vert.

*Brandur*

Mitt hjónaband varð heilög ró
í hrygð og gleði. Barnið dó —

*Einar*

Það skiptir engu.

*Brandur*

Segjum svo;
þá sýnt er oss í heima tvo,
vér hljótum aptur herrans gjafir.
En svo fór hún í sama stað,
þú sérð þar inni beggja grafir!

*Einar*

Það skiptir engu!

*Brandur*

Ekki það?

*Einar*

Um aðra skýrslu þig ég bað;
ég hitt vil frétta: *Hvernig* dó hún?

*Brandur*

Á móti lífsins ljósi hló hún,
með hjartans dýra helgi-sjóð,
og hetja fram á dauðans slóð;
með þökk fyrir lán og lífsins gjöf
hún lagðist rótt í sína gröf.

*Einar*

Alt slíkt er helbert hjóm og villa;
Var hennar trú ei takmörkuð?

*Brandur*

Hún trúði fast.

*Einar*
Á hvern?
*Brandur*
Á Guð.
*Einar*
Á föðurinn einn! Þá fór hún illa!
*Brandur*
Hvað fleyprar þú?
*Einar*
Ég segi satt.
*Brandur*
Far, Satan —
*Einar*
Já ,og alt eins flatt
fer þú, og bálið bölvunar
mun brenna þig til eilífðar!
*Brandur*
Þú vísar leið á vítis bál,
sem varst fyrir skemstu fallin sál.
*Einar*
Nú stend ég laus við lýti' og prett,
ég laugaðist við náðar-skvett;
þú sérð ei minsta svartan blett
er syndin hafði á mig slett.
Því upp úr keri iðrunar
og andans lút ég dreginn var
sem hvítur sloppur helgunar
af hreinsun bænarsápunnar.
*Brandur*
Svei!

*Einar*

Svei, þér leggur svæla frá!
Ég sé þar glöggt á fjandans horn.
Ég, — ég er herrans hveitikorn,
þú hismið dómsins reku á!
(fer).

*Brandur*

(horfir um stund á eftir honum; alt í einu með léttara yfirbragði)

Þar kom sá ég þurfti' að sjá,
þá eru allar lokur frá.
Ei er ég þó einn í verki. —
Upp, og fram með Drottins merki!

*Fógetinn*

(kemur hlaupandi)

Helgigangan hafin er,
heilla-prestur komið þér;
yður fyrstum fara ber.

*Brandur*

Fari hinir fyrst.

*Fógetinn*

Án yðar?
Flýtið yðar heim án biðar.
Fólkinu eftir yður lengist,
alt í kringum garðinn þrengist;
eins og hlaupi á á vori,
æpir hátt í hverju spori
að það vilji yður sjá.
Heyr! Á prest þeir hrópa og kalla;
hlaupið fyrir muni alla,
annars þeir sig óða tjá.

*Brandur*

Aldrei skal ég yður fylgja,
eigi lengur þar um dylgja;
nem staðar!

*Fógetinn*

Eruð þér ær og sljór?

*Brandur*

Yðar vegur, sá er mjór!

*Fógetinn*

Síðar mjórri, svo sem lengra
sækir fólk og gjörir þrengra.
Sjá, þeir ryðjast, pressa, pynda
prófast, klerka, öllu hrinda.
Komið heilla-kæri vin,
komið nú með boðorðin.
Grindin dettur! Göngin bresta!
Gangan verður hneyxli mesta!

(Fólkið riðlast yfir göng og grindur að kirkjunni)

*Einstakar raddir*

Prestur!

*Aðrir*

(Benda á kirkjutröppurnar þar sem Brandur er)

Hérna!

*Enn aðrir*

Hefjið göngu!

*Prófasturinn*

(til fógetans)

Heftið þá með boði ströngu!

*Fógetinn*

Nei, nei, þeir mér ansa aungu!

*Kennarinn*
(til Brands)

Talið, talið fró og frið;
fólkið þolir enga bið!
Er það ljótt, eða' er það spil?
Er það gott sem stendur til?

*Brandur*

Þá er einhver hugar-hræring
hér á ferð, sem þráir næring.
Nú er val og vegamót:
Veljið nýtt af hjartans rót;
fúið *alt* skal ofan í grjót!
Þá er nýja kirkjan kær
komín, algjör, stór og skær!

*Embættismenn*

Hann er galinn!

*Prestar*

Hann er ær!

*Brandur*

Óður var ég að ég skyldi
ætla' að slíkur lýður fylgdi
sannleiks Guði, sannri trú.
Óður var ég, hálfvolg hjú,
hélt að Drottinn ykkur vildi!
Gamla kirkjan ljót og lág
leizt mér bæði þröng og smá.
Hún skal tvöföld hugði' ég þá,
hún skal fimmföld, — látum sjá!
Ó, mitt ráð, að vanda valt,
von mín sveik, það gilti *alt!*
Miðja vegu hefi ég hrasað:

Herrans lúður gellur hvelt;
sjá, mitt hús hann hefur felt.
Ó, að hafa runnið, rasað.
Davíð fyrir dómi Natans
drúpi ég af blygðun lágt. —
Efi brott! Ég hrópa hátt:
*Miðja leið*, er máltak Satans!

*Múgurinn*
(sem sæist meir og meir)

Burtu, sá oss blindað hefur,
blóð og merg oss tekið frá.

*Brandur*

Hann, sem ykkar blindar brá
bak við ykkar hjarta sefur.
Þið hafið orku eytt og spent,
ykkur sjálfum skift í tvent,
því er harður hjartans dómur,
hugur ykkar reykull, tómur.
Hvað fær ykkur kirkjan kent?
Ykkur dregur dýrð og hljómur,
dunur söngs og klukkna rómur,
löngun sú, að hjörtun hrærð
heyra mætti snildarmærð
þá er sitlar, síðan hrynur,
syngur, hvíslar, þrumar, stynur,
eins og mælsku mentin kann.

*Prófasturinn*
(lágt)

Mundi' hann sneiða fógetann?

*Fógetinn*
(eins)

Prófastinn þar pikkar hann.

*Brandur*

Ljómann, skrúðann, ljósin há,
lit og skurn þið viljið sjá;
síðan sljóir heim þið hverfið,
heim í vana-þrældóms erfið;
sálin hjúpast hversdags-brók,
himnaríkis lokuð bók,
handa næstu helgi' og Drottni
hvílir geymd á sálarbotni.
Öðruvísi' ég dreymdi og dæmdi,
drykkinn beiska þá ég tæmdi!
Kirkju vildi' ég bjarta byggja,
bogar hennar áttu' að skyggja
yfir meiri en orð og kenning,
yfir allt, sem guðleg þrenning
heitir blessun, heitir menning;
yfir hversdags hark og glaum,
hvíld og vöku, starf og draum,
angur, gleði, æsku, fjör,
elli manns og gjörvöll kjör.
Elfan, sem hér fram hjá fellur,
fossinn, sem af bjargi svellur,
fjallastormsins hvin og hljómur,
hafsins þungi jötunrómur, —
fylla skyldi organs-óðinn,
andans söngva, barna hljóðin,
vöggu-kvæði, ljúflingsljóðin.
Hrynji þessi hái kór!
Hann varð að eins lýgi stór,
ykkur kjörin fúa-flík,
tjötursvilja ykkar lík,

Hverja rót þið sálu sviftið,
sundur rögg og kröftum skiftið,
daga sex í syndaverki
sett er niður Drottins merki;
sjöunda við sálma-söng
sézt það blakta' á hárri stöng!

*Raddir meðal mannfjöldans*

Stýr oss! Nærri stormur gnýr!
Stýr oss! Sjá hvort lið þitt flýr!

*Prófasturinn*

Þey! Hann hefur ei hreina trú,
hæfilega kristnum presti

*Brandur*

Þar er réttum beinst að bresti; —
báðir þökkum, ég og þú!
Trúin er ei tveggja handa,
trúin býr í hreinum anda.
Sýn mér einn með anda' og sál,
einn, sem ekki hefur hafnað
hnossi' og síðan niður drafnað
holdsins þræll við hik og prjál.
Fyrst við blóðsins galdra-glaum,
gýgjar-saung og heimskuflaum
eyðist ykkar afl og gleði,
og svo loks með köldu geði
dansið þið með dauðamörk
Drottins fyrir sáttmálsörk!
Eftir drukkinn dreggja-bikar
dáðlaust gauðið aldrei hikar, —
þá er tími fram að falla,
fara' að trúa, biðja, kalla.

Meðan lífsins lán ei flýr,
lifið þið sem tvífætt dýr, —
flýið, þegar dimma dagar
Drottins til sem hreppsómagar!
Hæfir Drottni heims og þjóða
húsgangs-ýlfur karar-slóða?
Hrópar hann ei hátt og snjalt:
Hjartans auð þú fórna skalt!
Eins og barn þú inngang vinnur,
engin svik þar dulizt fá.
Hraðið menn og komið kvinnur
kirkju lífsins nú að sjá!

*Fógetinn*

Hurðina' upp!

*Múgurinn*

Ei hurðu þá

*Brandur*

Húsið það er stærra' að sjá!
Gólfið er hin græna jörð,
gil og sund og fjöllin hörð,
himininn yfir hvelfir sér,
hennar ljós er sólna her.
Mál þitt skaltu alt þar inna,
inni bert í háum kór,
daga sex þó viljir vinna
vinna mátt þú hugarrór.
Hún er eins og aldin björk,
alt sem geymir lukt í berki,
orð og líf er eitt í verki.
Dagsins verk og dagsins menning
deila skal ei breytni' og kenning.

Hvergi dylgju-dul í hlé;
lífið alt í ljósi sé,
leikur barns um jólatré,
konungs dans um Drottins örk!
(Ys og þys; sumir færa sig fjær, en flestir þyrpast kringum Brand).

*Ótal raddir*

Alt er sólskin orðið nú; —
eitt hið sama: Líf og trú!

*Prófasturinn*

Hjörðina frá oss flæmir sukkari!
Fógeti, skrifari, lénsmaður, klukkari!

*Fógetinn*

(lágt)

Ekki þessi hljóðin há!
Hverjum skyldi' ei bölvið blöskra,
bolann meðan heyrir öskra!

*Brandur*

(til fólksins)

Hér er guðlaust! — Héðan frá!
Hér er spilling, þrældóms-helsi —
herrans ríki' er heilagt frelsi.
(læsir kirkjunni og tekur lykilinn)
Hér á enda starf mitt er!
Húsið tek ég hér með aftur; —
heimta skal ei mennskur kraftur
lykilinn — ég legg hann hér!
(kastar honum út á elfuna)
Moldar þý, sem ætlar inn,
skríða undir skaltu slána,
skafðu mold og grafðu tána,

undir gólfið komdu kinn;
stunur drag með dimmri storðu,
drynji náhljóð gegnum rann.

*Fógetinn*

Brandur, þú færð enga orðu!

*Prófasturinn*

Aldrei biskup verður hann!

*Brandur*

Kom þú með mér kynslóð unga,
kveddu dauðaloftið þunga;
áfram beina andans braut,
eitt sinn skaltu sigra þraut,
eitt sinn hrinda hálfum sáttum,
hætta' að vera' á báðum áttum.
Út nú, út úr eymd og neyð,
út úr hræsnis-vana doða,
óvin þínum byrgin boða,
berjist þið um líf og deyð!

*Fógetinn*

Ég les bann um brotin frið

*Brandur*

Bert! Ég segi þrotin grið.

*Múgurinn*

Sýn oss veginn, vér þér fylgjum!

*Brandur*

Voðafjöll á jökulbylgjum!
Beina leið um frón vér förum,
frelsum lýð úr sálarsnörum,
sem hann fanginn situr í,
signum, hefjum land og bý;
vegum myrkra vættir sterkar,

verum bæði menn og klerkar;
glæðum andans gróðrar-yrku,
gjörum landið alt að kirkju!

(Múgurinn þyrpist kringum hann, þar á meðal klukkarinn og kennarinn. Þeir lytta Brandi upp á herðar sér).

*Margar raddir*

Mikli dagur! Táknin tala!
Tökum rás til fjalla sala!

(fólkið æðir til fjalla; fáeinir eftir).

*Prófasturinn*

(kallar á eftir þeim sem fara).

Steinblint fólk! Hvað stendur til?
Stökkvið ei, því fjandans spil
brúkar hann svo blekkist þið!

*Fógetinn*

Hverfið aftur heim í frið!
Heim í gömlu friðar-lónin!
Hvert þá? Beint á heljarsvið?
Hm, þeir gegna' ei, bannsett flónin!

*Prófasturinn*

Hugsið þó um bygð og bú!

*Ýmsar raddir*

Búin okkar stækka nú!

*Fógetinn*

Hugsið þó til haga og engja!
Hver á að stunda kú og sauð?

*Raddirnar*

Þegar Guðs fólk fór að svengja
fekk það óðar himnabrauð.

*Prófasturinn*

Grátnar konur ganga' að sníkja!

*Raddirnar*
(í fjarska)

Gráti þeir, sem Drottinn svíkja!

*Prófasturinn*

Börnin hljóða: Faðir fer!

*Raddirnar*

Frá er hver sem mót oss er!

*Prófasturinn*
(horfir örvinglaður á eftir þeim)

Sauðlaus stend ég hrumur hirðir;
hyskið mig ei svara virðir;
inn að skyrtu er ég flettur!

*Fógetinn*
(ógnar á eftir Brandi)

Illa ferðu, svika-prettur!
Senn við munum sigur fá.

*Prófasturinn*

Sigur? Eru' ei allir þotnir!

*Fógetinn*

Ekki erum við af baki dottnir,
illa féð mitt þekki' ég þá.
(fer á eftir þeim).

*Prófasturinn*

Fjárann ætlar fógetinn?
Fer hann ekki sama veg?
Ó jú, Hæ! þá hressist ég!
Ég fer sjálfur, sótt skal vissa.
Hest minn! Ei er gott að ganga.
Fæst ei lipur, fjallvön hryssa.
(þeir fara).

(Hjá hæstu seljum bygðarinnar. Hæðir bak við öræfi. Það er rigning. Brandur og fólkið — karlar, konur og börn — kemur upp hæðirnar).

*Brandur*

Fram, fram, móti sigri' og sól!
Nú sveypar þoka dal og hól
en niðri sýður dökkgrátt djúp
og dylur bæði hlíð og gnúp.
Úr dauðans skuggum! Skundum enn,
og skeiðið vinnum, Drottins menn.

*Maður einn*

Föður minn hefur ferð sú þreytt —

*Annar maður*

Frá því í gær ég át ei neitt —

*Aðrir fleiri*

Já, fá oss bæði fæði og drykk!

*Brandur*

Nei, fyrst yfir þennan kjöl í rykk.

*Kennarinn*

Hvern veg.

*Brandur*

Hver leið er bezta braut,
sem ber oss gegnum stríð og þraut.
Fylg mér!

*Maður nokkur*

Það klungurs-klif er ljótt;
við komumst aldrei fyrir nótt!

*Klukkarinn*

Ískirkjan liggur líka þar.

*Brandur*

En leiðin þessi skemmri var

*Kona*

Æ, barnið veikt! —

*Önnar*

Mér blæðir sár!

*Þriðja*

Æ, býður engin drykkjar-tár!

*Klukkarinn*

Seð fólkið! Hér er hungurs-feikn.

*Margir menn*

Já, heyrðu prestur, gjörðu teikn!

*Brandur*

Ó, hversu þungt er hlekkja-hýðið,
þið heimtið launin fyr en stríðið!
Nei, burt með óp og eymdar-köf,
eða' aftur heim í sömu gröf!

*Kennarinn*

Jú, rétt fer hann, við hljótum stríða,
og hnossins fyrst í trúnni bíða

*Brandur*

Já fólk, þín von skal vissa gjörð,
eins víst og Drottinn stjórnar jörð!

*Margir*

Við hlýðum; sjá við höfum spámann!

*Einn maður*

Hvar er sigurinn? Ég vil fá hann!

*Annar*

Verður ei stríðið voða-skætt?

*Enn annar*

Verður ei lífi mínu hætt?

*Kennarinn*
(í hálfum hljóðum)
Þarf ég að hugsa' um harða raun?
*Annar maður*
Hver eru mér nú boðin laun?
*Ein kona*
Ég vona lífs að sjá minn son?
*Klukkarinn*
Er sigursins á morgun von?
*Brandur*
(lítur í kringum sig)
Um hvað er spurt með hræðslu-kvíða?
*Klukkarinn*
Um það, hve lengi þurfi að stríða,
og því næst um hvað kosti raunin,
og síðast, — hver sé sigurlaunin.
*Brandur*
Þeir sækja svars?
*Kennarinn*
Já, áð'r en fóru,
í öðrum þönkum flestir vóru.
*Brandur*
Svo hlýðið til!
*Múgurinn*
En hef þú tal!
*Brandur*
Hve lengi stríðið standa skal?
Það standa skal til lífsins enda,
uns þér hafið allar fórnir fært,
og forðast undanbrögðin lært, —
uns viljans kunnið bogann benda,

og boðorð Drottins: Gef þú alt!
í hverri sálu hljómar snjalt!
Hvað kosti stríðið? Gjörvöll goðin,
alt hálfverks-skran sem hugann fyllir,
hvert holdsins band, er syndin gyllir,
alt vana-slen, sem vermir doðann.
Og sigurlaunin? Sálin hreina,
hinn sanni vilji, trúin beina,
sem fyrrist enga fórnargjöf,
en fagnar tárum, deyð og gröf, —
og þúsund brodda þyrnikrans, —
þetta' eru sigurlaun hvers manns!

*Múgurinn*
(óður og ær)

Tælt, logið, hrakið, hrætt og svikið

*Brandur*

Hef ég bak orða minna vikið?

*Einstakir*

Þér hafið sól og sumri heitið,
en sigri nú í fórnir breytið.

*Brandur*

Ég hét því víst — og segi' og sver
að sigur skuluð vinna þér.
En hver sem reynir fremstur fal,
hann falla mun með sæmd í val;
en hver sem hygst að hlífa sér,
skal hopa fyr en barist er.
Því fallið er til foldar merki
ef fylgir ekki viljinn sterki,
og fölnir þú á fórnarsvæði,
er feigð þín vís þó hvergi blæði!

*Múgurinn*

Sú heimting finst oss hörð og köld,
að hníga fyrir seinni öld.

*Brandur*

Á fornarbraut er för vor gerð
um fjallaslóð til Kanaans.
Til heilags fjalls! Á hug hvers manns
ég heiti nú sem Drottins sverð!

*Klukkarinn*

Jú, það er skapleg skammar ferð!
Í skjólin heima fokið er. —

*Kennarinn*

Nei, aftur heim ei hverfum vér.

*Klukkarinn*

En hvað á lengra þessi mergð?

*Fáeinir*

Við drepum hann!

*Kennarinn*

Það væri verra,
oss vantar fyrirmann og herra.

*Konur*

(benda hræddar)

Ó, karlinn!

*Kennarinn*

Hvaða hræðslu-yrði!

*Prófasturinn*

(kemur með nokkra menn að neðan)

Mín heilla börn, og elsku-hjörð!
Æ, gleymið ei þeim gamla hirði!

*Kennarinn*

(til fólksins)

Við erum flæmd úr okkar firði,

og finna hljótum nýja jörð.

*Prófasturinn*

Ég beygist eins og gamalt girði,
svo gremst mér ykkar villa hörð.

*Brandur*

Þú hafðir lengi veikan vörð

*Prófasturinn*

Æ, heyr ei, lýður; hann þig seður
með hauga-lýgi.

*Ýmsir*

Það er satt!

*Prófasturinn*

Æ, iðrist, við erum vægir feður;
þá verður mörgum hjartað glatt.
Já, notið augun augnablik,
og eygið nú þau djöfuls svik,
sem drógu' á tálar ykkur alla!

*Margir*

Já, erki-svik má þetta kalla!

*Prófasturinn*

Og hyggið að, hvað eruð þið?
Aumingjar, fáir, lítils metnir.
Eruð þið menn til afreks getnir,
að veita þjóðum frelsi' og frið?
Þið eigið að hirða hver sitt kot,
en hvað eiga þessi ráða-brot?
Hvað viljið þið í storm og styr?
Nei, standi hver við sínar dyr!
Hvað? Ætlið að veiða varg og örn,
og vega ljón og fella björn?
Nei, hætti hver og hýrist kyr!

Æ, hlýðið mér, mín kæru börn!

*Múgurinn*

Já, það er satt, við sjáum það!

*Klukkarinn*

En samt, þá fórum heiman að,
við höfðum allir kvatt vor kot
og komumst því í ráðaþrot.

*Kennarinn*

Nei, hann hefur auglýst okkar bygð,
að alt sé þar tóm svik og lygð,
svo fólkið ekki framar sefur,
og una lengur vill ei við
sinn vana-svefn og klækja sið.

*Prófasturinn*

Nei, þvílíkt enga þýðing hefur.
Í kvöld, ef alt er kyrt í dag,
þá komist þið í sama lag,
í sama logn og ljúfu ró;
því lofa ég, og þá er nóg.

*Brandur*

Kjósið menn og konur!

*Sumir*

Heim!

*Aðrir*

Við komumst það ei; lengra' á sveim!

*Fógetinn*

(kemur hlaupandi).

Sú hepni, að ég fólkið fann!

*Konur*

Æ, firtist ekki, góði mann!

*Fógetinn*

Nei, flýtið ykkur, fylgið mér,
því fegri tími runninn er;
ef hættir þessi upphlaups öld,
eru' allir ríkir fyrir kvöld!

*Ýmsir*

Hvað? Hvernig?

*Fógetinn*

Fiski-mergðar-mok,
sem mor að sjá um allan fjörðinn!

*Múgurinn*

Hvað segir hann?

*Fógetinn*

Flýið fjúk og rok,
og flýtið ykkur niður skörðin.
Slík ofsa-gegnd kom aldrei hér.
Nú eflist, vinir, fósturjörðin,
því happatíð í hönd oss fer!

*Brandur*

Um kosti tvo þér kjósa eigið.

*Fógetinn*

Við kjósum heldur vitið, segið!

*Prófasturinn*

Vér sjáum, þessi fiska-feikn
er fingur Guðs og himneskt teikn.
Þá dásemd víst í draumi ég sá,
þó dæmdi ég það martröð þá;
nú verður margur maður ríkur!

*Brandur*

Sá missir alt, sem Drottinn svíkur!

*Margir*

Stór-gegnd og vaða!

*Fógetinn*
Vík hver full!
*Prófasturinn*
Hér veitist öllum brauð og gull!
*Fógetinn*
Nú, allir sjá að ei er tíð,
að ætla sér að byrja stríð
við ofurefli' og ósköpin,
slíkt undrar sjálfan prófastinn.
Hann Drottinn um sig sjálfur sér,
hans salur loftsins festing er.
Að flæmast burt er flan og dauði.
Nei, fljótt í móti gnægð og auði!
Hér boðast iðn með iðgjöld rif,
sem ekki kostar blóð né líf
og heimtar enga uppoffrun,
þótt efnin vexi' að stórum mun.

*Brandur*
Nei, offur-krafa helg og há
nú hljómar niður Drottni frá.

*Prófasturinn*
Þið bjóðið offur, börnin smá?
Já, blessuð, næsta sunnudag:
Það eflir margra auðnu hag. —
Þið komið, börn mín!
*Fógetinn*
(tekur fram í).
Já, já, já!
*Klukkarinn*
(til prófasts, lágt).
Mér verður ekki vikið frá?

*Kennarinn*
(eins).
En völdin mín við skólann þá?
*Prófasturinn*
Þið þurfið eflaust engu' að kvíða,
ef ykkur fólkið vildi hlýða.
*Fógetinn*
Heim, heim! Því ei er betra' að bíða!
*Klukkarinn*
Svo komi hver, sem koma kann!
*Nokkrir*
Og kveðja prest? —
*Fógetinn*
Þann óða mann!
*Kennarinn*
Já, þetta' er hverjum hægt að skilja,
því hér má lesa Drottins vilja!
Að svíkja klerk ég kalla rétt,
hann kendi ykkur bull og prett.
*Ýmsir*
Hann tældi menn.
*Prófasturinn*
Hans trú er háð,
hann tók ekki' einu sinni *láð!* (laud)
*Nokkrir*
Hvað var það?
*Fógetinn*
Klaufa karaktér.
*Klukkarinn*
Þá kemur heim! Því hikum vér?

*Prófasturinn*

Og þrjózka lund hann þótti sýna,
að þjónusta' ekki móður sína!

*Fógetinn*

Og kvaldi' hann ei í kröm sitt barn?

*Klukkarinn*

Og konu sína!

*Konur*

Ó, það skarn!

*Prófasturinn*

Já, slæman föður, mög og mann
við megum kalla fráviltan.

*Margir*

Vort gamla hús í grunn hann reif!

*Aðrir*

Hið gefna aftur frá oss hreif!

*Enn aðrir*

Hann flæmdi' oss út á flæðisker!

*Fógetinn*

Hann fíflaklefann sveik frá mér!

*Brandur*

Á sérhvers ykkar svip má benda
og sýna hvar þið munuð lenda.

*Allur hópurinn*

(hamslaus).

Hó, hó! Við gripum grjót og sand
og grýtum þennan Vítis-Brand!

(Brandur er eltur inn á öræfin með grjótkasti. Smátt og smátt koma þeir sem elta).

*Prófasturinn*

Æ, börnin mín, og heilla-hjörð!
þið hverfið nú til átthaganna;

og ef þið betrun sýnið sanna,
er sáttin þegar aftur gjörð.
Æ, herrans náð er harðla góð,
og heimtar ekki saklaust blóð.
Og vart er stjórn í veröld hér
eins væg og sú, sem höfum vér;
og ekki sýna ólögin
þeir amtmaður og fógetinn;
og mér eru' alltöm mildu orðin,
því mannúðleg er tíðin vorðin.
Með slíkum eðla-yfirmönnum
er yndi' að lifa í kærleik sönnum.

*Fógetinn*

Og ef hér finnast einhver spjöll,
má óðar hitta ráðin snjöll,
þá friður er um bygð og bú;
við setjum okkur nýja nefnd
með nægilegu viti og fremd,
sem lífgi hjá oss líf og trú.
Þar skulu prestar prýða sess,
og prófastur er sjálfkjörinn,
og kannske líka kennarinn
og klukkari', ef menn æskja þess
og aðrir svo af ýmsum lýð,
svo aldrei geti komið stríð.

*Prófasturinn*

Og svo sem þið nú sviftið byrði
og sorg af ykkar gamla hirði
eins bið ég ykkar bætist neyð.
Hve trúin verður trygg og sterk,
fyrst tilféll þetta kraptaverk!

Farvel! og hlaðið hverja skeið!

*Klukkarinn*

Já, þetta' eru menn með mildu hjarta!

*Kennarinn*

Sem meður trúarhógværð skarta.

*Konur*

Svo yndislega ávarps-nettir.

*Aðrir*

Alþýðuvinir, sannir, réttir!

*Kennarinn*

Þeir kvelja' ei úr oss krapt og þor.

*Klukkarinn*

Þeir kunna meir en faðir-vor.

*Prófasturinn*

Já, þetta eykur von sem vald,
og víst fer margt að lagast hér;
og þökk sé Guði, þrotið er
ei það, sem kallast apturhald.

*Fógetinn*

Nei, þakka mér þér megið mest,
hve merkilega vel gekk ferðin.

*Prófasturinn*

Ó, kraptaverkið kom oss bezt. —

*Fógetinn*

Hvað, kraptaverkið?

*Prófasturinn*

Fiskimergðin.

*Fógetinn*

Nei, — það var eintómt þvaður, *það*.

*Prófasturinn*

Hvað? Þvaður?

*Fógetinn*

Já. Ég sagði hvað
mér datt í hug, og hugði rétt
að hafa' í frammi lítinn prett
í viðlögum.

*Prófasturinn*

Að vísu, já,
í viðlögum það gera má.

*Fógetinn*

Og þegar alt er gott og glatt
og glæsilegur sigur fenginn,
um hátt og tildrög hirðir enginn,
hvort skrökvað, eða sagt var satt.

*Prófasturinn*

Já, aldrei stirður staur ég var. —
(horfir inn á öræfin).
Hvað, staulast ekki Brandur þar
með veikum burðum? —

*Fógetinn*

Svikinn, sár,
og sýnist heldur vina-fár.

*Prófasturinn*

Jú, einhver fylgir, ekki hár,
á eftir langt

*Fógetinn*

Hvað, — stelpan Gerður!
Einn fylgihundur honum verður!

*Prófasturinn*
(kátur).

Nú fyllir hann sín fórnarhlóð,
og fær svo loks þau erfiljóð:
Hér hvílir Brandur, friði falinn,

hann frelsaði einn — og sá var galinn!

*Fógetinn*

(leggur fingur á nef sér).

En ef ég skoða alt sem bezt,
ég álít mannúðleika brest
hér sýndan þó við sóknarprest.

*Prófasturinn*

(yptir öxlum).

„*Vox populi vox dei est*“! [1])

(Inni á öræfum. Óveðrið feykir skýjunum yfir jökulbreiðuna. Svartir tindar koma og hverfa í snjóþokunni).

*Brandur* kemur rifinn og blóðugur inn á fjallið.

*Brandur*

(stendur við og lítur aftur).

Upp á leið mér ótal fylgdu,
engir fara lengra vildu.
Hátt í allra hjörtum talar
hulin þrá um betri tíð;
allra manna sálum svalar
sigurvon, ef kemur stríð.
En að fórna allir hræðast,
ekkert viljaþrek má glæðast.
Það, að einn fyrir alla deyði
á að helga mannsins bleyði!
Oft ég stóð með hreldu hjarta
hræddur, eins og barn við vofu,
inst í dimmri draugastofu;
dundi bylur, hundur gó;

---

1) Rödd lýðsins er rödd Guðs.

en ég hug minn herti þó,
hugsaði, þó sýndist kvöld:
þetta gera gluggans tjöld.
Dreymdi svo að dagroðinn
lýsti burtu ljótri vofu,
lýsti inst í huga minn
og ég bjartri stæði' í stofu.
Ó, hve ég mig illa sveik:
Alt var nótt og vofa bleik!
Húsgangs sál í hverri vík,
hindurvitni forn mig dreymdi,
og sem helgigripi geymdi
eins og forðum Lúfa lík;
líkt og hann þeir hreifðu flík,
eins þeir lágu lon og don,
lifðu' í þeirri svika-von,
blóðsins mundi blómið rauða
brosa gegnum vangann dauða.
Enginn dæmdi eins og hann
úldið hræ í grafar rann;
allir vildu orð þau hrekja:
Enginn má þann dauða vekja;
eitt skal verða, lík og láð,
líkið moldu þykt skal þekja,
þar sem nýrra lagt er sáð. —
Nóttin enn, og nóttin enn
nístir konur, börn og menn!
Hefði' ég loftsins leyftrið rauða
leysti' ég þá frá karar-dauða!
(hleypur upp).
Hugur minn á helreið starir,

huldufólk og næturfarir.
Tíminn hrópar: Fari friður,
fleygið staf en grípið sverð!
Kallar: Nú skal gangskör gerð;
trú sé full, en tóm sé slíður.
Ég sé bræður falla feiga,
frændur sé ég líka deiga
sína bolla' af bleyði teyga.
Ógnir sé èg enn þá fleiri, —
eymdarklið og væl ég heyri,
kvenna grát og karla óp —
kveðast engin skynja hróp,
segja herrann hafi gert sig
fátækt lið á fjarri strönd,
halda, þegar hristast lönd
heimsku þeirra vesæl goð
reynast muni styrktarstoð.
Blæja vor, hvar blaktir þú?
Boðast ekki þrælkan ströng?
Fyr með litum þremur þú
þrumdir fögur hátt frá stöng;
kvað þá lýður sigursöng.
Merkið drauma-kongur klauf,
kleyfðrar tungu bjó til rauf.
En hvað þýða tungur tvær
tennur ef ei sýna þær?
Máttu' ei kappakvæðin þegja,
konungurinn skærum fleygja?
Ferhyrnt merki má oss stoða,
merki, sem er haft í voða
þegar skipið berst á boða!

Verri sjónir, verri tíðir
vitrast mér, þér blindu lýðir!
Bretlands kalda kolaský
kyngis-drunga byrgir landið,
flekkar allan fagran ljóma,
fjötrar allan vaxtarblóma,
gjörir alt með eitri blandið;
árdagsbirtan snýst í rökkur,
fer með alt, sem feigðarmökkur
forðum eyddi sekan bý. —
Þá er fólkið fallið lágt;
gegnum náma glætra-göng
glymur steinn af leka-söng;
dynur bæði dag og nátt
dvergabusl og fótatak;
krept er sál og bogið bak;
glápa þeir með girndar-augum
gróðans eftir svika-haugum;
kalda sál í brjósti byrgja,
bræðra fall þeir lítið syrgja;
hamra, sverfa' að heljarslóð;
hér er komin voluð þjóð,
sem því gleymir örg og ær:
Yfir máttinn skyldan nær.
Verri sjónir, verri tíðir
vitrast mér, þér blindu lýðir.
Vitsins úlfur ógnar jörðu,
orðsins gleypa vill hann sól;
norðrið skera hljóðin hörðu,
heróör berst um alla fjörðu;
móti dverga gellur gól:

Gott er meðan *hér* er skjól!
Höfuðlöndin látum stríða,
látum *aðra* stikna, kvíða,
oss er hentast heima' að bíða, —
hér er skortur flestra efna,
ekki vert í stríð að stefna;
fyrir brot af frelsi þjóða
friðinn er ei vert að bjóða.
Fyrir oss var enginn dæmdur,
enginn kvala-bikar tæmdur,
fyrir okkur enginn krans
enni særði lausnarans;
fyrir oss gekk ekkert spjót
inn að Drottins hjartarót;
til að nema nauð frá oss
negldur var hann ei á kross.
Vér erum fámenn, fátæk þjóð,
flýjum grimma vopnaslóð;
fyrir aðra flaut hans blóð!
Ólarsvipan oss er nóg
Ahasverus, skóarans;
fagurrautt um herðar hans
hrundi blóð, því fast hann sló, —
ólarfarið er oss nóg! —

(Hann kastar sér niður og eys yfir sig snjónum; eftir litla stund lítur hann upp).

Hef ég vaknað? Hef ég sofið?
Hví er alt sem draumi ofið?
Skal ég hafa hingað til
horft á eintómt drauma spil?
Drottins mynd í mannsins sál,
mun hún líka hugartál?

Andans frumrót eydd og spilt?

(hlustar).

Óm og söng er loptið fylt!

*Söngur hinna ósýnilegu*

(dunar í storminum).

Undan víktú, undan víktú!
Adams dómur fylgir þér.
Eftir-líktú eða svíktú,
illa ferðu hvort sem er!

*Brandur*

(hefur upp orðin og segir hljóðlega).

Ó, ég veit það! Ó ég sá hann!
Inn í kórnum horfði' ég á hann,
höndu mér í móti brá hann.
Hann mig allri eigu svipti,
öllum stoðum frá mér kipti,
lét mig einan líða' og stríða,
loksins mestu hrakför bíða.

*Hinir ósýnilegu*

(hærra, og beint yfir höfði honum).

Duftið má ei Drottni líkjast,
dauðans skál þú hefur tæmt.
Eftir fylgja og undan svíkjast
eins að lokum verður dæmt!

*Brandur*

(hægur).

Yndi, ró og einkabarn
ofurselt á dauðans hjarn
fyrir blóðug fórnartár,
fyrir stríð og hjartasár!

*Hinir ósýnilegu*

(röddin er mild og laðandi):

Hættu dimmum drauma-vegi,

dæmdur varstu á eyði hjarn;
fórna þinna þarf hann eigi,
þú ert kjörið moldarbarn!

*Brandur*
(með veikri grátrödd)

Álfur, Agnes, hingað, hingað!
Hér í grimmum norðanvindi
sit ég aleinn efst á tindi; —
illar fylgjur kvelja, stinga! —

(hann lítur upp; það glaðnar til í þokunni, kona í hvítri skyrtu stendur andspænis honum. Það er Agnes).

*Svipurinn*
(breiðir út faðminn brosandi)

Ég er komin, kæri, sjá!

*Brandur*

Komin? Agnes! Er það þú?

*Svipurinn*

Illur draumur á þér lá;
allar þokur birta nú.

*Brandur*

Agnes!
(ætlar að hlaupa til hennar)

*Svipurinn*
(hrópar hátt)

Gakk ei yfir þar!
Ógnardjúp við fót þinn gín,
iðan ljót þar hverar, hvín.
(blíðari)

Loksins ertu, vinur, vakinn,
villum ekki lengur hrakinn.

Dreymdi þig ég dæi frá þér?
Drakkstu nokkurt eitur-vín?
Heil og kyr er konan hjá þér.

*Brandur*

Ó, þú lifir, elskan mín!

*Svipurinn*
(fljótlega)

Fáumst ekki fleira um það;
flýtum oss úr þessum stað.

*Brandur*

Álfur?

*Svipurinn*

Sá ei heldur hel.

*Brandur*

Hann er lífs?

*Svipurinn*

Og dafnar vel.
Þig hefur alt þitt ólán dreymt;
alt þitt heimsku-stríð sé gleymt.
Móðir þín nú annast Álf,
eins og barn hún dafnar sjálf.
Kirkjan hangir uppi enn;
ofan takast mætti senn.
Sóknin unir sömu högum
sem á okkar góðu dögum.

*Brandur*

Góðu?

*Svipurinn*

Okkar gullöld, já.

*Brandur*

Gullöld?

*Svipurinn*

Brandur, stundum þá!

*Brandur*

Æ, mig dreymir.

*Svipurinn*

Ekki lengur

að þér nema þreyta gengur.

*Brandur*

Ég er hraustur.

*Svipurinn*

Hraustur? Nei,

hrollur þinn er farinn ei.
Aptur ferðu' á eyðihjarn,
yfirgefur konu og barn,
aptur kemur æðisdróminn, —
ef þú vilt ei læknisdóminn.

*Brandur*

Gef mér, sýn mér!

*Svipurinn*

Sjálfur áttu' hann,

sjálfum þér þú gefa mátt hann.

*Brandur*

Nefndu lyfin.

*Svipurinn*

Læknirinn

loksins skildi sjúkdóm þinn;
hann er skýr og skilur margt,
skarpleik hans þú rengja' ei þarft.
Villu og reyk, sem veður þú,
valdið hafa *orðin þrjú.*
Rektu þau úr muna og minni,

máðu' af lögmálstöflu þinni.
Það eru þau, sem galdur gólu,
glöptu vit og byrgðu sólu.
Hrynd þeim burt úr hugans inni,
hverfa mun þá stríðið kalt.

*Brandur*

Hver þá?

*Svipurinn*

„*Ekkert eða alt*“.

*Brandur*
(hopar)

Er það svo?

*Svipurinn*

Já, sem jeg lifi,
satt og víst sem heljar dyr.

*Brandur*

Ó og vei! Því okkur yfir
enn þá hangir sverð sem fyr!

*Svipurinn*

Hlýtt er við mitt brjóst og barm,
Brandur, ljá mér sterkan arm!
Leitum uppi yndisbrautir.

*Brandur*

Annað sinn ei mæta þrautir.

*Svipurinn*

Æ, þær bíða, Brandur, víst.

*Brandur*

Bíða? Nei, það hygg ég sízt.
Burt með sorg úr sál og trú, —
sólskin lífsins byrjar nú!

*Svipurinn*

*Lífsins?*

*Brandur*

Agnes, komdu!

*Svipurinn*

Kyr!

Hvert þá?

*Brandur*

Hinar réttu dyr:
Snúa nótt í dáð og dag,
drauma-söng í vöku-lag.

*Svipurinn*

Hvílíkt óráð! Hugleið þú
hvar þú lentir!

*Brandur*

Reynum *nú!*

*Svipurinn*

Lífs og vakinn hyggstu' að halda
heldur út í myrkrið kalda?

*Brandur*

Lífs og vakinn.

*Svipurinn*

Láta barnið?

*Brandur*

Láta barnið.

*Svipurinn*

Hvað?

*Brandur*

Ég hlýt.

*Svipurinn*

Reka mig á heljar hjarnið,

**hvar ég aldrei sólar nýt**
**uns sem fórn ég fell?**

*Brandur*

**Ég hlýt!**

*Svipurinn*

**Á þá ljósið alt að dvína,**
**aldrei nokkur geisli skína**
**yfir sorg og mæðu mína?**
**Fæ ég, fæ ég aptur öngva**
**unun minna gömlu söngva?**

*Brandur*

**Magna þú ei mína raun!**

*Svipurinn*

**Manstú ei þín fórnarlaun?**
**Allar vonir urðu' að lygðum,**
**allir sviku þig í trygðum.**

*Brandur*

**Ei fyrir mig er unnin hríð,**
**ei fyrir laun er háð mitt stríð.**

*Svipurinn*

**Fyrir latan lýð er sefur.**

*Brandur*

**Ljósið einn þeim mörgu gefur.**

*Svipurinn*

**Fyrir öld, sem á að deyja!**

*Brandur*

**Alt má viljans kraftur beygja.**

*Svipurinn*

**Gæt, hins eina ógnar-hrís**
**Adam rak úr Paradís.**
**Hennar hlið þú opnar ei.**

*Brandur*

Andans grunur segir: Nei!

*Svipurinn*

(hverfur með óhljóðum; þokan svífur nær; dunur og óp heyrist eins og einhver flýi undan með æsingi).

Þú ert heimsins hneyksli! Dey!

*Brandur*

(stendur stundarkorn eins og agndofa)

Burtu ferleg flyksan strauk,
fáránlega' í lofti syngur;
grylti í kaldan kynja-hauk. —
Krafan var minn litli fingur;
meinti heila handlegginn!
Hér var samnings-djöfullinn!

*Gerður*

(kemur með byssu)

Seg mér, prestur, sástu' hann hauk?

*Brandur*

Jú, jú; þetta sinn ég sá hann.

*Gerður*

Segðu mér þá hvert hann strauk;
ég vil elta, ég vil fá hann!

*Brandur*

Ekkert vopn má vinna á hann.
Stundum sýnist sem hann flýi,
særður gegn af hvössu blýi,
en ef viltu út af slá hann,
ýfist hann með ljótu kvíi,
líkur gráu galdra-skýi
gelur yfir höfði þér.

*Gerður*

Skotmannsbyssan bættist mér;
stál og silfur í henni er.
Ég veit sumt, þó ég sé smá.
Ég skal hitta.

*Brandur*

Skjóttu þá!
(ætlar að fara)

*Gerður*

Hví þá muntu haltur ganga?
Hvað mun valda?

*Brandur*

Fólkið dró mig.

*Gerður*

Hríslast blóð um hvítan vanga;
hvað mun valda?

*Brandur*

Fólkið sló mig.

*Gerður*

Áður gall þín ógnar-raust,
ymur nú sem lauf um haust.

*Brandur*

Allra brást —

*Gerður*

Hvað?

*Brandur*

Trú og traust.

*Gerður*

(horfir á hann stórum augum)
Það er *hann*, — nú þekki' ég fyrst!
þú ert, sem sé, enginn prestur; —

fari *hann* í heljarvist! —
Heyrðu, þú ert allra mestur!

*Brandur*
(við sjálfan sig)
Víst sú trúin var minn brestur.

*Gerður*
Lát mig þínar horfa' á hendur.

*Brandur*
Hendur?

*Gerður*
Sjá hvort nagli stendur —
blóðið trúi ég fram þar fossi,
förin eftir þyrni brodda;
spor og rispur eftir odda.
Þú hefur hangið hátt á krossi!
Pabba heitinn man ég minn,
margt hann kvað við ungann sinn,
gat um einhvern ógnar-mann,
óttalega krossfestan. —
Nei, nei, það er þó ei hann:
*Þú* ert endurlausnarinn!

*Brandur*
Burtu!

*Gerður*
Á ég fram að falla
fyrir þér og reka' upp hljóð?

*Brandur*
Frá mér langt!

*Gerður*
Þitt benjablóð
blæddi til að frelsa alla!

*Brandur*

Ó ó! Ég sem ei sé ráð
eigin sál að veita náð!

*Gerður*

Hér er byssan — bezt að deyða —

*Brandur*

(hugsandi)

Breyzkan á að temja, leiða.

*Gerður*

Ekki þig, því þú ert beztur!
Þarna er stungið lófans hold!
Þú ert góður, meiri mestur!

*Brandur*

Ég er bóla, maðkur, mold.

*Gerður*

(lítur upp; þokan léttist)

Veiztu hvar þú ert?

*Brandur*

(fram fyrir sig)

Ég er
allra neðst, með klökku hjarta;
fjall er hátt, en fjötur sker.

*Gerður*

(ákafari)

Veiztu hvar þinn fótur fer?

*Brandur*

Flýr þar ekki þokan svarta?

*Gerður*

Líttu' á, sjáðu' hann Svartatind,
svala himinblámans lind!

*Brandur*

Ískirkjan!

*Gerður*

Já, einmitt, nú
í henni þó lentir þú!

*Brandur*

Héðan burt sem bráðast snú!
Ó, sú heita andans þrá
eftir ró og hjartafrið! —
Hvar er kyrð og kirkju-grið?
Hvenær fæ ég sól að sjá?

(fellur í grát)

Ó, minn Jesú, ásján þín
aldrei leit í náð til mín,
eins og hljómur fór og fer
fram hjá mér þitt líknarvald;
opna nú þitt náðartjald,
nóg er ef þú réttir mér
skikkju þinnar skrúðafald!

*Gerður*

Góði maður, grætur þú!
Grætur heitt, svo kinnin sviðnar,
heitt, svo íssins hjúpur þiðnar,
heitt, svo jökulsvellið gliðnar,
heitt, svo mér við hjartarætur
hjarnið fornra kvala grætur, —
heitt, svo löf af hökulserki
hrynja gömlum jökulklerki! —

(titrandi)

En, hví gréztu' ei áður en nú?

*Brandur*

Fyrst er lögmáls fellivetur,
fyr en sólin skinið getur.
Alt til þess ég átti' að lifa
eins og spjald fyrir Guð að skrifa; —
upp frá þessu uppris dagur,
æfi minnar hlýr og fagur.
Skorpan sprakk, nú glatt er geðið;
Guð er fundinn, ég get beðið.

*Gerður*

(litur upp, smeik)

Sérðu þar hinn ljóta, leiða?
Líttu' á skuggann svarta, breiða!
Skrímslið tindinn sker og rífur,
skaflana með vængjum slær;
frelsistíminn nú er nær; —
ef að silfrið á hann hrífur.
(setur byssuna við kinn sér og skýtur. Dunur í jöklinum)

*Brandur*

(hrökk við)

Hvílíkt óvit!

*Gerður*

Ofan svífur
illur kauði; sko, hann fellur;
hátt hann emjar, hvín og gellur;
eins og drífa fiðrið fýkur,
fannabrúnin gýs og rýkur.
Nei hve stór! Og hvítt hans fiður!
Hingað beint hann veltist niður!

*Brandur*

(eins og yfirkominn)

Ættarstofninn ef að brýtur

arfinn líka deyja hlýtur.

*Gerður*

Loftið varð svo vítt og glatt
vargurinn þá niður datt;
ekki lengur emjið gellur,
óhrædd skal ég niður grúfa. —
Hvað þá? Er hann orðin dúfa?

(óttaslegin)

Æ, æ, hvaða gnýr og smellur!

(kastar sér niður í snjóinn)

*Brandur*

(bröltir í snjóflóðinu, kallar upp úr kafinu)

Seg mér, Guð, í þingstu þraut,
þýðir ekkert lífs á braut
viljans krafta *quantum satis?*

(snjóflóðið byrgir hann. Allur dalurinn fyllist).

*Rödd*

(hljómar gegnum dunurnar)

*Hann er* deus caritatis!

Endir.



# Prentvillur.

Bls. 15, *kynnistför* les *kynnisför*.
— 15, *alt einu* les *alt í einu*.
— 16, *sleit ei þá* les *sleit ei þó*.
— 17, *brúðkaup* les *brúðkaups*.
— 20, í 2 l. að neðan *sem* les *senn*.
— 58, *minnur* les *minnar*.
— 65, *skjöl og traust* les *skjól og traust*.
— 66, neðarlega *og andast* les *og andans*.
— 71, *sköpun floksins* les *sköpun fólksins*.
— 86, *nei, hræðstu ei* les *hræðst' ei*.
— 95, *sem eigt þér getið* les *sem eygt þér getið*.
— 122, *bárn þeir.—* les *báru þeir. —*
— 126, (1. lína) *hurningn* les *hugurinn*.
— 127, *leitt mig en* les *leitt mig enn*.
— 138, *á luktum hás* les *á luktum bás*.
— 144, *man eftir vegnum* les *man eftir veggnum*.
— 146, (efsta l.) *hyggjum saman* les *byggjum saman*.
— 149, (efsta l.) *vorum byggum til* les *bygðum til*.
— 151, (neðarlega) *skuldar* les *Skuldar*.
— 168, *Brandur. Húfar* les *Brandur Húfan?*
— 168, *Í hönd mér her* les *Í hönd mér hér!*
— 172, (ofarlega) *frá að detta,* les *frá að þetta*.

Bls. 172, *Söl, ver trú* les *Sál, ver trú.*
— 180, (ofarl.) *vöröld* les *veröld.*
— 181, (neðarl.) *þrumn-rofa* les *þrumu rofa.*
— 182, (ofarl.) *Og mundu til* les *Og mændu til.*
— 184, (ofarl.) *hvin og óp* les *hvin og hróp.*
— 184, *brausts* les *brauzt.*
— 188, *það loforð þegja* les *lofsorð þegja.*
— 202, (neðarl.) *En til bess* les *En til þess.*
— 206, (neðarl.) *og mista' gatan* les *og misjöfn gatan.*

---

☞ Þessi útgáfa er sjerprentun úr „Íslandi“ II. árg., 1898.

---

